# ÁGRIP

AF

# SÖGU ÍSLANDS

EPTIR

**ÞORKEL BJARNASON,**

prest á Reynivöllum.

REYKJAVÍK, 1880.

PRENTAÐ Í ÍSAFOLDAR PRENTSMIÐJU Á HENNAR KOSTNAÐ.

**Leiðréttingar:**

Bls. $34_4$ stjórnar les óstjórnar.
— $62_{15}$ skólanna — stólanna.
— $98_{24}$ þó — þá.

## Formáli.

Um bækling þenna þarf eigi mörg formálaorð, hann er eigi svo langr; hann er ætlaðr til þess, ef til þess þykir hæfr, að gefa unglingum, sem ganga eiga menntaveginn, og öðrum þeim er vilja, lítið sýnishorn af æfiferli þjóðar vorrar.

Eg var í byrjun í miklum vafa, hvort eg ætti að láta ágrip þetta hafa sem mest af einstökum viðburðum og mannanöfnum, eða þá að hafa sem fæst af því, en reyna til að taka stuttlega fram almennan þráð sögunnar, sem lausastan við atburðina. Að láta hið fyrra ráða, fannst mér hlyti um of að gjöra ágripið þurrt og leiðinlegt að lesa, en væri hinu síðara eingöngu fylgt, virtist mér, að þá kynni það að verða miðr áreiðanlegt og fremr hugleiðing þess, er ritaði, en saga á rökum byggð. Eg hefi nú viljað leitast við að sameina þetta hvorttveggja, með því að telja fyrst á hverju tímabili atburði þá, er mér þóttu merkastir, og hafa síðan dálítið almennt yfirlit yfir tímabilið.

Mjög opt hefi eg verið í vafa um, hvað eg ætti að taka, og hverju að sleppa, og getr menn jafnan greint á um það í stuttu ágripi, enda ímynda eg mér, að það muni eigi minna vandhæfi að semja stutt yfirlit en lengri sögu, einkum þegar svo á stendr, að engin samföst saga er til áðr, og geng eg að því vísu, að ýmsir kunni að sakna hér margs, er þeim þykir að eigi hafi mátt missast, en aptr sé það sumt tekið, er óþarft sé; en menn mega ekki

gleyma því, að þegar um margt merkilegt er að velja, en stutt verðr að rita, verðr það töluvert að vera komið undir tilfinningu, hvað tekið er.

Eg hefi skipt ágripinu í tímabil eptir þeim atburðum og því ástandi þjóðarinnar, er mér virtist gjöra hvern tíma einkennilegan, og fannst mér, að sú skipting myndi gjöra yfirlitið ljósara, og fremr hjálpa til, að festa sér í huga breytingar þær, er á hverjum tíma urðu á hinum ytri högum og hinu andlega ástandi þjóðarinnar. Ártölin eru flest í innilokunarmerkjum og sett þannig, að bæði má lesa þau með textanum og sleppa þeim úr eptir vild.

Ágrip þetta er ekki samföst saga, svo að einn atburðriun taki við af öðrum í eðlilegu sambandi, en eg vona, að þeir, sem um það vilja dæma og geta dæmt án hlutdrægni, sjái, að slíkt er eigi unut í svona stuttum bæklingi.

Hinn alkunni vísindamaðr, skólastjóri Dr. Jón Þorkelsson, hefir lesið yfir fyrir mig handritið, og þakka eg honum hans mörgu leiðréttingar og góðu bendingar.

Eg bið alla góða menn að virða á betra veg galla þessarar litlu ritsmíðar. Auk annars hefir mig vantað bækr, tíma og næði til að leysa haua af hendi svo sem eg hefði viljað. Að endingu óska eg, að þeir, sem unna landi þessu og sögu þess, og sjá bækling þenna, mætti hafa jafnmikla ánægju af að lesa hann, eins og eg hefi haft af því að búa hann til.

Reynivöllum, 30. jan. 1880.

*Þorkell Bjarnason.*

## Efnisyfirlit.


Blaðs.

I. Tímabilið frá 874 til 1030 ...... 1—14.

Blaðs.

1. Landnám ........................... 1—7.
2. Þingsetning, söguöldin, lögsögumenn, sumarauki fundinn, fundr Grænlands, kristni tekin í lög.... 7—14.

II. Tímabilið frá 1030 til 1262 ..... 15—25.

1. Byskupsstólar settir, tíund lögtekin, lög rituð..................... 15—16.
2. Kristinréttr settr, sögur ritaðar, deilur höfðingja byrja........ ..... 16—20.
3. Sturlungaöldin, landið kemr undir Norvegskonung............ ...... 20—25.

III. Tímabilið frá 1262 til 1520 .... 26—49.

1. Gizur jarl andast, Rafn Oddsson, Jónsbók í lög tekin, Staða-Árni. 26—29.
2. Norrænir lögmenn. Álfr úr Króki. Ketill Þorláksson. Útlendir byskupar. Landið selt á leigu. Smiðr drepinn. Óstjórn veraldleg og andleg. Eldgos úr Heklu. Þjóðbjörn kemr út með fjárbeiðslur. Vilkin og Pétr byskupar.......... 29—35.

Blaðs. Blaðs.

3. Svarti dauði. Árni Ólafsson byskup. Englendingar taka að sigla til landsins og ræna þar. Jón Gerreksson byskup. Jón Vilhjálmsson byskup. Björn ríki drepinn. Ólafr Rögnvaldsson byskup. Stephán byskup Jónsson. Gottskálk byskup Nikolásson og Jón lögmaðr Sigmundarson. Lénharðr drepinn. Diðrik Píning hirðstjóri.................... 35—49.

IV. **Tímabilið frá 1520 til 1600** . . . . 50—71.

1. Ögmundr og Jón Arason byskupar. Siðbótarmenn í Skálholti. Byskupar taka hirðstjórn. Kristján III tekr konungdóm. Gizur kosinn byskup í Skálholti. Jón Arason og fylgismenn hans neita að taka við siðbótinni. Kristófer kemr út og lætr taka Ögmund. Siðbótin tekin í lög fyrir Skálholtsbyskupdæmi. Gizur andast. 50—55.
2. Byskupskosning í Skálholti. Marteinn verðr byskup. Jón ríðr í Skálholt og vestr í Dali. Marteinn kemr út og lætr ónýta dóma Jóns og gjörninga. Jón fær bréf frá páfa. Marteinn tekinn höndum. Jón byskup tekr Skálholt, Viðey og Helgafell. Jón og synir hans teknir höndum og teknir

Blaðs. Blaðs.

af lífi. Hefndir norðanmanna. Sendimenn konungs taka eiða af Íslendingum. Marteinn boðaðr utan .................................. 55—62.

3. Skólar settir. Stóri dómr. Guðbrandr verðr byskup og setr prentsmiðju. Guðbrandr fær verzlunarleyfi. Eggert ræntr. Vopnadómr. Deilur Jóns lögmanns og Guðbrands.............. 62—70.

**V. Tímabilið frá 1600 til 1786** . . . . . 71-100.

1. Harðindi. Verzlun seld á leigu. Spánskir víkingar. Fjandskapr Herlufs Daa og Odds byskups. Guðbrandr byskup kærðr fyrir konungi, hann andast. Tyrkir ræna. Galdrabrennur. Taxti settr. Hinrik Bjelke höfuðsmaðr. 71—76.
2. Friðrik þriðji verðr einvaldr. Kristján fimmti hylltr. Brynjúlfr byskup. Fógeti, amtmaðr, stiptsbefalningsmaðr settir. Lögmönnum boðið að semja nýja lögbók. —Harðræði við landsmenn.— Jón Vigfússon. Lauritz Gottrup sendr til Kaupmannahafnar. Árni Magnússon og Páll Vídalín ferðast um landið.................. 77—83.
3. Stóra bóla. Oddr Sigurðarson. Harboe sendr út. Skúli landfógeti. Verksmiðjurnar. Eggert og

Blaðs. Blaðs.

Bjarni ferðast. Eldgos og fjárkláði. Landlæknir settr. Nefnd sett og ýmsar endrbætr gjörðar. Verzlun gefin frjáls við alla þegna Danakonungs. Eldgos og harðindi. Jón Eiríksson................ 83-100.

VI. **Tímabilið frá 1786 til 1874** . . . . 101-133.

1. Hin almenna bænarskrá Íslendinga um verzlunarfrelsi. — Alþingi lagt niðr. — Prentsmiðja, byskupssetr og skóli lagt niðr að Hólum. — Ólafi stiptamtmanni vikið frá embætti.—Styrjöld milli Dana og Englendinga, óeirðir Jörgensens.—Danir láta Norveg. — Bókmenntafélagið. — Magnús Stephensen.......................... 101-111.
2. Ráðgjafarþing sett í Danmörku, en embættismannanefnd á Íslandi, og svo síðan alþingi. Latínuskólinn endrbættr og prestaskóli settr. Hin íslenzka stjórnardeild stofnsett. Frjáls verzlun leidd í lög. Fjárkláðinn. Stjórnarbótarmálið. Lög um stöðu Íslands í ríkinu sett 1871. Landshöfðingjaembættið stofnað 1872. Landið fær stjórnarskrá 5. jan. 1874. Þúsundárahátíðin.......... 111-133.

---

I.

# Tímabilið frá 874 til 1030.

## 1. *Landnám.*

Land það, er vér byggjum, fannst fyrst, svo að sögur fari af, eptir miðja 9. öld. Sá er fyrstr fann það, var Naddoðr víkingr. Einhverju sinni, þá er hann vildi halda frá Norvegi til Færeyja, hrakti hann af leið vestr í haf, og fann þar land mikið. Kom hann að landi þar sem nú heitir Reyðarfjall. Samsumars hélt hann til Færeyja, og er hann sigldi frá landinu, féll snær á fjöll, og kallaði hann því landið Snæland.

Næstr honum kom sænskr maðr Garðar Svafarsson til landsins; hann fór að leita þess að tilvísun móður sinnar; gékk honum ferðin greitt, sigldi umhverfis landið og sá, að það var eyland; dvaldi hann einn vetr nyrðra í Húsavík við Skjálfandaflóa og hélt síðan heim aptr til Norvegs. Nefndi hann landið Garðarshólma og lofaði mjög.

Nokkru síðar fór Hrafna-Flóki Vilgerðarson (svo var hann nefndr af 3 hröfnum, er hann hafði með sér), að leita Garðarshólma; lagði hann út frá Hörðalandi í Norvegi og kom austan að Horni, sigldi vestr fyrir landið og inn á Barðaströnd og dvaldist þar um vetr. Um vorið gékk hann upp á fjall eitt hátt, og sá hann þá fyrir norðan fjallið fjörð einn fullan af ísi; nefndi hann þá landið

Ísland, en fjörðinn Ísafjörð. Annan vetr var Flóki í Borgarfirði og sneri síðan aptr og lastaði landið mjög, en Þórólfr skipverji hans kvað þar drjúpa smjör af hverju strái.

Engir af mönnum þessum tóku sér í það sinn bólfestu á landinu, en það vóru fyrst þeir fóstbræðr Ingólfr Arnarson og Hjörleifr Hróðmarsson, sem fóru hingað í þeim tilgangi að taka sér hér aðsetr. Þeir höfðu drepið 2 sonu Atla jarls á Gaulum og fyrir þá sök urðu þeir að láta óðul sín í Norvegi og fara útlagir af landi innan þriggja ára. Fóru þeir þá að leita Íslands, tóku land á Austfjörðum og vóru þar einn vetr; að því búnu héldu þeir á brott aptr. Ráðstafaði þá Ingólfr fjárhlut þeirra fóstbræðra, en Hjörleifr var í hernaði. En er þeir þóttust ferðbúnir, héldu þeir alfarið til Íslands og stýrði sínu skipi hvor þeirra, og var það árið 874. En er þeir sáu landið, skildust þeir, og tók Ingólfr land þar, er síðan heitir Ingólfshöfði, en Hjörleif rak vestr með landi, unz hann lendi við höfða þann, er við hann er kendr. Þar var hann um vetrinn; en um vorið drápu þrælar hans hann, og félaga hans alla, og fóru síðan með konur þeirra og fjárhlut út í eyjar, þær er þar liggja fyrir landi, og síðan eru nefndar Vestmannaeyjar. Ingólfr fékk drepið þrælana og hélt síðan vestr um landið með sjó fram, unz hann festi byggð á Arnarhóli í Reykjavík, því að þar bar öndvegissúlur hans að landi; nam hann land allt milli Hvalfjarðar og Ölfusár. Ingólfr er merkastr allra landnámsmanna, því að hann kom að óbyggðu landi.

56 ár (frá 874—930) eru talin landnámsár landsins. Kómu sumir landnámsmenn beina leið hingað frá Norvegi, og dró það marga til Íslandsferðar þaðan, að þeir vildu ekki þjóna Haraldi konungi hárfagra, sem eptir

Hafrsfjarðarorustu (872) varð einvaldr í Norvegi; aðrir kómu hingað frá Írlandi, Skotlandi og Vestreyjum, einkum eptir að ríki Norðmanna, sem Þorsteinn rauðr, sonr Ólafs hvíta og Unnar djúpúðgu, stofnaði, leið undir lok, er Skotar drápu hann (880).

Í landnámi Ingólfs byggðu þeir frændr, Helgi bjólan, sonr Ketils flatnefs, og Örlygr gamli Hrappsson; Helgi bjó að Hofi, en Örlygr að Esjubergi á Kjalarnesi. Þá má nefna Þórð skeggja, bróður Örlygs; hann bjó á Skeggjastöðum í Mosfellssveit. Kona hans var Vilborg, dótturdóttir Játmundar Englakonungs; allir þessir kómu hingað vestan um haf.

Sama ár, sem Ingólfr byggði í Reykjavík, er Rangárþing numið. Þar nam fyrstr land Ketill hængr, ágætr maðr úr Naumudal í Norvegi. Hann brenndi inni Hildiríðarsonu, er rægt höfðu Þórólf Kveldúlfsson; nam hann frá Þjórsá að Markarfljóti og bjó að Hofi á Rangárvöllum; sonr hans var Hrafn, er fyrst var lögsögumaðr. Í landnámi hans var ágætastr landnámsmaðr Sighvatr hinn rauði, faðir eða afi Marðar gígju.

Ári síðar (878) nam Skallagrímr Kveldúlfsson Þverárþing. Þeir feðgar flýðu land fyrir Haraldi hárfagra eptir dráp Þórólfs Kveldúlfssonar, en gátu þó áðr rekið harma sinna á konungi. Kveldúlfr andaðist í hafi, en lét segja syni sínum, að setja bólstað þar nálægt, er kistu sína bæri að landi. Skallagrímr nam Borgarfjörð og bjó að Borg á Mýrum. Í landnámi hans byggðu þeir Óleifr hjalti, faðir Þórarins er lögsögu hafði, og bjó hann að Varmalæk, og Önundr breiðskeggr, faðir Tungu-Odds.

Hér um bil 6 árum síðar (884) byrja landnám á Breiðafirði, og komu þangað hin mestu göfugmenni.

Syðra part fjarðarins sem kallaðist þórsnesþing nam fyrstr þórólfr Mostrarskegg; helgaði hann þór land sitt og kallaði þórsnes. þar reisti hann hof mikið og setti héraðsþing og nefndi bústað sinn Hofstaði; var þór hinn mesti ástvinr hans. Sunnan Breiðafjarðar nam og land Björn austræni sonr Ketils flatnefs, en systir hans Unnr djúpúðga, ekkja Ólafs hvíta konungs á Írlandi, nam Dalalönd austan fjarðarins; hún kom til Íslands af Skotlandi eptir fall þorsteins rauðs sonar síns. Björn bjó í Bjarnarhöfn, en Unnr í Hvammi. Hún var hin mesta vegskona og skörungr. þá er hún var hnigin mjög, bauð hún vinum sínum og vandamönnum til veizlu ágætrar, og er veizlan hafði staðið þrjár nætr, gaf hún þeim gjafir, og réð þeim heilræði; sagði hún, að veizlan skyldi þá enn standa þrjár nætr og vera erfi sitt, og þá hina sömu nótt andaðist hún. Vestan megin fjarðarins námu þeir land, Geirmundr heljarskinn og Úlfr skjálgi frændi hans. Geirmundr var einhver hinn göfgasti allra landnámsmanna, bar hann konungsnafn og var sjálfr konungborinn. Á Hornströndum nam hann mikið land og átti þar fjögur stórbú, og er hann fór milli búa sinna, var hann við átta tigi manna, en sjálfr bjó hann á Geirmundarstöðum.

Litlu síðar (890—900) námust Strandir, Húnavatnssýsla og Eyjafjörðr. Á Ströndum var Önundr tréfótr langfrægastr landnámsmaðr; hann barðist á Hafrsfirði móti Haraldi hárfagra, þar lét hann fót sinn; varð hann síðan að flýja land, og dró það hann seinna til Íslandsferðar, og var þá mikið byggt af Ströndum, er hann kom út. Í Húnavatnsþingi var Ingimundr gamli merkastr allra þeirra er þar tóku byggð, og einn hinn bezti maðr í heiðnum sið; hann var vin mikill Haralds konungs og að hans ráði fór hann út til Íslands; nam hann Vatnsdal og bjó

að Hofi.— Miðfjörð nam Skinna-Björn; hann var farmaðr mikill, en er honum leiddust kaupferðir, fór hann til Íslands; hans son var Miðfjarðar-Skeggi.—Eyjafjörð allan nam Helgi hinn magri; móðir hans var konungsdóttir af Írlandi. Helgi var að nafni kristinn og nefndi bæ sinn Kristsnes, en þó hét hann á Þór til sæfara og harðræða. Mörgum gaf hann af landnámi sínu, og var þeirra helztr Hámundr heljarskinn bróðir Geirmundar, hann átti dóttur Helga og bjó að Espihóli.—Í Þingeyjarþingi nam Bárðr Bárðardal og bjó að Lundarbrekku; kom hann út snemma landnámstíðar. Hann tók eptir því, að veðr mundu betri fyrir sunnan land, og flutti hann sig því suðr í Skaptárfellsýslu og bjó að Gnúpum í Fljótshverfi. Annar ágætastr landnámsmaðr í þessu þingi var Eyvindr, sonr Þorsteins höfða hersis á Hörðalandi; hann nam Reykjadal og bjó á Helgastöðum.

Um og eptir 900 námust þessi héruð: Skagafjörðr, Austfirðir, Skaptárfellsþing og Árnesþing. Í Skagafirði vóru þessir landnámsmenn helztir: Sæmundr hinn suðreyski, fóstbróðir Ingimundar gamla, hann nam Sæmundarhlíð alla; Eiríkr, hann nam hið fremsta fjarðarins og bjó í Goðdölum; Hjalti, er nam Hjaltadal, það hefir erfi verið ágætast á landi hér, er synir hans gjörðu eptir hann; og Höfða-Þórðr, er kominn var af Ragnari loðbrók; nam hann Höfðaströnd alla og bjó að Höfða. Þórðr átti ellefu sonu og átta dætr og varð hinn kynsælasti maðr.—Á Austfjörðum námu þeir land: Þorsteinn hvíti, hann bjó að Hofi, frá honum eru Hofsverjar komnir; Lýtingr, er nam Vopnafjarðarströnd hina eystri og bjó í Krossavík, og Hrafnkell Freysgoði; hann nam Hrafnkelsdal; allir þessir menn tóku sér bólfestu í Norðrmúlasýslu. — Í Suðrmúlaþingi eru þeir taldir göfgastir

landnámsmenn: þeir bræðr, Ketill þrymr og Graut-Atli, þeir námu Fljótsdal neðanverðan; og Brynjólfr gamli, hann nam Fljótsdal ofanverðan, Skriðdal og Völlu. Þá má og telja Una hinn danska landnámsmann í þessu þingi. Hann fór til Íslands nálægt miðri landnámstíð að ráði Haralds konungs og nam fyrir sunnan Lagarfljót. Átti hann að vinna landsmenn til að ganga konungi til handa, en verða sjálfr jarl yfir landinu, en menn tóku honum þar illa, og var þeim ójafnaðr konungs í of fersku minni til að vilja gjörast honum lýðskyldir. Varð Uni að flytja sig þaðan suðr í Skaptárfellssýslu, og þar féll hann nokkrum árum síðar.

Af þeim eru tóku sér byggð í Skaptárfellsþingi vóru tveir göfgastir: Annar var Hrollaugr son Rögnvalds Mærajarls, bróðir Göngu-Hrólfs, er vann Norðmandí; hann hafði svo sem faðir hans vingazt við Harald, fór að hans ráði til Íslands og nam austrhluta Skaptárfellssýslu. Hinn var Özur Ásbjarnarson, afkomandi Bjarnar búnu; frá honum er kominn Brennuflosi og aðrir Freysgyðlingar. Enn má telja Ketil fíflska, dótturson Ketils flatnefs; Ketill bjó í Kirkjubæ og var kristinn vel, en afkomendr hans vóru þeir einu, er jafnan héldu kristna trú. Í Árnesþingi má og nefna 2 ágæta landnámsmenn. Annar þeirra var Hásteinn sonr Atla jarls hins mjóva; hann kom skipi sínu fyrir austan Stokkseyri og nam Flóann; var hann höfðingi mikill og spakr að viti. Hinn var Ketilbjörn hinn gamli, er nam Grímsnes ofanvert, Laugardal og Byskupstungur, og bjó að Mosfelli. Hann var svo auðugr að lausafé, að hann vildi láta gjöra bita af silfri í hofi því, er synir hans gjörðu, en er hann fékk því eigi ráðið, fal hann silfr sitt; af Ketilbirni eru hinir ágætu Haukdælir komnir, og eru nú, svo sem vita má,

hér taldir að eins fáir af þeim hinum mikla sæg, er til landsins kom og tók sér hér byggð, en þessir eru hinir helztu, þó að margir aðrir sé all-merkir.

2. *Þingsetning, söguöldin, lögsögumenn, sumarauki fundinn, fundr Grænlands, kristni tekin í lög.*

Jafnótt sem landið byggðist, vóru hof reist, til þess að menn gæti þar tignað guði sína, og þing sett, til að skipa málum manna, og gjörðu þetta í héraði hverju þeir, er göfgastir vóru og ríkastir; stóðu þeir síðan og niðjar þeirra fyrir helgihöldum, og létu gjalda toll til hofanna og nefndu menn í dóma á þingunum, og vóru þessir menn kallaðir goðar. Þeir vóru hinir æðstu valdamenn hver í sínu héraði, en þeir sem lutu stjórn þeirra nefndust þingmenn þeirra. Goðarnir máttu kveðja þingmenn sína, til að fylgja sér að málum og veita sér vígsgengi. Þeir lögðu og verð á vörur kaupmanna, og skipuðu útlendum mönnum á vist, þá er þeir vóru hér á landi um vetr. Þeir önnuðust og sveitarstjórn og höfðu jafnvel gætr á búskap manna. Goðorðin géngu í ættir og var því landstjórnin *arfgeng höfðingjastjórn.*

Brátt var landinu skipt í fjórðunga; voru 3 þing í fjórðungi hverjum, nema í Norðlendinga fjórðungi vóru þau fjögur, en í þingi hverju vóru goðar þrír. Í fjórðungi hverjum varð skjótt eitt þingið nokkurs konar yfirþing, að því leyti, að þangað var stefnt málum þeim úr fjórðungnum, er mikils þóttu varða og menn treystust eigi að fá útkljáð á héraðaþingunum, en þeir sem ríkastir vóru, settu fjórðungsþingin í sínu héraði. Á þingunum vóru dæmd mál manna og lögskil innt af höndum.

En brátt fundu menn, að ekki mátti við það hlíta, að eigi væri ein lög um land allt, og að nauðsýn bar til

þess, að stjórnarmenn landsins ætti allir þing með sér, til að setja lög og skipa málum þeim, er ekki urðu útkljáð heima í héruðum; fyrir því sendu menn til Norvegs Úlfljót; hann var af ætt Hörða-Kára. Skyldi hann setja ein lög fyrir land allt. Lög þessi setti hann að ráði Þorleifs hins spaka, og vóru þau sniðin eptir Gulaþingslögum, en þar breytt, er þess þurfti; og er Úlfljótr kom út, var alþingi sett. Hafði fóstbróðir hans Grímr geitskór kannað landið, til að velja þingstaðinn, og var hann á Þingvelli við Öxará, svo sem kunnugt er. Alþingi var sett 930; þá var og kosinn hinn fyrsti lögsögumaðr, Hrafn Hængsson. Lögsögumaðrinn var nokkurs konar formaðr þingsins; skyldi hann á hverjum þrem sumrum segja upp lög landsins að lögbergi, en á hverju sumri þingsköpin. Hann skyldi og jafnan skera úr því, hvað lög væri, þá er menn greindi á um það, og var þeim úrskurði hlýtt. Lögréttumennirnir kusu lögsögumanninn til þriggja ára í byrjun alþingis, og hafði hann að launum fyrir starfa sinn 2 hundruð vaðmála af lögréttufjám; hann átti og sektir hálfar, er dæmdar vóru á alþingi. — Á alþingi var lögréttan; í henni sátu 144 menn, 48 goðorðsmenn og 96 menn aðrir, er goðarnir nefndu til þess. Í lögréttunni fór fram lagasetning landsins, en af henni fara ekki miklar sögur, því að þar fór allt fram með friði og spekt.—Svo sýnist, sem að á alþingi hafi að eins verið í öndverðu einn dómr, sem öll mál kómu í, og var svo fram að 965; þá setti Þórðr gellir fyrirmaðr Breiðfirðinga fjórðungsdóma á alþingi, 1 fyrir hvern fjórðung landsins, og skyldu öll þau mál, er til alþingis kæmi, sækja í dóm þess fjórðungs, er sá átti þingfesti í, er fyrir sökum var hafðr. Í fjórðungsdómana nefndu goðarnir einn mann hver, en í Norðlendinga fjórðungi nefndu 12

goðar 9 dómendr og sátu þá 36 menn í dómi.—Löngu síðar (1004) setti Njáll fimtardóm, sem var eins konar yfirdómr, og kómu þangað mál öll um þingsafglöpun og mútur.

Til alþingis riðu ár hvert nálega allir höfðingjar landsins með meiri eða minni sveit manna, og fór það eptir ríki þeirra og skörungskap, en einkum drógu þeir þangað fjölmenni mikið, er þar áttu málum að gegna, því að opt vóru málalokin eins mikið komin undir liðsafla og ríki þeirra, er sóttu þau eða vörðu, eins og undir góðu málefni. Málfærsla öll var flókin, enda beittu lögkænir menn einatt lagakrókum til að ónýta mál mótstöðumanna sinna. Landið vantaði almennt framkvæmdarvald, og fyrir því gjörðust þeir, er í útlegð féllu, opt stigamenn, og gjörðu þá einatt meira spell almennum friði en áðr, án þess þeim yrði hegnt eða þeir af lífi teknir. Þó þykja dómar og lög forfeðra vorra að mörgu leyti vitrleg og hagfeld eptir ásigkomulagi lands og þjóðar.

Til alþingis kómu og skáld og sögumenn til að sýna þar íþrótt sína, skrautbúnar meyjar og fríðir yngissveinar, og má geta nærri, að þar hefir verið fjörugt líf og fríð samkoma, þar sem hið göfgasta og helzta fólk landsins var saman komið.

Með enda landnámstíðar og setningu alþingis hefst söguöld landsins. Stendr hún yfir um 100 ár (frá 930 til 1030). Á þessum hundrað ára tíma gjörast náliga allar sögur vorar. Sumar þessar sögur eru um deilur höfðingja, svo sem Hænsa-Þóris saga, Eyrbyggja og Ljósvetninga saga; Hænsa-Þóris saga segir frá brennu Blundketils, og deilu þeirra Þórðar gellis og Tungu-Odds, en þeir vóru einhverjir hinir mestu höfðingjar landsins um miðja 10. öld, Þórðr í Breiðafirði, en Tungu-Oddr í Borgarfirði. Eyrbyggja saga gjörist mest um hinn síðara hluta 10. aldar;

aðalefni hennar er um Snorra goða, er frá 980 til 1031 var ágætastr maðr vestan lands, og um deilur hans við Arnkel goða og Eyrbyggja. Ljósvetninga saga er um fjandskap þeirra Guðmundar ríka og Eyjólfs halta sonar hans við Ljósvetninga, en þeir feðgar vóru síðasta hluta 10. aldar, og allan fyrra helming 11. aldar einhverjir mestu höfðingjar norðan lands.

Þá eru nokkrar af sögum vorum um hörmuleg frændvíg, svo sem Laxdæla og Vopnfirðinga saga. Báðar þessar sögur lýsa því, hvernig frændr og vinir urðu óvinir og bárust banaspjót á. Harðar saga, saga Gísla Súrssonar og Grettis saga segja frá því, hvernig afbragðsmenn, eins og reknir af forlögunum, falla í sekt og útlegð. Sögur þessar skýra ljóslega frá því, hversu líf útlegðarmanna var hörmulegt, og hversu mikið tjón þeir urðu að vinna mannlegu félagi, til að forða lífi sínu, er hvergi var öruggt. Þá er að telja þær sögur, þar sem kvennaást verðr orsök til fjandskapar og vígaferla; um þetta efni hljóðar Kormaks saga, og þó einkum saga Gunnlaugs ormstungu og Bjarnar saga Hítdælakappa. Egils saga er ein í sinni röð, að því leyti, að aðalefni hennar gjörist í Noregi. Hún lýsir yfirgangi Haralds hárfagra, og hvernig hann tók af lífi ágætan mann Þórólf Kveldúlfsson af rógi vondra manna, og svo aptr heipt og hefnd þeirra feðga Kveldúlfs og Skallagríms við konung. En seinna er sagt frá viðreign Eiríks blóðöxar Haraldssonar og Egils Skallagrímssonar, en þeir tóku við fjandskapnum af feðrum sínum og mátti furðu kalla, hversu vel Agli endist að etja kappi við konung, enda var hann hið mesta mikilmenni. Þá er að geta hinnar merkustu af sögum vorum Njálu. Höfuðmenn hennar eru: hin hugprúða og hreinhjartaða hetja Gunnar á Hlíðarenda, hinn spakvitri ráðsnillingr

Njáll og hinn slægvitri og hrekkvísi rógberi Mörðr. Þessi saga sýnir oss berlega, hversu ágætustu menn eru undirorpnir hatri, öfund og rógi vondra manna, og hún lýsir betr en nokkur önnur af sögum vorum mannlegu hjarta og tilfinningum þess.

Fram að 1030 vóru lögsögumenn sex; helztir þeirra vóru Þorkell máni, sonarsonr Ingólfs landnámsmanns (970—984) og Skapti Þóroddsson (1000—1030). Þorkell máni var hinn vitrasti og bezti maðr; kemr hann víða við sögur og hvervetna til að semja frið og sátt; á banadægri fal hann önd sína þeim á hendi, er sólina hefði skapað. Skapti Þóroddsson var skörungr hinn mesti, og meðan hann var lögsögumaðr, urðu margir höfðingjar og ríkismenn sekir og landflótta fyrir vígaferli og yfirgang, og ber það vott um ríki hans og stjórnsemi.

Á söguöldinni gjörðist margt, svo sem vita má, er hér yrði of langt upp að telja, en flest af því laut að vígaferlum og þingdeildum. Þó urðu þá þrír atburðir aðrir næsta merkir, er eigi má ganga fram hjá. Hinn fyrsti er sá, að tímatal var rétt með því að sumarauki fannst, annar, að Grænland byggðist, og hinn þriðji, að kristni var í lög tekin.

Sá er fann sumarauka hét Þorsteinn surtr; hann var sonarsonr Þórólfs Mostrarskeggs. Fyrir hans daga töldu menn í ári hverju 364 daga og tóku þó eptir því af sólargangi, að þetta mátti eigi svo vera, en gátu þó eigi úr ráðið. Þá lagði Þorsteinn það ráð á alþingi, að auka einni viku við sumarið sjöunda hvert ár, og var það þegar í lög tekið, og gjörðist þetta skömmu fyrir 960.

Eiríkr hinn rauði fann Grænland; hann fór með föður sínum af Norvegi fyrir víga sakir og byggði á Hornströndum; þaðan fluttist hann vestr í dali og síðan út í

Öxney á Breiðafirði. Eiríkr var vígamaðr mikill, og fyrir því fór hann í landaleit vestr í haf (982) og fann þá land, það er hann nefndi Grænland, og kvað hann menn mundu fremr fýsast þangað, ef nafn væri fagrt. Þrem árum síðar fór hann að byggja landið, og þar andaðist hann í friði nokkru síðar. Á Grænlandi varð blómleg byggð og byskupssetr, er kristni kom þar. Frá Grænlandi fann sonr Eiríks Leifr hinn heppni Ameríku (1000) og var þangað um tíma sigling nokkur, þótt ekki staðfestist þar byggðin, sem miðr fór.

Flestir vóru landnámsmenn heiðnir, en þó nokkrir kristnir, en sú kristni hvarf brátt alstaðar nema í Kirkjubæ fyrir austan. 981 kom hingað til lands byskup sunnan af Saxlandi, Friðrik að nafni, til að boða hér kristna trú; með honum var maðr íslenzkr, Þorvaldr Koðránsson frá Giljá; dvöldust þeir hér á landi fimm ár og boðaði byskup trúna með hógværð og kærleika, en varð þó all-lítið ágengt.—Tíu árum síðar sendi Ólafr Tryggvason út hingað Stefni Þorgilson; átti hann að boða landsmönnum trú, en er menn vildu eigi skipast að orðum hans, varð hann reiðr og tók að brjóta hof og hörga, og var hann þá sekr gjör af frændum sínum, sonum Ósvífs hins spaka, er hann hafði verið hér á landi eitt ár, og fór hann við það af landi brott til Norvegs. Sama sumarið sem Stefnir fór utan, sendi Ólafr konungr hingað aptr Þangbrand prest, til að brjóta Íslendinga til hlýðni við kristna trú. Þangbrandr var hér á landi tvö ár; kendi hann víða trú og varð all-mikið ágengt; óx við það hatr heiðinna manna við kristna trú, enda var Þangbrandi jafntamt, að vega menn og boða trú. Varð þá höfðinginu Hjalti Skeggjason (999) sekr á alþingi um guðlöstun, en Þangbrandi var eigi lengr vært; fóru þeir þá og Giz-

ur hvíti með þeim til Norvegs. Þangbrandr kvað Íslendinga illa viðreignar, og að þar myndi kristni seint viðganga. Varð konungr þá reiðr mjög, og ætlaði að láta drepa nokkra íslenzka menn, er vóru í Þrándheimi. En þeir Hjalti og Gizur báðu þeim griða, og hétu að fara til Íslands og flytja þar trúarboð; tók konungr máli þeirra vel, og létu þeir í haf vorið eptir og kómu út í Vestmannaeyjum rétt fyrir þing, og héldu þegar til alþingis, lá þá við sjálft, að kristnir menn og heiðnir myndi berjast þar á þinginu, og sögðust þeir úr lögum hvorir við aðra. Kusu kristnir menn Hall af Síðu fyrir lögsögumann, en Hallr fal Þorgeiri, er þá var lögsögumaðr, að segja upp lög kristinna manna. Lá hann í búð sinni heilan sólarhring með feld yfir höfði; síðan stefndi hann þingheimi til lögbergs, hélt hann þar tölu og sýndi fram á, til hvílíkra vandræða það myndi horfa, ef allir menn á landinu hefði eigi hin sömu lög; hétu menn þá, að halda þau lög, er hann setti, og kvað hann þá á, að allir menn á landi hér skyldi skýrast og trúa á einn guð; en forn lög um útburð barna og hrossakjötsát skyldi mega haldast, blóta mætti og á laun, ef eigi yrði vottfast. Heiðnir menn þóttust brögðum beittir, en gátu ekki að gjört. Kristin trú var þannig lögtekin seint í júní 1000 og þingheimr skýrðr, en margir voru fyrst framan af kristnir að eins að nafni, eins og geta má nærri.

Einkenni forfeðra vorra á þeim tíma, er vér höfum nú yfirfarið, var hreysti, þreklyndi, drengskapr og löngun eptir frægð. Þegar á barnsaldri lærðu frjálsbornir menn að beita vopnum og vega menn, enda vóru vígaferli næsta tíð; hugleysi þótti hin mesta vanvirða, en sómi að reka harma sinna með opinberum mannhefndum, og hið fegrsta þótti, að bregða sér hvorki við sár né bana. Að svíkjast

að óvinum sínum og vega launvíg, þótti ekki sæma, enda var slíkt ekki títt. Flestir göfugra manna synir fóru til annara landa þegar á ungum aldri til að leita sér fjár og frama, því að þá þótti sá naumast að manni, er ekki sá nema ættjörð sína. Héldu sumir í hernað eða géngu á mála hjá konungum og þágu einatt af þeim hinn mesta veg. Aðrir, er skáld vóru, sem þá var all-títt, fóru frá einni hirð til annarrar, til að kveða lof um konunga og jarla og þágu fyrir gull og gersemar að launum. Þá fóru og nokkrir með kaupeyri sinn milli landa, til að græða fé, en gátu þó jafnframt beitt vopnum sínum, er á þurfti að halda, til að verja fé og fjör. Þá er menn höfðu verið erlendis um hríð, héldu menn venjulega heim til ættjarðar sinnar með fé og sæmd og staðfestu ráð sitt.

Mannfundir vóru tíðir, bæði til stjórnarathafna og skemmtana. Í sögum vorum er opt getið um fjölmennar samkomur til glímu, knattleika og hestaats; sýndu karlmenn þar hreysti sína og fimleik, en konur sátu og horfðu á; erfi og vinaboð vóru og mjög almenn og á stundum fjölmenn. Sóttu þau jafnvel höfðingjar úr fjarlægum héruðum og þágu dýrar gjafir, er þeir héldu heimleiðis.

Er vér skoðum þessa hlið hins forna lífs, er það glæsilegt, en það hefir og sínar skuggahliðar. Líf og eignir manna vóru sífeldri hættu undirorpnar; sá hinn minni máttar átti ærið óhægt að ná rétti sínum, því að afl réð einatt málalokum, og meginpartr þjóðarinnar vóru þrælar og þjónar, sem að mestu leyti fóru á mis við nautn og gleði lífsins. Á þessum tíma byrjaði og hörmung sú, er einatt síðan hefir þjakað þessu landi. Um 970 kom hið mesta hallæri, svo að menn átu hrafna og tófur og allt sem tönn festi á. Nokkrir létu og drepa gamalmenni og aðra ómaga, en þó féllu menn í hungri.

II.

# Tímabilið frá 1030 til 1262.

## 1. *Byskupsstólar settir, tíund lögtekin, lög rituð.*

Þetta tímabil látum vér ná fram að 1262, er landið komst undir Norvegskonung, og virðist mega skipta því í þrjá kafla. Hinn fyrsta látum vér ná fram að 1120, og köllum það *friðaröldina;* annan frá 1120 fram að 1230, og köllum það *ritöldina,* en hinn síðasti er *Sturlungaöldin,* sem endar við 1262.

Á hinum fyrsta kafla virðist svo sem verið hafi hinn mesti friðr og spekt, og kyrð á lífi þjóðarinnar. Frá þeim tímum eru svo að kalla engar sagnir um deilur, og er það jafnan hinn ljósasti vottr friðarins, og í annálum er þá mjög sjaldan getið vígaferla og annara hryðjuverka. Kristin trú virðist þá hafa haft sín blessunarríku áhrif á hugi og hjörtu manna, og snúið þeim frá hernaði og manndrápum, enda lýtr flest á þessum tímum að því, að koma reglu á kristnihald og kirkjustjórn, bæta siðferði manna og efla upplýsing klerka. Höfðingjarnir höfðu reist kirkjur á jörðum sínum, og tóku nú margir þeirra prestvígslu, og ýmsir af þeim fóru til annarra landa til skólanáms.

Ólafr hinn helgi hafði sent hingað útlenda byskupa til að koma kirkjustjórninni í fastar skorður, og fengið Íslendinga til þess, að nema það úr lögum sínum, er honum þótti mest á móti kristinni trú (1018). En öðruvís

gékk konungi, þá er hann vildi koma Islendingum til að ganga sér til handa og gjörast þegnar sínir, því að fyrir það tóku þeir þvert, enda vildu þeir nú skjótt heldr fá innlenda byskupa, en hlíta hinum útlendu. Kusu þeir þá Ísleif, son Gizurar hvíta, til byskups (1054). Hann var hinn ágætasti maðr og lærðr vel, enda hafði hann á yngri árum gengið í skóla suðr á Þýzkalaudi. Hann setti brátt skóla á heimili sínu handa prestaefnum og kendi þar sjálfr. Eptir andlát hans kusu menn son hans Gizur (1080); hann var í alla staði jafningi föður síus og stjórnaði byskupsdæmi sínu með hinum mesta skörungskap, og bætti í hvívetna siðu manna; gaf hann föðurleifð sína Skálholt fyrir byskupssetr, og fyrir fortölur hans og tilstyrk Markúsar lögsögumanns Skeggjasonar og Sæmundar prests fróða var tíund í lög tekin á alþingi 1097. Norðlendingar vildu ekki lúta byskupi í öðrum fjórðungi, og fengu það af Gizuri, að byskupsstóll var settr hjá þeim fyrir norðan land að Hólum í Hjaltadal (1105) og þar kosinn til byskups Jón Ögmundarson, lærisveinn Ísleifs byskups, lærðr maðr og guðhræddr, og setti hann þegar skóla á stólinn.

Hið síðasta ár, sem Gizur sat að stóli, (1118) vóru lög færð hér fyrst í letr; hafði það verið ákveðið árinu áðr á alþingi, að næsta vetr skyldi hinir vitrustu menn rita lögin, og breyta þar, er þeim þætti betr fara; skyldi svo lesa þau upp í lögréttu á næsta þingi og það gilda, er hinn meiri partr samþykkti, og fór það fram, var þá ritaðr *vígslóði* og margt annað í lögum.

*2. Kristinréttr settr, sögur ritaðar, deilur höfðingja byrja.*

Á þeim 110 árum frá 1120 til 1230 gjörðist margt markvert, en það sem sér í lagi einkennir tíma þenna

er það tvennt, að þá blómguðust vísindi hér á landi, og að þá byrjuðu deilur og vígaferli, sem á Sturlungaöldinni géngu svo úr hófi, að nálega aldrei hafa jafnmiklar verið. Á árunum 1122—33 var í lög tekinn kristinréttr þeirra Þorláks og Ketils byskupa, og gilti hann um rúma hálfa aðra öld eða þann tíma, er klerkavaldið var að myndast, staðfestast og eflast hér á landi. Á tólftu öldinni og hinn fyrra part þrettándu aldar vóru að ætlun manna ritaðar flestar sögur vorar. Þær höfðu geymzt í minnum manna og gengið mann frá manni, frá því að þær gjörðust og til þess tíma, að þær vóru ritaðar, enda mun það hafa þótt hin mesta unun, að heyra frá þeim sagt, þá er sá sagði, er vel kunni, eins og það hefir verið og er enn í dag hin bezta skemmtun vor, að heyra þær lesnar. Ekki vita menn, hverjir hafa ritað þær, en það er kunnugt, að Ari fróði († 1148), Sæmundr fróði († 1133) og afkomendr hans Oddaverjar, og þeir feðgar, Teitr, Hallr og Gizur Haukdælir, afkomendr Ísleifs byskups vóru allir hinir lærðustu menn og snillingar að rita, og þykir mega telja víst, að þeir hafi ritað eitthvað af sögunum. Ari hefir ritað Íslendingabók og sögur hinna fyrri Norvegskonunga, og er hann talinn höfundr hinnar íslenzku sagnaritunar. Þá vóru og á tólftu og þrettándu öldinni sagnfræðingar á Þingeyrum, svo sem munkarnir Gunnlaugr Leifsson og Oddr Snorrason, og mætti geta til, að þaðan væri sprottnar sögur þær, er í því héraði höfðu gjörzt.

Þegar í byrjun þessa kafla taka til deilur höfðingja; þó eru þær ekki tíðar hinn fyrra part tólftu aldarinnar, og byskupar, sem enn lögðu alla stund á að semja frið, gátu jafnan komið sáttum á. Það er fyrst með ríki Sturlu Þórðarsonar í Hvammi vestra (eptir 1150), að deilur hefj-

ast fyrir alvöru. Þá tóku höfðingjarnir, að virða lögin að vettugi, ríða til allra mannfunda, þótt sekir væri, jafnvel berjast á alþingi sjálfu og brenna inni fjandmenn sína, en þó versnaði seinna, því að hinir ágætu byskupar Þorlákr Þórhallsson í Skálholti († 1193) og Brandr Sæmundarson á Hólum († 1201), er byskupar vóru seinni part tólftu aldarinnar, vóru hinir mestu ágætismenn og héldu mjög niðr ofsa höfðingjanna, en Jón Loptsson († 1197) í Odda, er mestr og ættstærstr höfðingi var í þann tíma, var friðsamr og jafnan sættir manna og efldi það eigi lítið landsfriðinn.

Sturla Þórðarson († 1183) átti þrjá sonu, Sighvat, Þórð og Snorra, og kallast þeir og afkomendr þeirra Sturlungar, og vóru þeir allir um 1200 komnir til mannvirðinga og orðnir höfðingjar miklir. Um það leyti varð Guðmundr Arason byskup á Hólum, og þá var friðnum algjörlega slitið; hafði Kolbeinn Tumason frændi Haukdæla, er þá var mestr höfðingi í Skagafirði, ráðið því, að Guðmundr var kosinn, og hugðist hann þannig mundu auka völd sín nyrðra. En honum brást það; Guðmundr, sem bæði var einrænn og ráðríkr, æsti flesta höfðingja fyrir norðan land móti sér, og fór þá svo að lokum, að Kolbeinn Tumason veitti byskupi heimsókn á staðinn með miklu liði. Varð þá orusta með Kolbeini og mönnum byskups og urðu þau leikslok að Kolbeinn féll (1208).

Þessi ófriðr, sem stafaði af því, að byskup kunni lítt til fjárforráða, og að hann kallaði eptir dómsvaldi yfir klerkum í hendr leikmönnum, hélzt um alla daga Guðmundar byskups og sat hann sjaldnast að stóli, en var ýmist í varðhaldi hjá óvinum sínum eða þá í Norvegi, en á stundum flæktist hann um landið með þann hinn mikla

förumannalýð, er jafnan fylgdi honum. Var hann hniginn að aldri, blindr og mæddr er hann andaðist (1237), en aldrei þvarr kjarkr hans né ölmusugæði; þjóðtrúin breiddi yfir bresti hans dýrlingsblæju og var opt heitið á hann til árnaðar.

Þessar deilur Guðmundar gáfu erkibyskupum í Norvegi tækifæri til þess, að blanda sér í málefni Íslendinga. Stefndu þeir bæði Guðmundi og mótstöðumönnum hans til Norvegs, en höfðingjar skeyttu því lítt fyrst um sinn, en þó fór svo, að þeir sáu eigi annað fært en að beygja sig fyrir hinu andlega valdi þeirra.

Um þessar mundir (1218) varð fjandskapr mikill með hinum voldugu Oddaverjum—svo nefnast afkomendr Jóns Loptssonar—og Björgvinarkaupmönnum. Höfðu Oddaverjar tekið af þeim gjöld stór, en kaupmenn drepið einn af Oddaverjum í hefnd. Skúla jarli í Norvegi þótti kaupmenn verða undir í viðskiptum þessum, og reiddist hann Íslendingum, einkum Oddaverjum, mjög, og hugði því að fara herferð til Íslands til hefnda og ef til vill til að leggja landið undir Norveg. Þá var Snorri Sturluson í Norvegi við mikinn veg hjá jarli og Hákoni konungi, og fékk hann því á leið komið, að jarl hætti við þessa fyrirætlun sína, en Snorri varð að heita því, að koma Íslendingum til að ganga konungi til handa og gjalda honum skatt. Þá hann mikla sæmd af konungi og jarli, og hélt síðan heim til ættjarðar sinnar; en er hann kom til Íslands, kunnu menn honum engar þakkir fyrir þetta, einkum Oddaverjar, kenndu þeir honum jafnvel um, að þeir hefði engan sóma fengið af kaupmönnum fyrir skaða sinn, og gjörðu hið mesta spott að sóma þeim og nafnbótum, er hann hafði þegið í Norvegi, en Snorri bar eigi

upp erindi konungs. Vóru nú hinar mestu viðsjár og deilur með höfðingjum (fram að 1230), en eigi gjörði konungr meira að sinni, til að ná yfirráðum yfir landinu.

*3. Sturlungaöldin, landið kemr undir Norvegskonung.*

Eptir 1230 byrjar Sturlungaöldin. Sturla Sighvatsson höfðingi vestra, einn hinn djarfasti og framgjarnasti af Sturlungum, fór til Róms, til að fá lausn fyrir sig og föður sinn fyrir mótgjörðir þeirra við Guðmund byskup Arason. Þá er hann kom að sunnan, dvaldist hann (vetrinn 1234—35) í Norvegi í hinu mesta yfirlæti. Hákon konungr, sem lengi hafði haft í huga, að ná yfirráðum á Íslandi, sá, að Sturla var bæði drottnunargjarn og áræðinn, og að því myndi hægt að fá hann til stórræðanna; gjörði nú konungr þann samning við Sturlu, að hann skyldi vinna landið sér til handa, og eiga fyrir slíkra sæmda von, er konungi þætti verðugt. Þegar Sturla kom út, tók hann skjótt að reyna til, að brjóta höfðingja undir sig og reka þá síðan til Norvegs, eins og konungr hafði gefið honum ráð til. En þeir Gizur Þorvaldsson, höfðingi fyrir sunnan land, og Kolbeinn ungi, höfðingi Skagfirðinga, hófu flokk móti honum og felldu hann og föður hans í mannskæðri orustu á Örlygsstöðum í Skagafirði (1238). Um sömu mundir og þetta gjörðist, vóru hingað fyrst skipaðir af erkibyskupi í Niðarósi — en Ísland laut undir erkibyskupsdóm hans — norrænir byskupar, og er allíklegt, að það hafi verið gjört að undirlagi Hákonar konungs, enda veittu þeir honum, einkum Heinrekr Karlsson byskup á Hólum (1247—1260) öflugt fylgi í tilraunum hans, að ná yfirráðum á landinu, og drógu jafnan taum þeirra manna, er fluttu erindi konuugs, og laut þannig allt að því, að frelsi landsins var á förum.

Gizur Þorvaldsson, sem eptir fall Sturlu réð mestu hér á landi, drap Snorra Sturluson í Reykholti (1241) tengdaföður sinn, einn hinn ágætasta af Sturlungum, og var það af áeggjan konungs; taldi hann Snorra það til saka, að hann hefði farið út til Íslands skömmu áðr í banni sínu, enda óttaðist hann mótstöðu af hans hendi gegn vilja sínum. Réðu þeir nú öllu einir, Gizur og Kolbeinn ungi, og ráku Urækju son Snorra á konungs fund, og andaðist hann nokkru síðar í Norvegi. En nú hóf Þórðr Sighvatsson kakali, bróðir Sturlu, er féll á Örlygsstöðum, (1242) flokk mót Kolbeini, en Gizur var farinn af landi brott; géngu nú allir Sturlungar í lið með Þórði og eru langar frásagnir um viðreign þeirra Kolbeins, þangað til Kolbeinn andaðist (1245). Eptir dauða Kolbeins varð Þórðr hinn mesti höfðingi á landinu annar en Gizur, er þá var kominn út, en þeir gátu þá eigi sætzt, og kómu sér því saman um að fara til Norvegs og láta Hákon konung gjöra um mál sín; lyktaði þeim málum svo, að konungr skipaði Þórð yfir land allt (1247) en Gizur varð að vera eptir í Norvegi. Ríki Þórðar stóð um 3 ár, en með því að hann lagði enga stund á, að halda landinu undir konung, heldr að eins að efla veldi sjálfs sín, var honum stefnt til Norvegs og fengin þar sýsla; en áðr en Þórðr fór af landi, hafði hann skipað vini sína og vandamenn yfir ríki sitt, og boðið þeim, að halda því sér til handa. Konungr kyrrsetti Þórð í Norvegi og lét hann eigi ná því að sjá aptr ættjörð sína og andaðist hann þar nokkrum árum síðar; síðan sendi konungr út hingað (1252) þá Gizur og Þorgils skarða hirðmann sinn af Sturlunga ætt, og skipaði hann þeim ríki þau á Íslandi, er hann hafði heimildum á tekið. Taldi hann sér nú ríki Snorra, en ýmsir höfðingjar höfðu þá og gefið upp goðorð sín í vald

hans. Þeir Gizur áttu og að flytja það mál af konungs hendi við landsmenn, að þeir géngi honum til handa. Að þessu gjörði Gizur enga gangskör, en hugsaði að eins um sjálfan sig. Þorgils vildi aptr á mót reka erindi konungs rækilega, því að hann var maðr drottinhollr, en þeim málum hans var illa tekið, og vildu menn ekki sleppa við hann héruðum þeim, er Snorri hafði haft og kváðu konung ómaklegan að hafa nokkra hönd yfir þeim. Sá nú konungr, að svo búið mátti eigi standa, og sendi hann því hingað (1255) Ívar Englason vildarmann sinn, og fékk hann því á leið komið með tilstyrk Þorgils og aðstoð Heinreks byskups á Hólum, að flestir bændr í Norðlendingafjórðungi hétu að gjalda konungi skatt þann sem þeim semdi um við Ívar.

Þorgils, sem var hinn drenglyndasti og ágætasti maðr, var drepinn (1258) saklaus af manni þeim, er hann hafði áðr margt vel gjört, og er víg hans eitt hið versta níðingsverk. Missti nú konungr hinn traustasta fylgismann, og tók hann þá það ráð, að tryggja Gizur með því, að gjöra hann að jarli yfir Íslandi, og hugði hann, að Gizur myndi þá reka örugglegar erindi sitt. Gizur tók feginshendi tign þessari og hélt henni mjög á lopt, en lítið far gjörði hann sér um, að framkvæma vilja konungs. Sendi þá konungr, er hann vissi, að margir höfðingjar vóru orðnir sér fylgjandi, Hallvarð gullskó, norrænan mann, til Íslands; rak hann djarflega erindi konungs við Íslendinga, og var þá Hákoni 1262 á alþingi svarið land og þegnar og skattgjald af bændum, nema úr Austfirðingafjórðungi, og var um það sáttmáli gjörðr, og áskildu Íslendingar sér ýms réttindi, en Austfirðingar géngu honum til handa tveim árum síðar, og hefir landið síðan lotið konungsstjórn. Vóru landsmenn orðnir

þreyttir af hinum miklu manndrápum og hinni langvinnu styrjöld Sturlungaaldarinnar, sem tæplega gat endað öðruvís en með einveldi innlendu eða útlendu.

Þá er menn lesa frásagnir um Sturlungaöldina, má það furðu gegna, hvílíkr kjarkr og kraptr var í þjóðinni og hversu marga afreksmenn hún átti, þar sem þó höfðu gengið margvíslegar nauðir yfir landið á elleftu og tólftu öldinni af hallæri, eldgosum og drepsóttum, og frá byrjun þrettándu aldarinnar hafði nálega árlega verið sífelld styrjöld. Það má geta nærri, að það muni mjög hafa hnekkt auðsæld og velmegun landsmanna, að heita mátti, að höfðingjar hefði þá nálega sífelt flokka uppi, og fóru þeir yfir landið með menn og hesta svo hundruðum skipti, eyddu, rændu og spilltu fyrir fjandmönnum sínum, því er þeir máttu, en gjörðu bændum og búþegnum hinar þyngstu búsifjar, en þó virðist, sem margir, að minnsta kosti höfðingjarnir, hafi verið ríkir eptir því sem á þessu landi getr verið.

Á síðara parti tólftu aldarinnar tóku siðir manna mjög að spillast, einkum í tilliti til ásta karla og kvenna, en þó var þetta enn verra á sjálfri Sturlungaöldinni; þá var nálega enginn sá höfðingi, er ekki hefði frillur og það opt margar. Þá var og hið mesta virðingarleysi fyrir lögunum, og menn treystu miklu meir á ríki sitt, mannfjölda og harðfengi en á rétt málefni. Þá var og hið fyrra drenglyndi horfið, og varla fannst nokkur sá, er hikaði við að svíkjast að óvinum sínum og ganga á gjörðar sættir. Grimmd í hernaði var fjarskaleg, að handhöggva og fóthöggva þóttu smámunir, en rán og brennur og hryllileg manndráp vanalegir atburðir.

En í öllum þessum ókjörum blómguðust þó vísindi. Snorra Sturlusonar, sem ritað hefir Heimskringlu, og

Sturlu Þórðarsonar, mun jafnan getið, meðan nokkur skilr íslenzka tungu, sem hinna ágætustu sagnameistara og merkustu skálda.

Svo sem verið hafði áðr fyrri, var það og all-títt á þessum tímum, að synir heldri manna færi þegar á ungum aldri erlendis, géngu þá nokkrir í erlenda skóla, aðrir géngu suðr til Rómaborgar eða annara helgra staða, til að fá kvittun synda sinna og bæta sálu sína, en sumir gjörðust konungum handgengnir, og er víst, að þessar utanfarir hafa eigi all-lítið eflt menntun, fjör og framtakssemi Íslendinga.

Frá því að landið byggðist, og til þess að hér er komið sögunni, virðast atvinnuvegir landsmanna jafnan, að hafa verið hinir sömu og mjög líkir því, er nú er, nefnilega kvikfjárrækt og fiskiveiðar. Þó erum vér að sumu leyti í þessu efni eptirbátar forfeðra vorra. Á þjóðstjórnarárum landsins virðist svo sem nautpeningsrækt hafi verið miklu meiri en nú er; þá var og svína- og alifuglarækt, járngjörð og saltgjörð stundað. Jafnvel iðnaðrinn, þó ólíklegt megi þykja, virðist hafa verið miklu meiri, en nú tíðkast, því að þess er eigi getið, að ull hafi verið flutt af landi brott óunnin, heldr er jafnan talað um vaðmál sem eina helztu vörutegund landsmanna. Kornyrkju er og getið, en að líkindum hefir hún aldrei mikil verið, og helzt bygg það er sáð var. Verzlunin var að sumu leyti, að minnsta kosti framan af, í höndum landsmanna sjálfra, og er þess opt getið, að menn fluttu á skipum sínum nauðsynjar sínar heim til Íslands, svo sem mjöl og við. En hér verzluðu líka Norvegsmenn, vóru þeir hér jafnan kallaðir Austmenn, en ekki vóru þeir sjálfráðir með verð á vöru sinni, því að bæði þeir og landsmenn urðu að hlíta því verði, er goðarnir lögðu

á varning þeirra, og var það vanalega gjört með þeirri sannsýni, að báðir máttu vel við una, enda var þá öll útlend vara miklu dýrri, en nú gjörist á þessum tímum.

III.

# Tímabilið frá 1262 til 1520.

—

### 1. *Gizur jarl andast, Rafn Oddsson, Jónsbók í lög tekin, Staða-Árni.*

Um það leyti er Ísland gékk Norvegskonungi á hönd, andaðist Hákon gamli (1263) og tók þá ríki Magnús sonr hans. Hann var góðr konungr, og varð ástsæll af Íslendingum svo sem öðrum þegnum sínum. Hann lét Gizur fyrir sína hönd hafa stjórn landsins á hendi, en nú var jarl bæði orðinn aldraðr, átti lítt vinsældum að fagna meðal höfðingja, enda hugði hann, að láta af hendi völd og vanda, og eyða því, sem eptir væri æfinnar í kyrrlátri klaustrvist, en hann andaðist áðr en hann fengi því fram komð (1268). Þá urðu þeir umboðsmenn konungs Rafn Oddsson og Þorvarðr Þórarinsson; vóru þeir báðir mikilmenni, einkum Rafn, og höfðu komizt klaklaust yfir allar svaðilfarir Sturlungaaldarinnar. Þó var vald þeirra mjög takmarkað, því að konungr sendi hingað opt menn með erindum sínum, sem hann lét þá framkvæma, án þess að leita til þess aðstoðar umboðsmanna sinna. Þannig sendi hann Þorvarð Þórarinsson, Indriða böggul og Sturlu Þórðarson (1271) út með lögbók þá, er kölluð hefir verið járnsíða; var bók sú í lög tekin að mestu næsta ár, og var í henni konungi játað þegngildi, og tekið af lögsögumannsdæmið, en sett aptr lögmannsdæmi og eptir það vóru lögmenn jafnan tveir. Svo virðist, sem mönnum hafi

eigi getizt að lögbók þessari. Tók þá konungr að semja aðra lögbók handa Íslendingum, en honum auðnaðist eigi að láta taka hana í lög, því að sama vorið sem hún var send hingað til landsins, andaðist Magnús konungr (1280). Hafði hann unnið ríki sínu hinn mesta þarfa með löggjöf sinni, enda hefir hann fengið heiðrsnafnið lagabætir. Með lögbókina kómu þeir út, Jón Einarsson lögmaðr, og er hún eptir honum nefnd Jónsbók, og norrænn höfðingi Loðinn leppr, og þó að bæði bændr og byskupar hefði margt að henni að finna, þá var hún þó í lög tekin á alþingi næsta ár eptir all-harða deilu. Í Jónsbók var tala þeirra, er til alþingisreiðar skyldu kvaddir mikið færð niðr, og þó fækkaði þeim meira síðan.

Framan af öldum allt þar til er erkistóll var settr í Norvegi (1152) reyndu byskupar alls eigi hér á landi að auka veldi kirkjunnar. Þá vóru byskupar og klerkar kvæntir og höfðu hinum sömu skyldum að gegna, sem feðr og eiginmenn, eins og leikmenn; þá kusu og klerkar og leikmenn byskupa, en bændr fengu presta til kirkna sinna. Þetta varð nú nokkuð á annan veg síðast á tólftu öldinni, en þó einkum á þrettándu öldinni; þá þótti það guði þóknanlegt, að draga sig út úr vastri og skarkala lífsins, og því vóru klaustr sett hèr á landi, 4 í Hólabyskupsdæmi og 4 í Skálholtsbyskupsdæmi, en hið 9. var sett síðast á 15. öldinni, og vóru þá 5 klaustr í Skálholtsbyskupsdæmi; þá var og klerkum bannað að kvongast og þá tóku byskupar að kalla eptir fjárforráðum kirkna og dómsvaldi í andlegum málum í hendr leikmönnum og vildu einir skipa prestsembættin; en einkum var það þó Árni byskup Þorláksson, er kallaðr hefir verið Staða-Árni, er jók svo mjög veldi kirkjunnar, að kalla mátti, að formenn hennar réði mestu hér á landi eptir hans daga allt

fram að siðbótinni, og flestar frásagnir lúta einkum að athöfnum þeirra og deilum þeirra við leikmenn, og því má vel kalla þetta tímabil *klerkaveldistímabilið*. — Árni Þorláksson er fæddr 1237 og kominn af höfðingjum; hann var snemma bráðgjör að gáfum, enda var hann þegar á ungum aldri settr til mennta, og varð lærðr vel eptir því sem þá var títt. Hann fór til Norvegs 25 ára að aldri, og batt þá svo kæra vináttu við Magnús konung, að hún hélzt, meðan þeir lifðu báðir. Hann var kosinn til byskups í Skálholti (1268), og þó að erkibyskup, sem samþykkja átti kosningina, tæki í fyrstu annan fram yfir hann, þá náði hann þó að lokum byskupsembættinu. Þá er hann kom út, hélt hann þegar þing í Skálholti og birti þar boðskap erkibyskups, og var það eitt meðal annars, *að leikmenn skyldi selja kirkjur með eignum þeirra byskupi á vald*. Þessu tóku bændr þunglega, því að þeir réðu þá nálega öllum kirkjum og höfðu tekið þau ráð að erfðum. En er Árni sá, að bændr vildu eigi skipast við boðskap erkibyskups, lét hann á alþingi (1270) dæma í sitt vald kirkjurnar í Odda og Hítardal, en þeim réðu einhverjir hinir ríkustu höfðingjar leikmanna, og var þetta byrjun til hinnar löngu og snörpu deilu um staðina, sem Árni átti við leikmenn alla æfi síðan. Gjörðist nú Rafn Oddsson foringi leikmanna; kvað hann byskup fara með lögleysur einar og ójöfnuð. Skutu þá leikmenn máli sínu á dóm konungs, en meðan Magnús konungr lifði, miðlaði hann svo málum, að engin urðu vandræði úr, enda fylgdi Árni fast fram vilja hans í öllu því á Íslandi, er ekki snerti hag kirkjunnar.

Þá er Magnús andaðist, tók við ríkjum sonr hans Eiríkr (1280). Hann var ungr að aldri, og höfðu því ráðherrar hans alla forustu ríkisins. Veittu þeir klerkum í

Norvegi svo þungar búsifjar, að erkibyskup varð að flýja land. Þegar þetta spurðist til Íslands, hvatti það óvini Árna til mótstöðu gegn honum, og lá við sjálft, að þeir myndi reka hann frá stólnum og taka hann sjálfir til forráða; en Árni var jafngætinn og hann var kappsfullr, og fyrir því lét hann jafnan nokkuð undan síga, þá er hann sá, að í óvænt efni myndi koma. Hann fékk nú og tækifæri, að koma sér í vingan við konung og vildarmenn hans. Konungr krafðist útboðs af Íslandi (1286) 40 manna úr fjórðungi hverjum; tóku leikmenn þeim boðskap þunglega, en Árni byskup studdi erindi konungs allt það, er hann mátti, og þó ekkert yrði af útboðinu, komst hann af þessu í kærleika við konunginn og áttu þá leikmenn miklu óhægra en áðr. Stóð nú deila þessi um Staðamál með miklu kappi af beggja hálfu, þar til er henni lauk með sáttargjörðinni milli Árna byskups og Eiríks konungs 1297. Skyldu leikmenn halda þeim stöðum, þar sem þeir ætti helming í heimalandi staðarins eða meira, en ætti kirkjan meira en helming staðar, skyldi hún með eign sinni hverfa undir forræði byskups. Var Rafn andaðr fyrir nokkrum árum, áðr málum þessum lauk, og hafði hann verið skörungr hinn mesti.

Meðan á Staðamálum stóð, hafði Árni byskup samið nýjan kristinrétt, og fékk hann að mestu leyti tekinn í lög á alþingi (1275) fyrir byskupsdæmi sitt, og er byskupi þar talið miklu meira vald, en verið hafði í hinum fyrra kristinrétti og var það samkvæmt anda og stefnu tímans. Árni andaðist 1298 og hefir hann þótt hið mesta mikilmenni.

2. *Norrænir lögmenn. Álfr úr Króki. Ketill Þorláksson. Útlendir byskupar. Landið selt á leigu. Smiðr drepinn.*

*Óstjórn veraldleg og andleg. Eldgos úr Heklu. Þjóðbjörn kemr út með fjárbeiðslur. Vilkin og Pétr byskupar.*

Þá er hingað er komið sögunni, sést ekki annað, en að Íslendingar hafi til þessa allvel unað konungsstjórninni, enda vóru nú vígaferli og hryðjuverk minni en áðr var á Sturlungaöldinni, og konungar höfðu mest hingað til fengizt við að laga löggjöf landsins, og að miðla málum milli klerka og leikmanna, en reyndu eigi að þröngva kostum landsmanna. En er Hákon konungr háleggr var kominn til ríkis eptir bróður sinn Eirík, sendi hann út (1301) 2 norræna lögmenn og Álf úr Króki, norrænan vildarmann, með boðskap sinn. Ætlaðist hann til, að Íslendingar tæki við lögmönnum þessum og áttu þeir og Álfr úr Króki, að taka hyllingareiða konungi til handa og framkvæma erindi hans. Þessu kunnu Íslendingar illa, því að þeir vildu hafa íslenzka lögmenn, er þeir kysi sjálfir eins og jafnan hafði verið. Vísuðu þeir því báðum þessum lögmönnum af höndum sér, en neituðu að hylla konung, þangað til árið eptir, og vóru þeir þó um þetta leyti mjög þjáðir af hinu mesta óárani, því að um þessar mundir kom eitt hið voðalegasta eldgos úr Heklu. Eptir þetta vóru lögmenn jafnan íslenzkir fram á 18. öld. Þá er Krók-Álfr kom til Norvegs, undi hann hið versta við för sína og bar því Íslendingum mjög illa söguna; þó kom hann fáum árum síðar út hingað aptr, og var skipaðr yfir Norðr- og Austrland og hafði enn ýmsar nýjar kröfur með að fara af hendi konungs til landsmanna. Var það eitt, að leikmaðr hver skyldi gjalda konungi alin af hundraði hverju, er hann ætti. Þessu tóku menn illa, en Krók-Álfr var hinn harðasti; fór þá svo að lokum, að Skagfirðingar gjörðu honum aðsúg á Hegranessþingi. Varð hann þá hræddr mjög, en komst þó á brott heill á húfi, en andað-

ist skömmu síðar norðr í Eyjafirði, og var það kallað svo, að Íslendingar hefði drepið hann. Árið eptir (1306) var neitað á alþingi kröfum þeim, er Krók-Álfr fór með, og um þessar mundir bundust Íslendingar fastmælum, að verja réttindi landsins, og segir hér nú ekki meira af viðreign Hákonar og Íslendinga.

Þá er Hákon háleggr var andaðr, sendi ríkisráðið í Norvegi menn til Íslands (1319) og áttu þeir að láta hylla Magnús smekk, er ríki tók í Norvegi eptir Hákon afa sinn, en Íslendingar neituðu því fyrr en þeir fengi staðfest réttindi landsins, og með því að þeir hylltu konung árið eptir, má ætla, að þeir hafi fengið vilja sínum framgengt. Hin tuttugu fyrstu ríkisár Magnúsar gékk stjórn landsins allvel. Var þá hirðstjóri íslenzkr maðr ættstór og ágætr Ketill Þorláksson, og var hann opt erlendis með konungi; eptir hans daga komu upp deilur miklar, og vóru þær fyrst einkum milli byskupa og leikmanna og helzt fyrir norðan land. Urðu nú úr þessu byskupar flestir útlendir allt fram að siðbót, sér í lagi í Hólabyskupsdæmi. Vóru þeir, sem við var að búast, ókunnugir háttum og venju landsmanna, og með því að flestir kómu í þeim tilgangi, að auðgast af embættinu, hirtu þeir minna um að vingast við landsmenn og gegna rækilega köllun sinni, en að raka saman fé, og er þeim var eigi lengr vært sökum óvinsælda, stukku þeir af landi brott og sóttu verndarbréf til konungs eða erkibyskups og vóru þá einatt verri, er þeir kómu aptr. Sumir vóru erlendis með konungum og öðrum höfðingjum og eyddu þar tekjum sínum í glaumi og gleði, en létu aðra gæta fyrir sig embættisins. Einn af byskupum þessum var Ormr Ásláksson á Hólum. Fékk hann fyrst verndarbréf hjá Magnúsi konungi, og hafði síðan í frammi svo mikla áseilni og ó-

jöfuuð, að Norðlendinga brast svo þolinmæði að lokum, að þeir gjörðu uppreist á móti honum, og stökk hann þá til Norvegs. Átti Ormr alla sína embættistíð deilur við Íslendiuga, og fékk hann því að lokum til vegar komið, að konungr bauð (1354) að kristinréttr Árna byskups skyldi og gilda fyrir norðan land. Þá er Ormr andaðist (1356) hafði hann dvalið erlendis nærfelt helming þeirra 14 ára, er hann var byskup og þótti í fáu merkr maðr.

Á tímum Orms byskups var óáran mikið hér á landi af sótt, eldgosi og harðindum, og bætti það þá eigi hag landsmanna, að konungr tók nú að leigja landið með sköttum og skyldum, og má geta nærri, að leigunautar þessir hafi ekki verið linir í fjárkröfum. Kom þá út Ívar hólmr (1354) með hirðstjórn, og hafði leigt landið í 3 ár. Þegar þau voru liðin, fengu *4 Íslendingar* hirðstjórnina og tekjur konungs af landinu á leigu enn um 3 ár, og hétu þeir Andrés Gíslason, Árni Þórðarson, Jón Guttormsson skráveifa og Þorsteinn Eyjólfsson frá Urðum. Um sömu mundir sendi erkibyskup hingað út 2 menn, til að líta eptir klerkum og kristnihaldi, og var annar þeirra munkrinn Eysteinn Ásgrímsson, sem kveðið hefir hið ágæta kvæði Lilju. Géngu þessir allir hart að mönnum með fjárkvaðir og rökuðu samau fé, en fjandskapr kom milli tveggja af hirðstjórunum, svo að þeir börðust á alþingi (1361), og um það leyti kom út hirðstjóri, Smiðr Andrésson að ætlun sumra norrænn, þá er leigutími hinna var á enda; hann var illr og ódæll eptir því sem sögur fara af. Reið hann norðr um land með 30 vopnaðra manna, og var í för með honum Jón skráveifa, er þá var orðinn lögmaðr, litlu betr þokkaðr en hinn. Fór sú fregn fyrir hirðstjóranum, að hann ætlaði að taka af lífi helztu bændr fyrir norðan land, að líkindum fyrir mótþróa þeirra og ó-

hlýðni við Jón skalla útlendan byskup á Hólum, er í þann tíma deildi við Norðlendinga. Söfnuðu þá Norðlendingar liði og fóru að hirðstjóranum á Grund í Eyjafirði og tóku hús á honum; varð þar harðr bardagi, því að Smiðr varðist frækilega, en að lokum féll hann, Jón skráveifa og 6 fylgdarmenn þeirra, en hinir kómust í kirkju og þágu grið; var þetta í júlí 1362.

Þó að hirðstjóri þessi væri af lífi tekinn, batnaði lítið hagr landsmanna eða stjórn landsins. Seinni helmingr 14. aldarinnar er einn hinn mesti styrjaldar og siðleysis tími í sögu landsins. Þá vóru víg og morð mjög tíð; höfðingjar þeir, er nokkuð áttu undir sér, höfðu sumir opt flokka uppi, fóru um landið með manndrápum og ránum, og er þeim var eigi lengr fritt í landinu, fóru þeir á konungs fund, og í stað þess að taka af honum makleg málagjöld, fengu þeir á stundum hirðstjórnar vald á landinu. Sem dæmi þessa má nefna, að tveir höfðingjar, Eiríkr Guðmundarson og Guðmundr Ormsson fóru á sjálfa jólanótt (1385) að manni nokkrum saklausum, og létu höggva hann; mæltist verk þetta svo illa fyrir, að þeir urðu að stökkva úr landi, en ári seinna kom Eiríkr út með hirðstjórn, en hann naut ekki lengi valdanna, því að næsta ár var hann drepinn. Ekki gékk hin andlega stjórnin stórum betr. Byskupar, sem þá vóru útlendir, áttu nálega sífeldar útistöður við leikmenn, og urðu þeir því aptr og aptr að fara af landi brott. Um þessar mundir (1390) virðist ástand kirkjunnar að hafa verið hið aumasta, enda var þá Mikkael byskup í Skálholti nýflúinn úr landi og með honum margir prestar, og segja annálar, að þá hafi allr kristindómr verið lítt standandi í Skálholtsbyskupsdæmi; margir prestar hafi

þá andazt, fjöldi verið reknir af landinu, en hinir flestir embættislausir, og sýnir þetta ljóst hina miklu óöld kirkjustjórnarinnar.

Ofan á hinar miklu hörmungar þessarar stjórnar bættust eldgos og önnur ótíðindi. Kom þá upp eldr í Heklufjalli í sjöunda sinni (1390) og víðar fyrir sunnan land með svo miklum fádæmum, að sumstaðar logaði bæði land og sjór; eyddust nálega heilar sveitir af eldgangi og jarðskjálftum, en drepsótt eyddi mönnum og skepnum, og má svo segja að flest yrði þá samtaka, til að þjá þetta land.

Litlu áðr en hingað er komið sögunni árið 1388 gékk Ísland ásamt Norvegi undir Danaveldi. Var Margrét drottning tekin til ríkisstjórnar í Norvegi eptir andlát Ólafs sonar síns, en hann var sonarsonr Magnúsar smekks. Ekki hafði Margrét lengi ráðið Íslandi, þá er hún sendi hingað Þjóðbjörn nokkurn (1392) með þeim erindum, að krefja skatt af bóndum, hálfa mörk forngilda af hverjum (hér um bil 14 kr.) og lagði við landráðasök þeim er eigi hlýddi. Þessu var tekið þunglega, en á alþingi næsta ár bar hirðstjórinn Vigfús Ívarsson upp þessa fjárbæn drotningar, og játuðu þá allir helztu bændr nema Eyfirðingar, að gefa 8 álnir vaðmáls fyrir bænastað hirðstjórans. Þó skyldi þetta hvorki heita skattr né þess optar verða krafið, enda getr eigi optar um fjárbænir drottningar, framar en sáttmálar stóðu til, og sést af þessu, að enn höfðu þó landsmenn rænu til þess, að hrinda af sér ólögum.

Á seinustu árum 14. aldarinnar vóru 2 nýtir byskupar hér á landi, þótt útlendir væri, þeir Vilchín († 1406) í Skálholti og Pétr († 1402) á Hólum. Létu þeir báðir semja máldaga yfir allar kirkjueignir, og um Pétr er þess

getið, að hann hafi haldið skóla á stólnum. Gegndu þeir köllun sinni sem árvökrum yfirmönnum kirkjunnar sómdi, og vóru að mörgu ólíkir flestum útlendingum, þeim sem á fjórtándu og fimmtándu öldinni stjórnuðu kirkjunni hér á landi.

*3. Svarti dauði. Árni Ólafsson byskup, Englendingar taka að sigla til landsins og ræna þar. Jón Gerreksson byskup. Jón Vilhjálmsson byskup. Björn ríki drepinn. Ólafr Rögnvaldsson byskup. Stefán byskup Jónsson, Gottskálk byskup Nikolásson og Jón lögmaðr Sigmundarson. Lénharðr drepinn. Diðrik Píning hirðstjóri.*

Ekki var fimmtándu öldinni langt farið, þá er sú drepsótt kom hér til landsins, er mest hefir verið. 1402 kom út Hval-Einar Herjólfsson á skipi sínu, og á því bráðasótt svo mikil, að menn lágu dauðir innan þriggja nátta. Vóru þá gjörð heit mörg, svo sem að gefa silfr, til að búa skrín Guðmundar góða, og segir sagan, að eptir það næði flestir að skriptast. Gékk sóttin um haustið fyrir sunnan land með hinum mestu fádæmum, eyddi bæi víða, og var hún svo áköf, að þó að tólf eða fimmtán færi með líkum til grafar, er sagt að á stundum hafi að eins komið heim aptr fjórir eða fimm. Eyddi nálega Skálholtsstað þrisvar af þjónustufólki. Næsta ár gékk sóttin með hinni sömu ákefð, og þá mest fyrir norðan land, og er mælt, þó að það sé harðla ótrúlegt, að þar hafi að eins lifað eptir af klerklýð þrír prestar, jafnmargir djáknar og einn munkr. Segist svo frá sagnfróðum mönnum, að þá muni hafa dáið tveir þriðjungar manna hér á landi, en ýmsar ættir urðu aldauða og dáð og menntir dvínuðu, en jarðir lögðust í eyði. Hefir sótt þessi ver-

ið kölluð svarti dauði og stóð hún yfir tvö ár, og hafa þau ár verið einhver hin þungbærustu og skaðmestu landi þessu.

Eigi all-mörgum árum eptir svarta dauða varð íslenzkr maðr, Árni Ólafsson að nafni, byskup í Skálholti. Hann komst í hina mestu kærleika við Eirík konung frá Pommern, er konungdóm tók eptir Margrétu (1412). Árni hafði fyrr verið munkr og síðan heimilisprestr í Norvegi hjá ættgöfgum manni nokkrum, og síðan hjá ekkju hans. Fór hann með henni pílagrímsferð suðr til Rómaborgar og þá þar virðingar miklar. Nokkrum árum síðar (1413) fór hann á fund páfa, til að fá byskupsdæmi í Skálholti; hitti hann páfann í Flórens, og gékk honum ferð sú að óskum. Tveim árum síðar kom hann út hingað á skipi því, er hann átti sjálfr, og hafði þá stærri völd, en nokkur annar maðr hafði áðr haft hér á landi. Hann var byskup í Skálholti, umsjónarmaðr yfir Hólabyskupsdæmi og skipaðr vísitator yfir allt Ísland af Áskeli erkibyskupi. Hann hafði og þegið hirðstjórn af Eiríki konungi yfir allt land, og tók af landsmönnum alla skatta og skyldur konungs; einnig hafði hann umboð klaustrsins í Múnklífi í Björgvin, til að taka tíundir af Vestmannaeyjum, en Björgvinarkaupmenn margir höfðu falið honum á hendi að heimta inn skuldir sínar. Árni reið, er hann kom við land, til alþingis og lét lesa upp bréf sín í lögréttu og var honum tekið þar vel. Árni var íþróttamaðr hinn mesti og framkvæmdarsamr mjög; lét hann bæta mjög staðinn í Skálholti og gjöra marga dýrgripi; hann var höfðingi mikill í allri framgöngu og svo ör af fé, að hann var nefndr hinn mildi; en engu minna var það, hversu hann var ötull og fengsamr að afla fjárins. Meðan hann sat að stóli, kom Ívent Sassi hingað út,

til að beiðast fjár til handa hinum heilaga Antóníusi og brugðust menn vel við því, sem þá var títt, er dýrlingar áttu hlut að máli. Þá vóru og hafðar margar aðrar fjárbeiðslur uppi við almúgann, svo að þá var kallaðr »bónavetr« (1418), og flutti Árni byskup þær flestar, og varð vel ágengt, enda sáu menn í gegnum fingr við fjárdrátt hans, því að mönnum þótti hann skörungr hinn mesti og hinn glæsilegasti maðr. Fór hann héðan af landi brott eptir 4 ára dvöl (1419), og sá aldrei síðan ættland sitt, en lifði þó nokkur ár erlendis. Þótti svo mikið til hans koma, að það varð orðtak, þá er einhverjum þótti ófimlega fara: »Þitt var, en ekki Árna byskups«.

Eptir 1400 urðu þau umskipti, að hingað til landsins tóku að sigla Englendingar bæði til verzlunar og fiskiveiða; var verðlag hjá þeim miklu betra, en áðr hafði verið hjá Björgvinarkaupmönnum, en þeir höfðu verzlað hér á 13. og 14. öldinni. En skjótt tóku Englendingar að hafa í frammi alls konar óspektir. Rændu þeir strandir landsins, brenndu kirkjur og spilltu mjög veiðarfærum landsmanna og gjörðu margt annað illt. Urðu þeir svo djarfir, að þeir optar en einu sinni réðu á hirðstjórann á Bessastöðum og drápu suma af mönnum hans, en særðu aðra. 1420 kómu þeir á Skagafjörð á þrem skipum, og gengu þar á land upp með fylktu liði, til að ræna. Tóku þeir ráðsmann byskups og börðu hann, svo að byskup var sjálfr viðstaddr, en drápu þar einn mann konungs og gjörðu mörg önnur illvirki. Konungr vildi reyna að hepta þessi illvirki og bannaði þeim að sigla hingað og landsmönnum að verzla við þá, og bauð jafnframt hirðstjórum sínum, að veita þeim mótstöðu, en þeir skeyttu því engu, enda þótti landsmönnum gott við þá að eiga, er þeir fóru spaklega. Fóru nú svo skipti þeirra

og konungsmanna, að þeir tóku hirðstjórana Hannes Pálsson og Baltazar höndum í Vestmannaeyjum (1425), og höfðu þá með sér til Englands, hörmuðu flestir það lítt, því að hirðstjórarnir vóru ærið óþokkaðir af landsmönnum, höfðu sveinar Hannesar sama ár brotið kirkjuna og klaustrið að Helgafelli og drepið mann í kirkjugarðinum, og þótti það hið versta verk.

Skömmu síðar varð Jón Gerreksson byskup í Skálholti (1430) og bætti það ekki-um. Eiríkr konungr unni honum mjög, og hafði komið honum á erkistól í Uppsölum, en byskup var borinn þar svo ófögrum sökum, að hann varð að sleppa því embætti aptr eptir nokkur ár. En er Skálholtsbyskupsdæmi losnaði við dauða Árna byskups Ólafssonar, þótti konungi bera vel í veiðar, að ráðstafa Jóni, og kom hann honum því þar í byskupsembætti. Kom byskup út hingað með 30 sveina írska, og vóru þeir svo ódælir, að byskup réð nálega engu við þá. Fyrir byskups sveinum var Magnús nokkur, er sumir sögðu son byskupsins. Hann bað Margrétar Vigfúsdóttur hirðstjóra; en er honum var synjað ráðsins, reiddist hann og fór því með félögum sínum að Margrétu og bróður hennar Ívari Hólm að Kirkjubóli á Miðnesi, og hugði að brenna þau inni. Var Ívar skotinn til bana, en Margrét komst úr eldinum og flýði norðr í Eyjafjörð að Möðruvöllum til Lopts ríka og kvaðst þeim einum giptast mundu, er hefði hug til að reka harma sinna.

Um sömu mundir óvingaðist byskup við tvo hina ágætustu menn á landinu, Teit hinn ríka Gunnlaugsson í Bjarnarnesi og Þorvarð, son Lopts ríka á Möðruvöllum. Lét byskup taka þá höndum og hafa heim í Skálholt, og sættu þeir þar hinni óvirðulegustu meðferð; að lokum kómust þeir þó úr varðhaldinu og hugðu, sem vonlegt var,

á hefndir. Fóru nú menn á milli þeirra og bundu þeir það fastmælum, að koma hefndinni fram á Þorláksmessu sjálfa. Kómu þeir nú báðir í Skálholt á tilteknum tíma, og er byskup spurði komu þeirra, kvað hann þetta mundu gilda líf sitt og sinna manna. Skrýddist hann þá sjálfr og klerkar hans allir, géngu til kirkju og hóf byskup upp messu, en þeir félagar géngu heim á staðinn með mönnum sínum vopnuðum; var þá kirkjunni læst, en komumenn lyptu henni upp með trjám og géngu svo inn, lögðu hendr á byskup, þar sem hann stóð með vígða oflátu fyrir altarinu, og drógu hann utar eptir kirkjunni; prestarnir reyndu til að halda byskupi, en það tjáði ekki; fóru síðan komumenn með byskup til tjalda sinna og síðan niðr að Brúará; bað hann sér griða á marga vegu, en það kom fyrir ekki; létu þeir hann í poka, bundu stein við og fleygðu svo öllu saman út á ána hjá Spóastöðum. Lét biskup þar líf sitt, er hann hafði setið 3 ár að stóli og varð hann fáum harmdauðr. Byskupssveinar vóru drepnir, hvar sem þeir náðust, og jafnvel í kirkjunni sjálfri, og svo dysjaðir þar, sem síðan heitir Íragerði. Hefir í ekkert meira stórræði verið ráðizt hér á landi, þar sem í einu var byskup dreginn frá altari dómkirkjunnar og af lífi tekinn, dómkirkjan saurguð og hin stærsta hátíð vanhelguð, en þó kómu engar hefndir, svo að menn viti, fyrir verk þessi, og báðir foringjarnir vóru síðan um langan aldr vel metnir höfðingjar, og sýnir það að þetta var ekki um sakleysi gjört.

Um þessar mundir var og útlendr byskup á Hólum, Jón Vilhjálmsson, og kom hann hingað frá Englandi; hann var fjárdráttarmaðr mikill og slóst brátt í mikla deilu með honum og lögmanninum fyrir norðan, Hrafni Guðmundarsyni († 1432), er bæði var kjarkmikill og þótti

réttdæmr; deildu þeir einkum út úr skipreka, er báðir vildu hafa hönd yfir og dóm á. Forboðaði þá byskup lögmanninn, en lögmaðr andaðist litlu síðar og var þá þeirri deilu lokið.

Meðan Jón byskup Vilhjálmsson sat að stóli, gjörðu Englendingar enn óspektir fyrir norðan land, og kvað einna mest að þeim nálægt 1434. Höfðu þeir þá alls konar ójöfnuð í frammi, bæði í ránum og djarftæki til kvenna og annarri óhæfu. Tóku Skagfirðingar sig þá til, söfnuðu liði og mættu Englendingum við Mannskaðahól á Höfðaströnd og lögðu þar til orustu. Biðu Englendingar fullkominn ósigr og flýðu heim til Hóla, og segir sagan, að af þeim hafi fallið 80. Jón byskup tók þá á sínar náðir og lýsti griðum yfir þeim, enda höfðu þeir gefið Hólakirkju skip sitt hálft. Bannar byskup öllum að sýna þeim ónáðir, en vilji einhver kæra þá fyrir konungi, þá sé honum far til reiðu með sér á skipi þessu á næstkomanda vori.

Á því sem sagt hefir verið sèst, að ærið hefir verið stjórnleysi og agasamt hér á landi á stjórnarárum Eiríks frá Pommern, en þó virðist hann engan veginn hafa verið Íslendingum óþokkaðr, að minnsta kosti vildu þeir ekki, svo sem Teitr hinn ríki, láta trúnað sinn við hann, þá er hann var frá ríkjum rekinn, og lengi vel vildi Teitr engan annan konung hylla, meðan hann vissi Eirík á lífi.

Kristján hinn fyrsti kom til ríkis 1449, og sat hann fyrstr Oldenborgarmanna á veldisstóli Dana. Hann sendi hingað á hinum fyrstu ríkisárum sínum hina svo kölluðu löngu réttarbót, og tók hún mjög hart á mörgu, enda vildu Íslendingar ekki taka við henni. Fyrra hluta ríkisstjórnar hans voru hér tveir íslenzkir hirðstjórar; var annar þeirra Björn hinn ríki Þorleifsson dóttursonr Bjarn-

ar Jórsalafara ágæts höfðingja. Hann átti Ólöfu dóttur Lopts ríka, og voru þær tvær ættir ríkastar hér á landi í þann tíma. Englendingar héldu áfram verzlun sinni hér við land, en Kristján konungr vildi hindra það, enda fóru þeir opt óspaklega svo sem áðr; bauð því konungr Birni, að reka réttar landsmanna við Englendinga og það lèt hann ekki segja sér tvisvar, því að enskir víkingar höfðu áðr hertekið hann og konu hans í Orkneyjum. Tók hann nú upp fyrir enskum kaupmönnum fé mikið og varð af því hinn mesti fjandskapr milli hans og þeirra. Nokkrum árum síðar (1467) lágu margir enskir kaupmenn í Rifi í Snæfellsnessýslu, og fór þá Björn þangað með mönnum sínum, til að taka af þeim toll þann, er þeir skyldu gjalda konungi. Tóku kaupmenn sig þá til, og lögðu til orustu við hann, drápu hann og 7 af mönnum hans, en Þorleif son hans tóku þeir höndum. Hjuggu þeir líkama Bjarnar í stykki og sendu síðan konu hans Ólöfu. En henni varð það þá að orðum: »Ekki skal gráta Björn bónda, heldr safna liði«. Leysti hún fyrst út Þorleif son sinn með ærnu fé, og að því búnu er sagt, að hún hafi látið taka 3 ensk skip á Ísafirði og drepa af þeim margt manna, aðrir segja að hún hafi sjálf farið til hefnda, og klæðzt þá hringabrynju. Ólöf fór til Danmerkur, og kærði skaða sinn fyrir konungi, er mælt að konungi hafi þótt hún kona væn og sköruleg, og að hann hafi látið taka 4 ensk skip og selja í skaðabætr, og að af þessu öllu saman hafi orðið 5 ára óeirðir milli Englands og Danmerkur.

Á síðara parti 15. aldarinnar og fyrstu tveim tugum 16. aldarinnar, er helzt til frásagnar einkum í Hólabyskupsdæmi yfirgangr byskupa og deilur þeirra og leikmanna.

Eptir miðja 15. öldina varð Ólafr Rögnvaldsson,

norrænn maðr, byskup á Hólum. Hann var maðr fégjarn og ráðríkr, enda átti hann sífeldar deilur. En deila hans við lögmanninn fyrir norðan, Hrafn Brandsson († 1483), var snörpust. Maðr nokkur auðugr að löndum og lausafé, Bjarni Ólason á Hvassafelli í Eyjafirði var borinn því illmæli, að hann hefði samrekkt dóttur sinni, og fyrir þær sakir gjörði Ólafr byskup hann handtekinn, hafði hann í varðhaldi og setti honum skriptir harðar. Hrafn vildi draga þetta mál byskupi úr höndum, og skjóta skjóli yfir þau feðgin, enda ætluðu margir þau saklaus. Varð byskup þá hinn reiðasti og forboðaði lögmann, en lögmaðr bannaði aptr öllum þegnum konungs, að búa á jörðum byskups eða að veita honum nokkra þjónustu, en prestum fyrirbauð hann, að sitja í dómum hans. Ólafr lét þá á alþingi um sumarið í lögréttu lesa upp forboðsbréf sitt yfir Hrafni og forboðaði hann á ný, og sagði, að hann skyldi ekki skemma lögréttuna eða aðra dándismenn með náveru sinni, en Hrafn og félagar hans börðu höndum saman, og gjörðu hark mikið, svo að bréfin skyldi ekki heyrast, en lögréttumenn sumir buðu að skera sundr brjefin, og draga prestana út úr lögréttunni. Lét Hrafn síðan dóm ganga um mál þeirra feðgina, og fóru þeir nú báðir utan sama sumar (1481) byskup og lögmaðr, til að flytja mál sín fyrir konnngi og erkibyskupi, og hafði byskup sigr af málum þessum, en þó er þess ekki getið, að hann hafi komið fram neinum refsingum við lögmann. Varð sá endir síðar á Hvassafellsmálum, að Ólafr byskup og hirðstjórinn skiptu með sér jörðum Bjarna, en ekki vita menn um afdrif hans, en líkast þykir að hann hafi dáið í banni.

Nálægt þessum tíma (1477) urðu hin mestu undr af eldgangi, öskufalli, myrkrum og ógurlegum dunum ; var

jörð þá snjólaus, en þó þreifst ekki peningr. Kómu þá saman lærðir menn og leikir á Grund í Eyjafirði þriðjudaginn fyrsta í einmánuði, og var þar þá settr eða endrnýjaðr heitdagr Eyfirðinga og einmánaðarsamkoma. Skyldu menn framvegis koma þangað nefndan dag og halda lofmessu um Maríu mey, en gefa fátækum ákveðnar ölmusur, og hélzt þessi heitdagr langt fram yfir siðbót.

Seytján árum síðar en þetta gjörðist (1494) kom út með Englendingum sótt mikil; var hún svo skæð, að víða eyddust nálega bæir, en miklar eignir féllu undir einstaka menn, því að sumir erfðu flesta ættmenn sína. Mest gékk sóttin fyrir norðan land og er sagt, að þar hafi eptir verið að eins 26 prestar, fækkaði fólkinu mjög við drepsótt þessa, sem farið var að fjölga eptir svarta dauða; segir sagan, að minnst hafi sóttin verið á Vestfjörðum, og að þaðan hafi margt fólk komið og tekið sér byggð í Norðlendingafjórðungi. Þá er sótt þessi kom, fór Ólafr byskup af landi brott og andaðist hann erlendis, að því er menn ætla, ári síðar, og hafði hann áðr gefið Hólakirkju 109 jarðir fyrir sál sinni.

Síðast á fimmtándu öldinni urðu þeir byskupar á Íslandi, Stefán Jónsson († 1518) í Skálholti og Gottskálk Nikolásson á Hólum. Byskupar þessir áttu hinar mestu útistöður við leikmenn og var sú hríð einhver hin harðasta milli klerka og leikmanna, er verið hafði síðan á dögum Staða-Árna. Stefán var Íslendingr (svo höfðu og tveir hinir næstu byskupar í Skálholti verið), lærðr vel og hinn siðvandasti maðr, en harðdrægr og mjög refsingasamr. Hélt hann skóla á byskupsstólnum og setti fyrir hann klerk nokkurn íslenzkan, lærðan vel. Um hans daga kom hingað sendiboði páfans, til að selja aflátsbréf, og þó að

Stefáni væri eigi um slíkt gefið, þorði hann eigi að setja sig á móti boði páfa. Gottskálk var norrænn maðr, grimmr í skapi, harðgjör og fégjarn. Um þær mundir var ágætastr fyrir norðan land af leikmönnum Jón Sigmundarson, systrsonr Bjarnar hins ríka. Brátt gjörðust ýmsar greinir með honum og Gottskálki byskupi; var sú hin fyrsta, að byskup laug því upp, að fjórmenningsmein væri á hjónabandi Jóns og dæmdi hann í fjársektir miklar, og þó að Jón hreinsaði sig á alþingi (1507) bæði af þeim sökum og flestum öðrum, sem Gottskálk kærði hann fyrir, þá skeytti byskup því engu, heldur bannfærði Jón og stefndi konu hans heim að Hólum, til að taka lausn og skriptir, og varð hún fegin að kaupa sér frið, með því að láta jarðir nokkrar af hendi við byskup. Um sama leyti stefndi byskup Jóni um kirkjureikninga og lét dæma Hólakirkju fjögur höfuðból, sem kirkjurnar stóðu á. Þá fór Jón utan, til að fá rétting mála sinna, en þó að erkibyskup setti nefnd manna, til að rannsaka mál hans og konungr veitti honum lögmannsdæmið og skipaði að dæma um jarðir þær, er byskup hafði tekið af honum, þá vann hann ekki á fyrir ríki byskups. Reyndi þá Jón, að sættast við hann með því að fá honum of fjár, en sætt sú varð ekki langvinn, því að enn átti Jón eignir all-miklar. Næsta ár hóf byskup mál við hann að nýju, og bannfærði hann að lokum, og flýði þá Jón vestr á land til frænda síns Bjarnar Guðnasonar í Ögri.

Meðan deilur Jóns og Gottskálks stóðu yfir nyrðra, átti Stefán einnig deilur miklar við tvo mikilhæfa leikmenn í sínu byskupsdæmi, þá Torfa í Klofa sýslumann í Rangárvallasýslu, afkomanda Lopts ríka, og mág hans áðrnefndan Björn Guðnason, dótturson Bjarnar ríka, sýslumann í Ísafjarðarsýslu. Gjörðist þá Jón Sigmund-

arson formaðr að því, að flestir höfðingjar veraldlegrar stéttar fyrir norðan og vestan bundust samtökum í Leiðarhólmi í Dölum 1513 að því, að hnekkja hinu mikla ofrvaldi klerkanna og fylgja fram þeim samþykktum, sem gjörðar höfðu verið milli konungs og erkibyskups í Túnsbergi (1277) og var lögð við 13 marka sekt og útlegð hverjum þeim, er géngi úr samtökum þessum, en þetta kom fyrir ekki, enda vantaði fylgi allra fyrir sunnan land til þessa. Þeir Jón og Björn dóu báðir í banni; var Jón þá orðinn snauðr, þó að hann í fyrstu væri stórauðugr, hafði Gottskálk flett hann fé, og firrt hann vinum; áðr Jón andaðist (1520), áminnti hann börn sín að lifa kristilega, og fal svo önd sína Guði á hönd. Var Jón fyrir margra hluta sakir einhver hinn merkasti af leikmönnum á sínum tíma. Þá er Gottskálk spurði andlát Jóns, var hann í veizlu á Grenjaðarstað; segir sagan, að hann hafi þá mælt, að nú myndi ráð að búast til brottferðar. Reið hann þá skyndilega heim og tók sótt hastarlega, og úr henni andaðist hann skömmu síðar (1520), en alþýða trúði því, að Jón hefði stefnt byskupi fyrir Guðs dóm, enda hefir margr óskað öðrum hefnda fyrir minni sakir.

Á þessum tímum, er nú hefir síðast verið frá sagt, vóru hirðstjórar flestir útlendir og gættu sumir þeirra miðr réttar og laga, en vera átti, þar sem þeir vóru hinir æðstu valdsmenn veraldlegrar stéttar á landinu og áttu að hafa yfirstjórn og umsjón sýslumanna allra, enda gjörðu sjálfir margt illt. Um 1500 var hér Lénharðr nokkur og er hann kallaðr fógeti á Bessastöðum. Lénharðr þessi hafði í frammi rán og aðra óhæfu; settist hann á Arnarbæli í Ölfusi og rændi þaðan og hét að drepa Torfa í Klofa. Fór þá Torfi að honum og tók hann

af lífi. Með Lénharði var maðr nokkur íslenzkr, Eysteinn að nafni. Hann var þá 18 vetra og varði hann einn dyrnar, svo að enginn komst inn, fyrr en húsin vóru rofin. Varð Eysteinn þessi síðan frægr fyrir hreysti sína.

Nokkru síðar var hér hirðstjóri Tíli Pétrsson; hafði hann frammi ýmsan ójöfnuð og lét jafnvel á alþingi sjálfu (1517) drepa mann, sem vildi leggja mál sitt til laga, og taka síðan fé hans, og setja lögréttumann í fjötur fyrir það, að hann hafði djörfung til, að kveða upp dóm, er Tíla var á móti skapi. Kærðu landsmenn þetta fyrir konungi og missti þá Tíli hirðstjórnina, og var hann drepinn hér nokkrum árum síðar fyrir rán og hernað.

Litlu fyrir 1500 var Diðrik Pining hirðstjóri hér á landi; hefir hann þótt nýtr og merkilegr maðr og eru til tveir alþingisdómar—höfðu slíkir dómar lagagildi—sem við hann eru kendir og kallaðir Piningsdómar, með því að hann átti þátt í þeim; er annar þeirra um tíundir, en hinn um verzlun Englendinga og Þjóðverja, og vóru dómar þessir mikils metnir um langan aldr.

Fyrst á þessu tímabili blómguðust vísindi líkt og verið hafði áðr; má án efa telja svo, að mest af ritstörfum Sturlu Þórðarsonar († 1284) heyri þessu tímabili til, en hann er einn hinn mesti vísindamaðr að fornu og hefir ritað Sturlungu og sögu þeirra Hákonar gamla og Magnúsar lagabætis Norvegskonunga og margt fleira. En eptir því sem tímar liðu fram, eptir því dofnaði áhugi á vísindum. Þó vóru ritaðar sögur á fjórtándu öldinni t. d. saga Árna byskups (Staða-Árna) og Lárentsíus saga; þá vóru og ritaðir annálar, enda vóru þá og ýmsir vel lærðir menn uppi svo sem Lárentsíus, byskup að Hólum († 1330), Bergr Sokkason ábóti að Þverá og Einar Hafliðason prestr á Breiðabólstað († 1393), en eptir því sem

klerkavaldið óx, byskupar urðu fleiri útleudir og klerkalýðrinn varð sólgnari í auð og aðra tímanlega hagsæld, og eptir því sem deilur fóru meira í vöxt milli hins andlega og veraldlega valds, eptir því dvínaði áhugi og löngun til þekkingar og með því þekkingin sjálf.—Fimmtánda öldin er einn hinn myrkvasti tími í sögu þessa lands, enda var þá nálega hið eina sem ritað var, bréf og gjörningar, og ef til vill lítið eitt af annálum og þýðingum á helgra manna og riddara sögum, enda tók þá hið fagra mál fornaldarinnar mjög að spillast, einkum eptir að landið komst undir Danmörku. Eina af orsökunum til þess, að vísindi lögðust svo mjög í dá, má að vorri hyggju telja þá, að hin æðstu embætti kirkjunnar vóru vanalega skipuð útlendingum, því að við það hvarf hvötin fyrir iuulenda menn að skara fram úr, enda hvarf kirkjan svo langt frá því að lokum, að efla og breiða út sanna þekking, að nálega ólærðir menn gátu fengið hin æðstu embættin, og var þá eigi anuars að vænta, en að klerklýðrinn hinn lægri og alþýða væri ærið þekkingarlítil, en því betr þróaðist hjátrú og alls konar hindrvitni. Á þessu tímabili fóru menn þó stöku sinnum í skóla erleudis héðan af landi, og það var all-títt, að menn færi af landi brott pílagrímsferð til Róms og annarra helgistaða, og hafa þær ferðir nokkuð eflt þekking mauna.

Eptir að landið komst undir konung, var í fyrstu friðr meiri í landi, en verið hafði áðr, en um og eptir miðja fjórtándu öld hófst hinn mesti ófriðr, þótt sagnir um það séu óljósar; á fjórtándu öldiuni géngu og margar plágur yfir landið af völdum náttúrunnar, þá var og verzlun, sem nálega öll var í höndum Norvegsmanna, óhæg mjög og einatt lítil, en þó var manndómr landsmanna enn all-mikill, en þá kom svarti dauði og með honum

lagðist niðr flest nytsemd; urðu þá einstöku menn stórauðugir, og geta menn sagt, að á fimmtándu öldinni hafi tvær hinar ríkustu ættir ráðið mestu hér á landi, þá er byskupar eru taldir frá, enda efldust þær við það, að þær tengdust á svo marga vegu, en þetta eru ættir þeirra Bjarnar Jórsalafara og Lopts hins ríka, og mun þetta hafa stuðlað mikið að því, að þá var meiri friðr með leikmönnum og vígaferli minni en verið hafði fyrri. Þó fór svo undir lok aldarinnar, að miklar arfadeilur risu upp í ættum þessum, og urðu þær eitt með öðru til þess, að efla vald byskupa, en veikja mótstöðu leikmanna. Á fimmtándu öldinni vóru harðindi minni, en verið hafði á næstu öldinni á undan, og verzlun miklum mun betri, því þó að Englendingar færi óspaklega, eins og sagt hefir verið, þá vannst það margfaldlega upp í betra verðlagi. Þá tóku og Hansastaðir að verzla hér og kom við það verzlunarkeppni, og hún svo mikil, að Hansakaupmenn og Englendingar áttust opt svo illt við, að til bardaga kom og blóðsúthellinga með þeim. En ekki batnaði hagr landsmanna, og kom það einkum af þeim tveim stórsóttum, er géngu yfir landið fyrst og síðast á öldinni, og svo af hinu, að við það, að menntunin þvarr, en klerkaveldi óx, hvarf manndáð og framkvæmd.

Á þessu tímabili hélt alþingi dóms- og löggjafarvaldi sínu óskerðu, að því leyti sem verið gat með konungsstjórn, og þetta hvarf eigi undir byskupa, enda leituðust konungar eigi all-mjög við að auka vald sitt, en létu sér mest umhugað um, að ná þeim litlu tekjum af landinu, er þeir gátu fengið. Var landstjórnin, bæði hin andlega og veraldlega, höfðingjastjórn, en sífelldar deilur, svo sem sagt hefir verið, milli klerka og leikmanna um auð og yfirráð; en eptir því sem lengra leið fram, eptir því efld-

ust klerkar meira, en leikmenn buguðust, enda studdu konungar byskupa opt til sigrs; einkum hina útlendu, og varð nú byskupsveldið svo mikið, að til þess horfði, að enginn gæti rönd við reist. En það átti þó skamma æfi fyrir höndum, og mun nú hið næsta tímabil lýsa því, hvernig það féll í grunn niðr.

IV.

# Tímabilið frá 1520 til 1600.

*1. Ögmundr og Jón Arason byskupar. Siðbótarmenn í Skálholti. Byskupar taka hirðstjörn. Kristján III tekr konungdóm. Gizur kosinn byskup í Skálholti. Jón Arason og fylgismenn hans neita að taka við siðbótinni. Kristofer kemr út og lætr taka Ögmund. Siðbótin tekin í lög fyrir Skálholtsbyskupsdæmi. Gizur andast.*

Á þessu tímabili verðr mest sagt frá siðbótinni hér á landi, og þeim hinum miklu tíðindum, er henni fylgdu, og fyrir því virðist rétt, að nefna það *siðbótartímabilið*.

Svo sem kunnugt er, hóf Lúter siðbótina á Þýzkalandi 1517. Þaðan barst hún fyrst á Norðrlönd og svo síðan hingað til Íslands, og sátu þeir þá á byskupsstóli Ögmundr Pálsson í Skálholti (b. 1521) og Jón Arason á Hólum (b. 1524). Lítil vinátta var í fyrstu með byskupum þessum, og kom það af því, að Ögmundr vildi ónýta kosning Jóns og koma einum sinna manna í byskupsembættið, og varð af þessu svo mikill fjandskapr milli þeirra, að skömmu eptir að Jón kom frá vígslu, drógu þeir báðir saman lið mikið, héldu því til alþingis (1526) og hugðu að berjast; þó varð griðum komið á með þeim fyrir milligöngu beztu manna með því móti, að sinn mann fengi hvor þeirra til hólmgöngu; bar maðr Ögmundar þar hærra hlut, en það var Eysteinn sá, er nefndr

hefir verið, og þó að Norðlingar yndi eigi sínum hlut sem bezt, skildust byskupar þó vandræðalaust, og tók nú úr því að semjast með þeim, enda sáu þeir báðir, að þeim bar nauðsyn til, að sameina krapta sína, til að standa gegn siðbótinni, er þá tók smámsaman að gjöra vart við sig hér á landi.

Hinar fyrstu frásagnir, er menn hafa um siðbótina hér á landi, eru þær, að kirkjuprestrinn í Skálholti átti einhverju sinni að prédika á kyndilmessu (nálægt 1530), og tók hann þá að prédika gegn áköllun helgra manna og kallaði slíkt óguðlega villu. Þetta sárnaði Ögmundi mjög, því að prestr var honum harðla kær; átaldi byskup hann, en prestr varði mál sitt með stillingu, en þó með rökum. Varð sá endir á þessu, að byskup vildi eigi lengr hafa prest þenna sér við hönd og fór hann þá að Odda.

Þá voru og ýmsir aðrir menn á byskupssetrinu í Skálholti, er höfðu hallað sér að hinni nýju kenningu og iðkuðu hana, þó að leynt færi. Helztir þeirra vóru þeir Gizur Einarsson og Oddr Gottskálksson. Gizur kom ungr í Skálholt og tók Ögmundr hann þá að sér, setti hann í skóla og kom honum síðan til Þýzkalands til meira frama, og þar kynntist hann kenningu Lúters og féll hún honum vel í geð. Oddr var sonr Gottskálks Hólabyskups Nikulássonar; hann hafði alizt upp í Norvegi og framazt síðan vel í Þýzkalandi og aðhyllzt siðbótina. Báðir þessir menn géngu í þjónustu Ögmundar byskups, en fóru svo leynt með trú sína, að byskup fékk nálega ekki grun um rétttrúnað þeirra. Tók þá Oddr að leggja út nýja testamentið á íslenzku, og fékk því lokið að nokkrum árum liðnum.

Um þessar mundir andaðist Friðrik hinn fyrsti

Danakonungr (1533); hófst þá styrjöld í Danmörku, er bændr og borgarar vildu hafa Kristján annan, er rekinn hafði verið frá ríkjum, að konungi, en tiginbornir menn kusu Kristján son Friðriks konungs. Tóku þá byskupar hér hirðstjórnarvald hvor í sínu umdæmi, svo sem ríkisráðið í Noregi hafði falið þeim á hendi, og héldu því í þrjú ár (1534—1537), en þá hafði Kristján Friðriksson, er nefndr er hinn þriðji, yfirstigið alla óvini sína og tekið konungdóm yfir Danaveldi (1536—1559). Sendi hann þá hingað Kláus frá Mervitz með hirðstjórn og var Diðrik frá Minden umboðsmaðr hans. Vóru þeir báðir þokkaðir illa, en Íslendingar sáu sér ekki annað fært, en að ganga konungi til handa, og var það þó byskupum óljúft, því að það var alkunnugt, að konungr fylgdi fram hinum nýja sið. Þá er hann hafði komið siðbótinni á í Danmörku, sendi hann hingað (1538) kirkjuskipun þá, er hann hafði látið þar í lög taka, og bauð byskupum að fylgja henni, en ekkert varð af því að sinni. Var nú Ögmundr orðinn gamall, blindr og mæddr og vildi láta af byskupsdómi, og fyrir því lét hann velja Gizur til byskups eptir sig (1539), því að hann var honum kær, og hann efaðist alls eigi um rétttrúnað hans. Ritaði Ögmundr konungi með Gizuri og bað hann að samþykkja hann til byskupsembættis. Sigldi nú Gizur síðan og hélt á konungsfund; gékk honum greitt að fá erindi sínu framgengt, en hét konungi því, að láta fylgja hinum nýja sið og kenna guðsorð rétt og hreint. Með Gizuri fór utan Oddr Gottskálksson, og var þá prentuð (1540) útlegging hans af nýja testamentinu.

Í þenna tíma gjörðust þau tíðindi hér á landi, að Diðrik frá Minden fór á sjálfan hvítasunnumorgun út í Viðey, tók klaustrið á sitt vald og rændi þar mörgu.

Var ábótinn þá ekki heima; en það fólk, er í eyjunni var, tóku þeir Diðrik og fylgjarar hans nakið í rúmunum, og börðu suma, en særðu aðra, en þeir, er því náðu, tóku skip og flýðu til lands. Fyrir þessar sakir bannfærði Ögmundr Diðrik, en hann skipaðist eigi meir við það en svo, að hann tók sig til nokkrum tíma seinna, og hugði að fara austr á land til að taka klaustrin á Kirkjubæ og Þykkvabæ líkt og hann hafði gjört í Viðey. Þá er hann var á leið kominn, kom honum það til hugar að ríða heim í Skálholt, til að skaprauna Ögmundi. Og er hann kom þangað, bað byskup hann að hafa sig á brott af stólnum, en Diðrik skeytti því engu og hrakyrti byskup á margan veg. Þessu reiddist ráðsmaðrinn á staðnum, safnaði liði, og fór að Diðrik. Sat hann og menn hans þá að drykkju. Brutu komumenn þegar upp dyrnar, og veittu þeim atgöngu og féllu þar fylgdarmenn Diðriks og hann sjálfr eptir drengilega vörn (10. ágúst 1539) og vóru þeir allir dæmdir réttdræpir skömmu síðar.

Vorið eptir að þetta gjörðist, kom Gizur út og tók Ögmundr honum vel og afhenti honum staðinn. Var Gizur síðan samþykktr byskup á alþingi af leikum sem lærðum, en varð þó að heita klerkum því, að stjórna eptir *»gömlu og góðu lögmáli kirkjunnar«*. Síðan kómu fram bréf konungs þar á þinginu og vóru í þeim vígin í Skálholti kend Ögmundi og Íslendingum boðið að taka við kirkjuskipun konungs. Bréfum þessum svaraði Jón Arason og Norðlendingar með honum; kváðu þeir Ögmund saklausan, en Diðrik og fylgdarmenn hans réttdræpa, en skoruðust undan því að taka á móti kirkjuskipuninni. Fór nú að grennast vinátta Gizurar og Ögmundar, og vildi Ögmundr eiga samtök að því við Jón Arason að hindra siðbótina, en þau samtök fórust fyrir.

Vorið eptir sendi konungr hingað trúnaðarmanu sinn Kristófer Hvítfeld með tveim herskipum; átti hanu að krefja skatt af klerkum, koma siðbótinni á og framkvæma önnur erindi konungs. Þá er hann kom út, sendi hann menn austr að Hjalla í Ölfusi, en þar var þá Ögmundr í kynnisferð hjá Ásdísi systur sinni og þá áttræðr að aldri. Lét hann taka þar Ögmund höndum og flytja suðr á skip. Hafði honum verið ráðlagt að flýja og forða sér, meðan Danir væri við land, en Gizur hafði tælt hann til að vera kyrrau, og sagt, að hann þyrfti ekkert að óttast. Kristófer ginnti hann til að láta af hendi við sig jarðir sínar og dýrgripi og var það ærið fé, með því að heita honum frelsi, en flutti hann þó fanginn til Danmerkr, og dó hann þar skömmu síðar.

Þá er Ögmundr var tekinn, var kirkjuskipun konungs og með henni siðbótin tekin í lög á alþingi (1541) fyrir Skálholtsbyskupsdæmi, því að nú þorðu klerkar ekki annað en að hlýða vilja og boði Kristófers. Jón Arason ætlaði að ríða til alþingis að vanda. En er hann kom að Kalmanstungu, frétti hann hvernig komið var. Þótti honum þá ráðlegast að hverfa aptr, og gefa ekki færi á sér, en ritaði þó áðr bréf til alþingis, og kvaðst vilja hylla konung samkvæmt gamla sáttmála, en fyrirbjóða öllum á Íslandi, að dæma nokkurn dóm um sig eða byskupsdæmi sitt; en vilji eiuhver hafa slík mál fram, kvaðst hann skjóta máli sínu undir dóm konungs og ríkisráðsins í Norvegi, og fyrir því varð ekkert af því, að Norðlendingar tæki við siðbótinni. Gizur galt konungi skatt fyrir hönd klerkanna af fé dómkirkjunnar og hélt nú Kristófer síðan heimleiðis til Danmerkr.

Eptir þetta starfaði Gizur að því af mesta kappi, að siðbótin kæmist á í verki; bannaði hann messur, vök-

ur, myndadýrkun, áköllun helgra manna og aðrar katólskar siðvenjur; hann hvatti presta til að kvongast, kvongaðist sjálfr og reyndi til með öllu móti að fræða menn um sannindi hinnar nýju kenningar; en hann átti í hinum mesta vanda að standa. Leikum og lærðum var hinn nýi siðr næsta leiðr, og vildu sumir prestar heldr láta embætti, en fylgja honum, en nálega þeir einir, er umkomulitlir vóru, vildu taka vígslur. Meðan Gizur sat að stóli, tók konungr að kasta eign sinni á klaustrafén í Skálholtsstipti, og var það mikill auðr í löndum og lausafé.

Í Kallaðarnesi var kross einn, og hafði um langan aldr verið á honum átrúnaðr mikill og margar heitgöngur til hans. Nálægt kyndilmessu 1548 fór Gizur að heiman, til að taka kross þenna niðr, og er hann kom úr þeirri ferð, tók hann banasótt sína. Andaðist hann skömmu síðar, og hélt máli og rænu fram í andlátið. Þótti vinum hans að honum hinn mesti skaði, en trúaðir katólskir menn þóttust sjá í þessu guðs dóm fyrir hina miklu óhæfu við krossinn helga. Hafði Gizur verið fyrir margra hluta sakir merkr maðr, og myndi miklu hafa á leið komið, ef hans hefði lengr við notið.

*2. Byskupskosning i Skálholti. Marteinn verðr byskup. Jón riðr i Skálholt og vestr i Dali. Marteinn kemr út og lætr ónýta dóma Jóns og gjörninga. Jón fær bréf frá páfa. Marteinn tekinn höndum. Jón byskup tekr Skálholt, Viðey og Helgafell. Jón og synir hans teknir höndum og teknir af lifi. Hefndir norðanmanna. Sendimenn konungs taka eiða af Íslendingum. Marteinn boðaðr utan.*

Til þessa hafði Jón Arason setið kyrr og látið sig litlu skipta það, er fram fór í Skálholtsbyskupsdæmi; en

er Gizur var andaðr, ásetti hann sér að endrreisa katólska trú. Hann var nú orðinn hniginn að aldri. Átti hann þrjá sonu á lífi, Ara, er lögmaðr hafði verið, og þá Björn prest á Melstað og Sigurð prest á Grenjaðarstað, og vóru þeir allir skörungar. Þá er nú byskup spurði lát Gizurar, bauðst hann til að gegna byskupsembætti syðra, að svo miklu leyti sem kennimönnum þar þætti nauðsynlegt kristni guðs til eflingar.

Skömmu fyrir alþingi (1548) kómu saman leikmenn og klerkar í Skálholti til byskupskosningar. Kusu Lúterstrúarmenn Martein Einarsson, guðhræddan mann og auðgan, en katólskir menn Sigurð ábóta í Þykkvabæ, er kunnr var að fastheldni við forna trú. Sigldi Marteinn þegar á konungs fund, en setti áðr prestinn síra Jón Bjarnarson ráðsmann á staðinn og Pétr bróður sinn og mág sinn Daða Guðmundsson í Snóksdal honum til fylgdar. Sigurðr fór til alþingis, setti þar Jón byskup umboðsmann sinn, meðan hann dveldi ytra, og hélt síðan til Danmerkr. Hittu þeir Sigurðr báðir konung, og fór svo, að Marteinn fékk byskupsembættið og kom hann síðan út vorið eptir.

Þá er Jón byskup var orðinn umboðsmaðr Sigurðar, vildi hann fyrir hvern mun ná Skálholti á sitt vald, og fyrir því fór hann um sumarið (1548) norðan Kjöl með hundrað manna suðr í Skálholt, en síra Jóni kómu njósnir af ferðum hans, og fékk safnað þrem hundruðum manna, og var þar þá með honum Daði. Lét ráðsmaðrinn byskup vita, að hann myndi verja staðinn, og þótti honum þá vænst, er hann hafði dvalið þar fimm dægr, að hverfa heim aptr.

Illa undi byskup við ferð þessa, og hélt hann því skömmu síðar vestr í Dali, til að koma hefndum fram við

Daða, sem hann taldi hinn rammasta fjandmann sinn. Stefndi hann honum að mæta þar fyrir dómi sínum; en er Daði kom eigi, eins og vita mátti, lét byskup dæma hann fyrir margar og stórar sakir útlægan og fé hans allt upptækt, og hélt síðan heimleiðis; fékk þá Daði lögmanninn Orm Sturluson til að ónýta dóm þenna, og þóttist hann þá öruggr, og reyndi alls eigi, að leita sætta við byskup og líðr nú vetrinn af hendi.

Þá er Marteinn kom út, þóttist hann vera öruggr fyrir Jóni byskupi, með því að hann hafði sjálfr konungshylli mikla, en konungr gjört Jón útlægan. Hélt hann þegar til alþingis (1549), og lét lesa þar bréf sín, er hann hafði frá konungi. Síðan lét hann presta sína með dómi lýsa ónýta og ógilda alla dóma Jóns og gjörninga í Skálholtsbyskupsdæmi. Að því búnu hélt hann vestr á land í yfirreið sína og settist að um haustið á Staðarstað.

Ekki lét Jón byskup hug fallast fyrir þetta, enda hughreysti það hann mjög, að þetta sumar (1549) fékk hann bréf frá páfa. Hvatti páfinn hann til að halda fast við trú sína, hét honum trausti sínu og lýsti blessun sinni yfir honum. Varð Jón harðla glaðr af þessu, og hét nú að láta fyrr líf sitt, en trú sína eða trúnað við páfa og lét hann nú víggirða staðinn á Hólum til að vera við öllu búinn.

Haustið eptir að þetta gjörðist, sendi byskup sonu sína Björn og Ara vestr á sveitir til að taka höndum Martein og aðra óvini sína. Tóku þeir Martein á Staðarstað og síra Árna Arnórsson frá Hítardal, er verið hafði umboðsmaðr Marteins, meðan hann var erlendis, en Daða kom njósn, svo að hann fékk safnað mönnum, og þorðu þeir ekki á hann að ráða; fluttu þeir bandingja

sína norðr að Hólum og var Marteinn í haldi nyrðra til næsta vors.

Vorið eptir kom út hirðstjórinn Lárentíus Múli. Hafði konungur boðið honum að handtaka Jón byskup, og beðið þá Daða og Pétr Einarsson að styrkja hann til þess; en er Jón spurði þetta, hugði hann að sýna fjandmönnum sínum, að hann væri hvergi hræddr. Safnaði hann þá og synir hans liði miklu, og héldu til alþingis (1550), og réð byskup þar einn öllu. Þaðan héldu þeir feðgar í Skálholt, og höfðu Martein með sér. Ráðsmaðrinn síra Jón var enn allliðsterkr fyrir, og hugði að verja staðinn. Kvaðst þá Jón mundu láta Marteiu vera í fararbroddi, og mæta skotum staðarmanna. En er þeir skipuðust eigi við þetta, ritaði Marteinn síra Jóni og bað hann að gefa upp staðinn, og gjörði hann svo, og settist nú Jón byskup á staðinn, og var þar í viku; vígði hann kirkjuna og lét grafa upp líkama Gizurar, láta hann í poka og jarða í gryfju nokkurri. Setti byskup síðan Jón prest yfir staðinn og lét hann vera þar umboðsmann sinn. Er mælt, að Jón byskup hafi sagt, er hann hafði fengið vald yfir Skálholtsstað: »Nú hefi eg undir mér allt Ísland, nema hálfan annan kotuugs son«, en það voru þeir Pétr Einarsson og Daði Guðmundsson.

Frá Skálholti hélt byskup suðr í Viðey; rak hann Dani þaðan, tók klaustrið, og lét taka þar upp aptr klaustrlifnað og Alexíus ábóta og nokkra munka setjast þar að. Þaðan hélt byskup vestr að Helgafelli, og tók klaustrið þar á sama hátt og hanu hafði gjört í Viðey. Þá er hann hafði sýslað þetta, héldu þeir feðgar heim; þótti þeim för sín hin bezta og sátu þeir nú um kyrt um sumarið.

Nokkru fyrir vetrnætr tók Jón byskup sig upp og

hélt vestr á sveitir, því að hann þóttist þurfa að koma lögum yfir Daða, og vóru þá enn með honum synir hans Ari og Björn. Hafði byskup eigi fleiri menn að norðan en þrjá tigi, og hugði hann að auka lið sitt í Borgarfirði. Hélt hann nú vestr að Sauðafelli í Dölum og settist þar, og dvöldust þeir feðgar þar í náðum í þrjá daga, en þá kom Daði og hafði með sér átta tigi manna tygjaða vel. Varð nú bardagi á Sauðafelli og hann eigi langr, því að þegar er Borgfirðingar, sem fylgdu byskupi, sáu, hvað verða vildi, géngu þeir frá og vildu eigi fylgja honum. Leituðu Norðlendingar, þeir er það máttu, til kirkju, og þar var Jón byskup og synir hans teknir höndum (2. okt. 1550) og hafðir heim að Snóksdal. Fylgdarmenn Jóns lét Daði fara norðr og græða þá, er sárir vóru.

Daði sendi þegar til Kristjáns skrifara, sem var umboðsmaðr hirðstjórans, og lét hann vita, hvernig komið var. Hélt hann þá sem skjótast vestr að Snóksdal; þangað kom og Ormr lögmaðr og nokkrir aðrir heldri menn, og var þar þá dæmt, að geyma skyldi þá feðga til næsta alþingis, og skyldi Kristján geyma þá með tilstyrk Marteins og lögmanna beggja. Var síðan farið með bandingjana í Skálholt, og er þar kom, þóttist Kristján ekki treystast til að gæta þeirra. Var nú í nokkra daga ráðagjörð mikil, hvað við þá skyldi gjöra. Einhverju sinni þá er fyrirmenn sátu að morgunverði, sagði Jón prestr Bjarnarsson: »Öxin og jörðin geymir þá bezt«, og þótti Kristjáni þetta hið mesta snjallræði, og vildi nú ekki annnað heyra, en að þeir væri af lífi teknir. Bar hann margar sakir á þá, og tjáði nú engum að leggja þeim líknarmál, og var afráðið, að lífláta þá, og þeim fenginn prestr til að búa þá undir dauðann, og þótti Jóni byskupi það verst, að láta líf sitt fyrir Dönum. Áðr en

þá skyldi af lífi taka, meðtóku þeir allir hið heilaga kveldmáltíðar sakramenti eptir siðvenju katólskrar trúar. Var Ari fyrst líflátinn, og er sagt, að honum hafi verið boðið líf, en hann ekki viljað þiggja, og varð hann vel og karlmannlega við dauða sínum. Síðan vóru þeir af lífi teknir síra Björn og byskup, og tókst það illa og ómannlega; er mælt, að byskupi hafi verið boðið líf, en hann sagt, að sér þætti nú bezt að fylgja sonum sínum, og gjörðist þetta hinn 7. nóv. 1550. Vóru þeir feðgar allir merkir menn og unnu mjög trú sinni og ættjörðu, og fyrir þær sakir urðu þeir að láta líf sitt. Vóru líkamir þeirra verið eptir fluttir norðr að Hólum og jarðaðir þar með mikilli viðhöfn og mörgum tárum.

Þá er aftaka þeirra feðga spurðist norðr, þóttu það hin hörmulegustu tíðindi, og vildu flestir þar, einkum ættmenn Jóns, ef verða mætti, koma hefndum fram. Tóku vermenn að norðan sig þá til um vetrinn (1551), og fóru að Kristjáni skrifara og mönnum hans á Kirkjubóli á Miðnesi og drápu þá alla. Varðist Kristján vel, enda hafði hann hlífar góðar; en að lokum vann sveinn Þórunnar á Grund, dóttur Jóns byskups, á honum, og lýsti Kristján hann banamann sinn. Vermenn þessir drápu alla danska menn, er þeir fengu náð syðra, en þeir, sem undan kómust, flýðu austr í Skálholt. Konungr lét dæma banamenn Kristjáns dræpa skógarmenn; flýðu þá margir af þeim til Englands, en nokkrir kómust í sátt við höfuðsmann — svo var nú hirðstjóri konungs nefndr — seinna, en að eins einn var drepinn.

Sumarið áðr en þeir feðgar vóru af lífi teknir, hafði konungr spurt allar hinar miklu tiltekjur Jóns byskups, og hugði hann þá, að eigi myndi annað tjá, en að senda lið til Íslands, og fyrir því sendi hann (vorið 1551) Otta

Stígsson til suðrlandsins með einu skipi, en þá Axel Júl og Kristófer Trondsson til norðrlands með tveim skipum. Áttu þeir að taka Jón byskup og sonu hans höndum, láta landsmenn vinna konungi hollustueiða og Norðlinga taka við Lúterstrú. Sóru Norðlendingar eiða sína á Oddeyri við Eyjafjörð (15. júní 1551) og þar vóru þeir feðgar dæmdir landráðamenn og fé þeirra fallið undir konung, en eiðar Sunnlendinga fóru fram á alþingi.

Þeir Axel og Kristófer skipuðu Ólafi Hjaltasyni, presti að Laufási, sem árinu áðr hafði flúið land fyrir Jóni, byskupsdæmi á Hólum, og buðu honum að fylgja fram Lúterstrú og Norðlendingum að hlýða honum, og mælti nú enginn á móti því. Höfðu prestar áðr kosið síra Sigurð á Grenjaðarstað son Jóns til byskups, en þá kosning höfðu sendimenn konungs að engu. Að því búnu héldu þeir heim að Hólum, og höfðu þaðan á brott marga dýrgripi kirkjunnar, og héldu síðan samsumars heim aptr til Danmerkr, og hefir síðan Lúterstrú verið hin drottnandi trú á landinu.

Þá er konungr kom eigi svo hefndum fram, sem hann vildi, á banamönnum Kristjáns skrifara, líkaði honum það illa. Tóku þá Danir að bera sakir á þá Martein og síra Jón og kenna þeim um það, að þeir feðgar hefði verið af lífi teknir, og eigi haldinn Snóksdalsdómr, og fyrir því hefði Norðlendingar snúið hefndum á Kristján og menn hans. Fór þá svo að lokum, að þeir vóru kvaddir til Danmerkr, en þó látið heita svo, að tala ætti um trúarefni. Bæði af þessu og svo hinu, að Marteinn komst að því, að taka ætti beztu eignir frá dómkirkjunni í Skálholti, taldi hann hrakninga sína, og kvaðst vilja láta byskupsdæmið af hendi, með því að hann væri eigi fær um að standa í slíkum vanda, og var því tekið fúslega,

og þá eigi tekið hart á sökum. Varð þá prestrinn Gísli Jónsson byskup (1558) og hafði hann verið einn af hinum fyrstu játöndum Lúterstrúar hér á landi og í tölu helztu mótstöðumanna Jóns Arasonar.

*3. Skólar settir. Stóridómr. Guðbrandr verðr byskup og setr prentsmiðju. Guðbrandr fær verzlunarleyfi. Eggert rœntr. Vopnadómr. Deilur Jóns lögmanns og Guðbrands.*

Rétt eptir siðaskiptin varð hér höfuðsmaðr Páll Hvítfeldr bróðir Kristófers, og hafði mikil völd, enda tók hann embætti af lögmönnum báðum (1553). Hann setti og að konungsráði tvo skóla hér á landi, annan á Hólum (1552), og skyldu lærisveinar vera þar tuttugu og fjórir, en hinn í Skálholti (1553), en þar áttu að vera fjörutíu lærisveinar, en laun handa kennurum og ölmusur skólasveina skyldi taka af eignum skólanna.

Skömmu síðar varð Páll Stígsson höfuðsmaðr og var þá dæmdr Stóridómr (1564) um hegning þeirra manna, er sekir urðu í frændsemis- og sifjaspellum og hórdómi, og lögð dauðahegning við brot þessi, en áðr höfðu byskupar lagt skriftir þungar á slíka menn. Dóm þenna dæmdu lögmenn báðir, og tuttugu og fjórir höfðingjar veraldlegrar stéttar og þó allnauðgir; hafði Páll Stígsson þröngvað þeim til þess, því að hann var ráðríkr maðr, og vildi sníða hér sem flest eptir dönskum háttum. Fór hann með dóm þenna á konungs fund og fékk hann staðfestan, og gilti hann síðan sem lög um langan aldr, en var jafnan þokkaðr illa.

Ári áðr en Stóridómr var dæmdr, kom út konungsbréf eitt, sem skipaði höfuðsmanni að setja tuttugu og fjögra manna dóm, þá er á þyrfti að halda, til að dæma yfir dómi lögmanna, og var þetta hin mesta hnekking á dómsvaldi

lögmannanna, því að nú var þeirra dómr ekki lengr hinn æðsti dómr í landinu, eins og hingað til hafði verið; má telja víst, að bréf þetta hafi komið af hvötum Páls Stígssonar, sem með öllu móti vildi auka vald höfuðsmanna; en svo liðu þrjátíu ár, að dómr þessi var ekki settr, og þurfti áðr nýtt konungsboð til að koma, enda andaðist Páll eigi mörgum árum síðar (1566), en hann var líklegastr til að fylgja þessu fram.

Þá er Ólafr Hjaltason andaðist (1569), kusu Norðlendingar enn síra Sigurð á Grenjaðarstað, en konungr sinnti því eigi, en kvaddi Guðbrand Þorláksson til byskupsembættis, dótturson Jóns Sigmundarsonar, þess er áðr er getið. Hafði Guðbrandr framazt vel utanlands og var lærðastr allra Íslendinga, þeirra er þá vóru uppi. Guðbrandr bar fyrir konung hinn bágborna hag presta sinna, og hét konungr þeim hundrað ríkisdölum og bauð höfuðsmanni að láta þá. Var þá höfuðsmaðr Jóhann Bokkholt, og vildi hann eigi láta fé þetta af höndum; hafði í fyrstu verið gott í vináttu með honum og Guðbrandi, en tók nú mjög að spillast. Bar Guðbrandr þessa tregðu höfuðsmanns fyrir konung, og hafði það fram (1575), að prestar fengu féð. Þá er Gísli byskup í Skálholti sá, hversu Guðbrandi gékk þetta vel, fékk hann og hjá konungi tvö hundruð ríkisdali handa sínum prestum og lét höfuðsmaðr fyrir það þrjátíu og þrjár jarðir.

Um ekkert lét Guðbrandr sér meir hugað en að efla uppfræðing klerka og alþýðu. Var á Breiðabólstað í Vestrhópi prentsmiðja sú, er Jón Arason hafði fengið, og fékk Guðbrandr hana og bætti á margan veg. Lét hann íslenzkan mann nema prentiðn í Kaupmannahöfn, og er hann hafði komið þessu í kring, setti hann prentsmiðju fyrst í Núpufelli og síðan á Hólum og gaf því næst út

hinn mesta fjölda af guðsorðabókum og þar á meðal biblíuna (1584), sem hann hafði nálega lagt út alla sjálfr. Hélt hann þessu nytsama starfi fram, meðan honum entist heilsa og kraptar til, og hefir enginn maðr meira starfað að upplýsingu almennings í andlegum efnum hér á landi, en Guðbrandr byskup. — Honum samtíða, en þó nokkru yngri var frændi hans Arngrímr Jónsson »lærði«; varð hann frægr af ritum sínum ekki einungis innan lands, heldr og víða um önnur lönd.

Um það leyti er Guðbrandr varð byskup (1571), fékk danskr kaupmaðr nokkur einkaleyfi að verzla á þrem höfnum fyrir norðan land; var verzlun hans bæði ill, óhæg og lítil, og brá Norðlendingum mjög við, því að allt þangað til hafði verzlunin nálega verið frjáls. Bað þá Guðbrandr konung þess, að hann mætti í félagi með Skagfirðingum gjöra út eitt skip til verzlunar. En er höfðingjar veraldlegrar stéttar spurðu þetta, fengu þeir öfund á slíkri framkvæmd byskups, og rituðu konungi til að spilla þessu, og kváðu það ekki einungis hættulegt fyrir almenning, heldr gagnstætt lögum og venju, að Íslendingar ætti sjálfir skip í förum. Þessu skeytti konungr engu, en veitti Guðbrandi verzlunarleyfið (1579). Fékk þá Guðbrandr helztu menn um Skagafjörð í félag með sér; keyptu þeir skip mikið frá Hamborg og hlóðu það vöru, og átti það aptr að halda til Hamborgar, en það kom aldrei fram, og við það endaði þessi hin þarfa framkvæmd Skagfirðinga.

Á Bæ á Rauðasandi bjó höfðingi ríkr, Eggert Hannesson, dóttursonr Bjarnar Guðnasonar; hann hafði áðr verið lögmaðr og í höfuðsmanns stað. Nálægt þeim tíma, er nú hefir verið sagt frá (1579), kómu frá Hollandi enskir víkingar á Vestfjörðu. Rændu þeir kirkjur, drápu menn

og höfðu annau illverknað í frammi. Víkingar þessir kómu að Bæ, tóku Eggert höndum og rændu bæ hans, og var það stór-mikið fé, er þeir tóku þar; héldu þeir honum í mánuð í varðhaldi, og varð hann að leysa sig með miklu gjaldi, en vinna ræningjunum áðr eið, að kæra eigi skaða sinn né hrakninga fyrir konungi, og héldu þeir síðan á brott með miklu herfangi. Eggert hélt ekki nauðungareið þenna, heldr skýrði konungi frá aðförum þeirra og bað hann ásjár. Náðust ræningjar í Hollandi og vóru þar af lífi teknir. Sendi þá konungr 6 byssur og 8 spjót í hverja sýslu og var það vilji hans, að Íslendingar mætti verja sig fyrir útlendum illmennum.

Ránskapr þessi varð að öllum líkindum orsök til þess, að tveim árum síðar (1581) var dæmdr hinn svo nefndi vopnadómr. Dæmdi hann Magnús Jónsson, sýslumaðr vestra, tengdasonr Eggerts. Ámæla dómsmenn mjög þeim valdsmönnum, sem þá hafi fyrir fám árum látið taka af vopnaburð og brjóta vopn og verjur landsmönnum til skaða. Dæmdu þeir alla menn skylda að eiga ákveðin vopn eptir efnum, svo að þeir mætti verja ættjörð sína, ef ófrið bæri að hendi, en umboðsmaðr konungs skyldi vera liðsforingi og allir hlýða honum. Hver maðr skyldi kosta sig, meðan hernaðr stæði, en hreppstjórar telja vopnfæra menn, og kalla þá saman, er á þyrfti að halda. Þá var og ákveðið, að sýslumenn skyldi með ráði skynsömustu manna tiltaka, hvar hafa ætti vígi, þar er geyma mætti börn, gamalmenni og búsmala; einnig skyldu menn læra, að fylkja liði og anuað það, er til skipulegs hernaðar heyrði. Skutu þeir dómi þessum til lögréttu, svo að þar yrði endrbætt það, er þurfa þætti; en eigi er þess getið, að æðri valdsmenn hafi sinnt þessu

eða stutt að því, að almennr vopnaburðr tækist upp aptr. Magnús þessi var höfðingi mikill; reið hann jafnan til þings með fjörutíu eða fleiri vopnaðra manna, og þótti hinn mesti sómi að vera í flokki hans.

Skömmu síðar en Guðbraudr varð byskup, varð Jón Jónsson frá Svalbarði lögmaðr nyrðra (1573). Hann var ættaðr vel, og í móðurkyn kominn frá Lopti ríka, auðugr og kappgjarn. Í fyrstu var vel með þeim Guðbrandi, eu spilltist brátt, svo að síðustu varð fullr fjandskapr, og kom það mest af því, að þeir vóru báðir höfuð sinnar stéttar, klerka og leikmanna, er hvorir um sig vildu nú bera ægishjálm yfir hinum. Svo kómu og ýmsar aðrar greinir til, er þeim fóru sjálfum á milli, en Guðbrandr hafði eigi jafnmikið konungs traust og áðr, eptir að Friðrik annar (1559—1588) andaðist. Var sú hin fyrsta, að lögmaðr keypti erfðatilkall til jarðar einnar, er meir en áttatíu ár hafði legið undir Hólakirkju, og tók hana síðan, en byskup vildi eigi sleppa henni. Fór svo að lokum, að byskup vaun það mál (1590) og sættust þeir þá að kalla.

Um þessar mundir gjörði Arngrímr lærði, frændi Guðbrands, tilkall til tveggja jarða, er Gottskálk byskup hafði tekið af Jóni Sigmundarsyni afa þeirra. Kom þetta mál til dóms á alþingi (1592), og lögðu þá mótpartarnir fram bréf nokkur, sem vera áttu frá dögum Gottskálks. Var eitt um jarðir þessar, að kona Jóns hefði fengið byskupi þær fyrir fé, er húu hefði sukkað fyrir stólnum. Annað bréf bar þær sakir á Jón Sigmundarson, að hann hefði drepið bróður sinn, en drekkt tveimr börnum sínum. Þóttust dómsmenn ekki fá dæmt um bréf þessi, og skutu þeim undir úrskurð konungs, en greindu þó eigi varnir þær, er Guðbrandr bar fram, og þótti honum með

þessu máli sínu traðkað. Kendi hann þetta Jóni lögmanni, og varð nú með þeim fullr fjandskapr, og stefndi hvor öðrum fram fyrir konung og ríkisráðið; reið Guðbrandr heim og þóttist eigi með öllu mega vera aðgjörðalaus, og því ritaði hann þegar bækling með þeim vörnum fyrir móðurföður sinn, er hann hafði eigi mátt koma fram á alþingi.

Jón lögmaðr lét veraldlega höfðingja fela sér á hendi, að bera fyrir konung ýms nauðsynjamál landsins, og skyldi hver skattbóndi gjalda honum í farareyri 5 álnir (3 kr.). En af byskups hálfu fór Arngrímr lærði. Bar lögmaðr, þá er hann kom til Danmerkur, róg mikinn fyrir konung um byskupa og klerka. Kvað hann þá prætugjarna, og kaupa sakir á hendr alþýðu, til að ná af þeim fé, en byskupar þröngvi almenningi með kirkjureikningum, líkt sem hinir katólsku byskupar höfðu áðr gjört. Reyndi Arngrímr að eyða þessum ákærum, og var þá leitað atkvæða Jóhanns Bokkholts, er áðr hafði verið höfuðsmaðr, vinar lögmanns, en fjandmanns Guðbrands, og bar hann þá ófrægð mikla um Guðbrand og presta hans fyrir stjórnarherra, þá er ríkjum réðu í æsku Kristjáns fjórða (1588—1648). Varð sá endir á, að konungr ritaði byskupum og bannaði þeim að sýsla um það, er þeim kæmi eigi við, en af ferð lögmanns í lands þarfir varð lítill árangr annar en sá, að konungr bauð, að setja skyldi landþingsskrifara, og að alþingi skyldi standa í átta daga, svo að menn gæti lokið þar málum sínum.

Næsta ár kom Jón lögmaðr út, og hafði konungr boðið höfuðsmanni annaðhvort að sætta lögmann og byskup, eða þá að láta tuttugu og fjögra manna dóm ganga um mál þeirra. Héldu þeir nú báðir til alþingis, og

kómu þá bréf þau, er áðr hafa nefnd verið og morðbréf eru kölluð, undir dóm tuttugu og fjögra manna, og vóru þau dæmd falsbréf ónýt og að engu virðandi. En þeir Jón og Guðbraudr sættust fyrir milligöngu höfuðsmanns og annarra góðra manna, og áttu þeir ekki berlega illt saman síðan, en þó má ætla, að ekki hafi um heilt gróið, því að þrettán árum seinna, er Jón var orðinn hniginn mjög, kom út höfuðsmaðr Herluf Daa (1606). Reið Jón þegar til fundar við hann og var þar veizla góð og drukkið fast. En er Jón kom í tjald sitt um kveldið, mælti hann: »Nú skal Gutti setja ofan«, og lagðist til svefns, en honum auðnaðist ekki að troða framar illsakir við Guðbrand, því að morgni fundu sveinar hans hann örendan.

Við siðbótina varð hiu mesta breyting hér í landi, og lagði hún gruudvöll til þess, er bæði nú og seinna breyttist bæði til hius betra og verra í stjórn og högum landsmanna. Mikið af valdi því, er byskupar höfðu áðr haft, hvarf í hendr konuugi og höfuðsmanni. Byskupar misstu fjárforræði kirkjunnar. Tók konuugr til sín allar klaustra eignir, byskupstíundir og sakeyri byskupa, eu stólseignum héldu þeir sér til uppeldis, sem léni af konungi. Mikið af dómsvaldi því, er klerkar höfðu haft, hvarf nú og undir leikmenu, eu löggjafarvaldi alþingis tók nú að hnigna mjög. Þá misstu og byskupar þann rétt, að skipa prestsembættin, og gjörðu það nú ýmist höfuðsmenn eða konungar, því að lítið var um það, að söfnuðirnir notuðu sér þann rétt, er kirkjuskipanin heimilaði þeim, að kjósa presta sína. Leikmenn vildu nú jafna það á klerkum, er þeir urðu áðr að bera lægra hlut, og reyndu því sem mest að rýra vald þeirra, en klerkar vildu aptr sem mest halda í völd sín, og fyrir því urðu

hinar mestu deilur með þeim, og var það siðr þess, er þóttist bera lægra hlut, að leita fulltingis hjá höfuðsmanni eða konungi, og óx við það konungsvaldið fjarskalega, en afl landsmanna veiktist að því skapi, enda gat nú konungr látið hér framkvæma margt það, er Íslendingum var þvert um geð. Þá vóru og hinar mestu deilur með veraldlegum höfðingjum sjálfum, og kom það af því, að þeir sóttust eptir að ná hver frá öðrum klaustraeignum og öðrum þeim lénum, er konungr veitti, og spöruðu menn þá eigi róg og uudirferli og annað illt athæfi, en allt þetta miðaði til þess, að hnekkja mótstöðu Íslendinga gegn konungsvaldinu.

Mjög vóru menn tregir, að taka við hinum nýja sið, og leggja af þann hinn forna, enda hafði hinni mestu harðneskju verið beitt í siðbótarverkinu og það bætti lítið um, þótt byskupar léti brenua krossa og brjóta myndir helgra manna. En þá er Páll Stígsson varð höfuðsmaðr (1560), fengu byskupar öruggt fylgi hans, til að eyða hinum katólsku siðvenjum. Páll var ötull, einbeittr og harðráðr; bannaði hann allar ólögmætar helgar, ljósakveykingar fyrir líkneskjum og annað þess háttar, en bauð mönnum að gjalda afdráttarlaust klerkum og kirkjum lögboðin gjöld; einnig bauð hann, að hver maðr skyldi á helgum öllum, þá er messa bæri, koma til kirkju sinnar, og lagði hanu við þunga hegning, ef þessu væri eigi hlýtt, en þó var það lengi, áðr hugsunarháttr manna breyttist til hlítar í þessu efni, enda var alþýða og klerkar margir þekkingarlítil framan af.

Ekki var siðferði manna betra á þessu tímabili, en verið hafði áðr fyrri, og var þess heldr ekki að vænta, því að tíminn var enn of stuttr til þess, að hin nýja kenning gæti haft verulega betrandi áhrif á hugi manna, en

von um ábata kveykti róg og áseilni, og ótti sá, er staðið hafði af refsingum kirkjunnar, hvarf, og við það stældist margr til óknytta og ósiðsemi.

Með siðbótinni vaknaði hér á landi, eins og annars staðar, menntalíf; vóru þeir lærðir vel Oddr Gottskálksson († 1556) og Gizur byskup, og gjörðu sitt til að fræða landa sína; en með skólasetningunni var þó fyrst lagðr reglulegr grundvöllr til menntalífs innanlands, og við háskóla erlendis var nú Íslendingum kostr á meira lærdómi en hér fékkst, enda fengust brátt lærðir menn í byskupsembættin, svo sem Guðbrandr og Oddr Einarsson byskup í Skálholti (1589), og eru þetta gleðilegir ávextir siðbótarinnar.

Á þessu tímabili öndverðu var verzlunin svipuð því, er var á síðara helmingi hins næsta tímabils á undan, en þó mest í höndum Hamborgarmanna og þá all-góð. En smámsaman tók nú konungr að hafa allmikil afskipti af verzluninni, og ýmist að leigja vissum mönnum vissar hafnir, sem engir aðrir máttu verzla á, eða hann lét verzla sjálfr, og þóttu Íslendingum þau umskipti eigi góð, þótt verra yrði síðar, og var það eitt af þeim erindum, er Jón lögmaðr bar fyrir konung af hálfu Íslendinga, að verzlunin væri gefin frjáls, en konungr neitaði því, og kvað landsmönnum það skaðlegt.

Ekki er getið um fyrirtaksharðindi eða stórsóttir á tímabili þessu; þó virðist, að eptir því sem nær leið lokum sextándu aldarinnar, eptir því hafi hagr landsmanna versnað, og verið þá að mörgu leyti fremr bágr, og er allíklegt, að verzlunin hafi átt nokkurn þátt í þessu, enda taka nú landsmenn að senda til konungs kvartanir bæði yfir henni, harðindum og öðrum bágindum landsins, en framkvæmdir þeirra að bjarga sér sjálfir dvína óðum.

V.

# Tímabilið frá 1600 til 1786.

---

*1. Harðindi. Verzlun seld á leigu. Spánskir víkingar. Fjandskapr Herlufs Daa og Odds byskups. Guðbrandr byskup kærðr fyrir konungi, hann andast. Tyrkir ræna. Galdrabrennur. Taxti settr. Hinrik Bjelke höfuðsmaðr.*

Á tímabili þessu var verzlun hér á landi jafnan einokun, landsmönnum til hins mesta tjóns, og því köllum vér þessi 186 ár *einokunartímabilið.*

Seytjánda öldin byrjaði eigi gleðilega, því að með henni hófust hin mestu harðindi, er stóðu yfir hin fyrstu fjögur árin. Var hinn fyrsti vetr aldarinnar kallaðr Lurkr, annar Píningsvetr, en hið fjórða árið var nefnt Eymdarár. Féll þá mjög peningr manna, en síðan kom hungr svo mikið, að þá féllu af harðrétti 9 þúsundir manna, en hinn mesti sægr af förumönnum fór um land allt.

Meðan þessi harðindi þröngdu kostum landsmanna, leigði Kristján konungr fjórði alla verzlun á Íslandi íbúum Kaupmannahafnar, Málmeyjar og Helsingjaeyrar (1602), en Þjóðverjum var bönnuð öll verzlun við landsmenn. Áttu þessir leigunautar, að sigla á 20 hafnir á landinu, flytja næga, góða og ósvikna kaupmannsvöru, og selja hana með því verðlagi, er áðr hafði tíðkazt, og hafa sömu alin og vog, sem á Íslandi hafði áðr verið, en kæmi ágreiningr milli kaupmanna og Íslendinga, skyldu

lögmenn og lögréttumenn eiga dóm á því. Kaupmenn skyldu hafa lénsmann konungs í heiðri, og umgangast landsmenn með vinsemd. En þó að konungr byði þetta, þá kom það fyrir ekki, og urðu nú hin verstu umskipti, og það svo, að eptir tvö ár neyddust landsmenn til að kæra kaupmenn fyrir konungi, því að bæði var varan hin útlenda miklu dýrari en áðr, og nauðsynjavara fékkst ekki nægileg, svo sem viðr, járn og tjara. Eigi vita menn, hvern árangr kæra þessi hefir haft, en iðulega ítrekaði konungr bann sitt gegn því, að aðrir en leigunautar verzlunarinnar sigldi til landsins.

Um þessar mundir (1606) varð Herluf Daa höfuðsmaðr, og kom þá út ári seinna það konungsbréf, að öll lén og sýslur á Íslandi skyldu veitt æfilangt, og var það eitt hið þarfasta konungsboð í þann tíma, til að koma í veg fyrir róg og áseilni, en því miðr var það haldið skamma stund. Meðan Herluf var höfuðsmaðr, gjörðist það, að spánskir víkingar kómu hér við land (1615), og höfðu í frammi rán og aðrar óspektir, en ekki drápu þeir menn. En er konungr spurði þetta, bauð hann, að þeir skyldi dræpir vera. Tók sig þá til Ari, sýslumaðr í Ísafjarðarsýslu, sonr Magnúsar þess, er dæmt hafði vopnadóm fyrrum, safnaði liði, fór að víkingum og drap margt af þeim, en hinir er lífs urðu eptir, fengu náð enskri skútu og kómust svo af landi brott.

Um þetta leyti var Oddr Einarsson byskup († 1630) í Skálholti; varð brátt kalt með honum og Herluf, og að síðustu fullr fjandskapr; er það jafnvel sagt, að höfuðsmaðr hafi látið í veizlu nokkurri, er hann hélt byskupi, blanda honum ólyfjan. Kærðu þeir nú að lokum hvor annan fyrir konungi, og fór Árni sonr byskups af hendi föður síns utan, til að flytja mál hans við konung, en

Herluf fór sjálfr. Sendi þá konungr tvo menn (1618) þá Friðrik Frís og Jörgen Wind út til Íslands, til að rannsaka og dæma mál þeirra; þeir áttu og að dæma öll önnur mál, er fyrir kæmi á alþingi. En er til alþingis kom, var Árni ekki kominn, og þóttist þá Herluf hafa ráð byskups í hendi sér. En er málin kómu til dóms, kom Árni í opna skjöldu. Hafði hann komið út í Vopnafirði rétt fyrir þing og riðið þaðan á fjórum dögum, og fór nú svo, að þeir feðgar unnu mál sín. Missti Herluf síðan hirðstjórnina og varð að gjalda sektir miklar og dó að lokum snauðr, en Árni hafði hina mestu sæmd af málum þessum; varð hann síðan lögmaðr og einn hinn ágætasti maðr landsins á seytjándu öldinni.

Á þingi þessu kómu fram óvinir Guðbrands byskups, og kærðu fyrir sendimönnum konungs, að hann hefði selt jarðir undan dómkirkjunni og héldi ónýtan skólameistara. Þá var hann og kærðr fyrir hina síðustu vörn sína fyrir móðurföður sinn Jón Sigmundarson, er hann hafði þá ritað fyrir tíu árum, og var það kallaðr »morðbréfabæklingr«. Hafði hann sneitt þar mjög að óvinum sínum um falsbréfagjörðina, og jafnvel að Jóni lögmanni, er þá var andaðr. Tóku sendimenn við kærum þessum til að bera þær fyrir konung, og héldu síðan heim til Danmerkr.

Næsta ár kom út Friðrik Frís með hirðstjórn og hafði konungsbréf mörg með að fara, en hann andaðist á Bessastöðum þrem nóttum eptir að hann kom þangað. Hafði konungr boðið honum að kæra byskupa báða Guðbrand og Odd fyrir ýmsar sakir, en úr því varð lítið að þessu sinni, þá er höfuðsmaðr var látinn. Sættist nú Guðbrandr við mótstöðumenn sína út úr morðbréfabæklingunum, en svo var konungr orðinn byskupi reiðr af

rógi óvina hans, að hann vildi með engu móti láta það mál falla niðr; varð byskup seinna að gjalda konungi fyrir það í sekt þúsund ríkisdali, en það var svo mikið fé, að eptir núgildandi verðlagi myndi það að minnsta kosti nema tólf þúsundum króna. Skömmu síðar en þetta gjörðist (1624), varð Guðbrandr byskup sjúkr og lagðist í kör. Vildi þá til sama sumarið það slys, að dómkirkjan á Hólum brotnaði í norðanveðri, en ekki var Guðbrandr látinn vita það, því að menn hugðu, að honum myndi falla það ærið þungt; eu það þótti honum venjubrugðið, að hann heyrði aldrei klukknahljóð, og undraði og angraði hann það stórlega. Guðbrandr byskup audaðist um sumarið 1627 hálfníræðr að aldri, þá er hann hafði verið 56 ár byskup, og hafði hann fyrir flestra hluta sakir verið hinn ágætasti maðr.

Sama árið, sem Guðbrandr dó, var höfuðsmaðr hér Holgeir Rósenkrans. Þá kómu hingað tyrkneskir víkingar frá Algier, sem er borg á norðrströndum Suðrálfu heims. Vóru þeir Múhameðstrúar og mjög grimmir kristnum mönnum. Þeir vóru á mörgum skipum, og héldu sum þeirra til Griudavíkr, og tóku þar tvö kaupför með allri áhöfn, og menu nokkra á landi. Síðan héldu þeir iun á Faxaflóa og hugðu að gauga á land upp á Bessastöðum, en höfuðsmaðrinn hafði safnað að sér mönnum, og látið koma til sín inn á Seiluna, sem er höfn nær Bessastöðum, skip úr Keflavík og Hafuarfirði. Var þar við höfnina gjört vígi, og þangað fluttar byssur, þær er til vóru. En er víkingar sáu viðbúnaðinn, hikuðu þeir og sneru við, og stóð þá skip þeirra á grynningum. Fluttu þeir þá bandingjana á hitt skipið, er laust var, og annan farangr sinn, og vóru þar tvö dægr, unz þeir kómust á brott, og fékk höfuðsmaðr ámæli mikið af því að ráða

eigi á þá, meðan þeir vóru í flutningum þessum. Þá kómu og víkingar á Austfjörðu, og rændu þar fé og 110 mönnum, en drápu suma og spiltu því, er þeir máttu. En mest kvað þó að ránum þeirra og manndrápum á Vestmannaeyjum. Kómu þeir þangað á þrem skipum og géngu upp þrjú hundruð manna; skiptu þeir sér í þrjá flokka og fóru um allar eyjarnar með ópi miklu og illum látum, börðu og særðu menn, en drápu suma. Ráku þeir fólkið saman af eyjunum að kaupmannshúsunum hinum dönsku, og tóku þar höndum og fluttu á skip tvö hundruð fjörutíu og tvo menn, en brenndu síðan húsin til ösku, og alla þá þar inni, er lasburða vóru. Þeir brenndu og Landakirkju, en rændu öllu því, er fémætt var og héldu síðan á brott; vóru bandingjarnir allir fluttir til Algier, og seldir þar í ánauð. Tóku þá sumir Múhameðs trú, en flestir dóu skjótt; að eins 37 vóru keyptir út 9 árum síðar; en einir 13 af þeim sáu aptr ættjörð sína.

Um þessar mundir hófust hér galdrabrennur. Var fyrst brenndr Jón nokkur Rögnvaldsson úr Eyjafirði (1625), er sakaðr var um, að hafa vakið upp draug. — Kómu lögin um galdrabrennur frá Danmörku og fylgdi Holgeir Rósenkrans því fast fram, að þeim væri beitt hér á landi. Stóðu galdradómar og galdrabrennur hér á landi yfir rúm 60 ár, og er sagt, að þrjátíu menn hafi verið brendir hér fyrir galdr. Var hinn mesti ótti og uggr fyrir galdramönnum, en yfirvöld géngu röggsamlega fram í því, að leita þá uppi og fá þá dregna á bál; og þó að slíkt þyki nú heimskulegt, þá þótti það í þann tíma eitt hið mesta nauðsynjaverk og hin bezta framkvæmd valdsmanna.

Nokkru fyrir þenna tíma (1619) setti konungr hinn fyrsta taxta, en það var kauplag á útlendri og innlendri vöru, sem kaupmenn og Islendingar skyldu fylgja í við-

skiptum sínum. Var það í fyrsta sinni, að konungr gjörði þetta, því að áðr höfðu Íslendingar jafnan lagt lag á varning, eða þá keypt eins og kaupmenn vildu selja. Var nú hin útlenda varan dýr mjög, en þó þótti kaupmönnum taxti þessi eigi nógu hár og fengu konung til þess (1631) að setja annan hærra, en jafnskjótt og hann var birtr á alþingi, kómu fram af hendi landsmanna ýmsar kvartanir yfir kaupmönnum, og jafnframt yfir harðindum þeim, er gengið höfðu þá um nokkur ár yfir landið, og báðu þeir vægðar á hinum nýja taxta; en eigi fengu þeir höfuðsmanninn, sem þá var enn, Holgeir Rósenkrans, til að bera þessar landsnauðsynjar fyrir konung. En þá vildi svo til, að Gísli sonr Odds byskups var sama sumar kosinn til byskups í Skálholti og sigldi hann þá til vígslu. Fór hann með bænarskrá Íslendinga móti hinum nýja taxta, og bar hana sjálfr fyrir konung, og fékk því með fortölum sínum framgengt, að konungr bauð að hinn fyrri taxtinn skyldi gilda, og fékk Gísli byskup af þessu hina mestu vinsæld og virðing, en fast var gengið að því, sem fyrri, að engir utanríkismenn kæmi til landsins og vóru slíkir menn hér ófriðhelgir, en skip þeirra og góðs upptæk.

Um miðja seytjándu öld varð Hinrik Bjelke aðmíráll höfuðsmaðr (1649—1683). Hann var hinn mesti merkismaðr og í flestu velviljaðr Íslendingum. Um hans daga vóru fyrst settir hér spítalar (1652); vóru þeir fjórir, einn í hverjum fjórðungi landsins, og skyldu í þeim holdsveikir menn hafa uppeldi og aðhjúkrun, og var það hin þarfasta stofnun.

*2. Friðrik þriðji verðr einvaldr. Kristján fimmti hylltr. Brynjúlfr byskup. Fógeti, amtmaðr, Stiptsbefalings-*

*maðr settir. Lögmönnum boðið að semja nýja lögbók. —Harðræði við landsmenn.—Jón Vigfússon. Lauritz Gottrup sendr til Kaupmannahafnar. Árni Magnússon og Páll Vídalín ferðast um landið.*

1661 varð Friðrik þriðji einvaldr konungr í Noregi og Danmörku, með því að honum og niðjum hans var svarið einveldi í karllegg og kvenlegg. Árið eptir kómu út bréf konungs til Íslendinga, og var þar boðið byskupum, lögmönnum, prófföstum, sýslumönnum og þeim öðrum er kjósa skyldi af prestum og alþýðu, að koma saman á Þingvelli, til að vinna konungi erfðahyllingareiða til einveldis, og kómu þeir þangað allir, er til þess vóru kvaddir, en höfuðsmaðr kom ekki út fyrri en þingi var slitið. Sendi hann þegar boð út um landið, og kómu þeir saman á Bessastöðum, sem vinna skyldu eiðinn, síðast í júlí, og var síðan haldið þaðan inn í Kópavog, en þar var gamall þingstaðr, og var Friðriki konungi svarinn þar trúnaðr, og öllum afkomöndum hans í karllegg og kvenlegg (28. júlí 1662); þó báðu landsmenn konung, að þeir mætti halda landslögum sínum fornum, og kváðust vænta þess; enda varð hin fyrstu tuttugu ár engin breyting á stjórnarháttum Íslendinga.

Þá er Friðrik þriðji var andaðr, kom út aðmíráll Jens Rodsteen frá Leerbek (1670) og átti hann að láta Íslendinga hylla Kristján konung fimmta; kom hann út í Vestmannaeyjum í byrjun alþingis, og sendi þaðan upp á alþingi og lét þar birta það boð sitt, að þingmenn skyldi annaðhvort bíða sín þar, eða halda til Bessastaða og það kusu þeir. Unnu þeir, sem til þess vóru teknir, þar fyrir aðmírálnum hyllingareiða sína (8. júlí 1670) og var þá síðan haldin hin ágætasta veizla. Konungr vildi nú, að Íslendingar hefði sjálfir hlut í verzlun sinni, og

birti aðmírállinn Brynjúlfi byskupi það konungsboð, og bað hann að tjá það prestum sínum. Gjörði byskup það og hvatti þá mjög til að sinna þessu, og kvað það mjög nytsamt landsmönnum, en flestir töldu sig ófæra til þess sökum örbirgðar, og fórst það því fyrir sem verr var.

Í það mund, er Hinrik Bjelke var hér höfuðsmaðr, sat Brynjúlfr Sveinsson á byskupsstóli í Skálholti (1639—1674). Hann var hinn mesti gáfu- og lærdómsmaðr og hinn röggsamasti byskup, og vildi í hvívetna halda fram réttindum prestastéttarinnar og vernda þau, og fyrir því var það, að hann fékk afnumna hina svo nefndu helmingadóma, þar sem leikmenn og prestar dæmdu í einingu, jafnmargir af hvorum í andlegum málefnum, og hafði það tíðkazt síðan um siðaskiptin. Fékk hann því til vegar komið, að prestar sátu einir í slíkum dómum um hans daga, eins og verið hafði í hinum katólska sið.

Samtíða honum lifði hið andríka og nafnkunna sálmaskáld Hallgrímr Pétrsson prestr í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd; andaðist hann að Ferstiklu 1674 sextugr að aldri, og hafði hann þá verið 10 ár sjúkr af holdsveiki, en alla æfi átti hann við þröngvan kost að búa.

Þá er Hinrik Bjelke var andaðr, varð sú breyting á landstjórninni, að þá var fyrst settr hér landfógeti (1683). Síðan var settr stiptbefalingsmaðr (1684) og loksins amtmaðr (1688). Landfógetinn átti að hafa á hendi alla tolltöku á landinu, stjórn konungsjarða og umsjón með fiskiveiðum konungs, en rentukammerið hafði yfirstjórnina á þessu öllu. Amtmaðrinn hafði á hendi stjórn laga og réttar, en stiptbefalingsmaðrinn hafði aðalumsjón með landsstjórninni yfir höfuð, einkum stjórn og dómum hinna andlegu málefna. Géngu nú mál landsins eptir þetta venjulega frá embættismönnum þessum til kan-

sellíisins og rentukammersins og svo þaðan til konungs. Var þetta mikil breyting, því að áðr hafði höfuðsmaðr haft alla æðstu landsstjórn á hendi og staðið beinlínis undir konungi. Eptir þetta skipaði konungr byskupa og lögmenn í embætti, en áðr höfðu landsmenn vanalega kosið þá sjálfir, og konungr staðfest kosninguna. Konungr tók nú og sjálfur smámsaman að veita sýslumannaembættin, en áðr höfðu höfuðsmennirnir gjört það opt eptir tillögum sýslubúa, og vóru þetta alltsaman afleiðingar af einveldinu. Á næstu öldinni á eptir tóku sýslumenn að lesa lög við háskólann í Kaupmannahöfn, en áðr höfðu þeir á stundum verið ólærðir menn og flestir ókunnugir öðrum lögum en íslenzkum, enda tók nú réttarfar og að sumu leyti lögin að breytast frá því er áðr var.

Um þessar mundir (1688) kom út skipan konungs til lögmanna beggja, að semja íslenzka lögbók í stað Jónsbókar eptir hinni norsku lögbók Kristjáns fimmta. Byskupum báðum var og boðið, að semja þann þátt bókarinnar, sem snerti kristinrétt. Sömdu lögmenn frumvarp og sendu til Danmerkr, en það náði ekki staðfestingu konungs. Síðan var á átjándu öldinni opt reynt að gjöra þetta, en það var jafnan árangrslaust.

Þrem árum síðar fóru fyrst fram dómar undir þaki á alþingi, en allt þangað til höfðu þeir verið háðir undir berum himni. Gékkst Heidemann, er fyrstr var landfógeti, fyrir því, að hlaðnir vóru veggir að lögréttunni; lagði hann síðan til viðina í hana, en sýslumaðr hver skyldi leggja til tíu álnir af vaðmáli hvítu í þakið.

Nokkru fyrri en þetta gjörðist, kom nýr taxti (1684), og var hann miklu harðari, en hinir fyrri höfðu verið. Var landinu nú skipt í tilteknar kaupsveitir, og átti hver maðr að verzla við kaupmann þeirrar sveitar, er hann

var búsettr í, og lá við búslóðarmissir og Brimarhólmsvist, ef brugðið var út af þessu, en kaupmenn beittu lögum þessum allóvægilega. Þannig var Hólmfastr nokkur, hjáleigumaðr á Brunnastöðum, eptir kæru kaupmanns síns (1699) hýddr við staur í návist Müllers, er hér var fyrsti amtmaðr, fyrir það, að hann hafði fyrir annan mann selt tuttugu fiska í Keflavík, en fyrir sjálfan sig tíu ýsur og þrjár löngur, sem úr kastað var í Hafnarfirði, sem var kaupstaðr hans. Um sömu mundir var Tómas Konráðsson dæmdr til búslóðarmissis og Brimarhólms fyrir það, að hann seldi kaupmanni við búðir fisk, sem aflazt hafði í Stapakaupsveit. Var þá og landsmönnum sýnt margs konar harðræði af yfirmönnum; þannig var Ásbjörn nokkur Jóakimsson hýddr, svo að hann leið í ómegin, fyrir það, að hann vildi ekki flytja sendimann landfógeta yfir fjörð, en þeir amtmaðr Müller og Heidemann fógeti létu hýða Albert nokkurn Ásgeirsson sökum þess, að hann vildi ekki róa á konungsskipi; og ýmislegt mætti annað telja, er sýnir hörku valdsmanna undir lok seytjándu aldarinnar.

Maðr er nefndr Jón Vigfússon. Hann var ættaðr vel, og hafði framazt við háskólann í Kaupmannahöfn, og er hann kom heim til Íslands, varð hann sýslumaðr í Borgarfjarðarsýslu (1666), en því embætti hélt hann skamma stund, því að fimm árum seinna var hann kærðr fyrir verzlun við útlendinga, en á öllu slíku var þá tekið mjög hart og missti hann fyrir það sýslunnar. Sigldi hann þá til Kaupmannahafnar, til að fá rétting mála sinna; en er það tókst ekki, tók hann að hugsa á annað meira, og fékk vonarbréf fyrir byskupsdómi á Hólum — en það var þá orðið títt, að veita vonarbréf fyrir embættum, — og er mælt, að hann hafi mútað til þess kansellera

Griffenfeld, er þá réð nálega einn öllu í Danmörku. Hann keypti og meistaratitil, og fékk því til vegar komið, að Brynjólfi Sveinssyni byskupi í Skálholti var boðið að vígja hann, og lifði hann nú í friði, þangað til Gísli Þorláksson byskup á Hólum andaðist (1684). Fór hann þegar norðr að Hólum, en brátt tóku helztu klerkar að ýfast við hann, og fundu honum margt til saka og einkum það, að hann hefði eigi lesið guðfræði, og hefði með verzlun sinni óleyfilegan fjárdrátt; stóð deila milli hans og þeirra í tvö ár, en þá sættust þeir allir við hann nema einn. En þó að þessu væri heppilega lokið, vóru ekki fyrir það öll málaferli hans á enda kljáð. Verzlunarfélag það, sem leigt hafði verzlun Íslands, kærði það, að hann hefði bæði sjálfr verzlað við útlendinga, og látið aðra gjöra það fyrir sig, en bændr, einkum landsetar á jörðum Hólastóls, kvörtuðu undan því, að hann legði þeim margs konar ólöglegar byrðar á herðar. Setti þá konungr menn, til að rannsaka og dæma málið, og Heiðemann fógeta fyrir saksóknara; en er Jón byskup ætlaði til alþingis, til að halda þar svörum uppi fyrir sig, leysti dauðinn hann snögglega (1690) frá öllum vandræðum. En svo var mikið kapp mótstöðumanna hans, að málið var dæmt, þótt enginn væri til varna, og vóru dæmdir ellefu hundruð dalir í sektir af fé hans, en fógetinn Heiðemann skyldi að auki fá 600 dala þokknun fyrir starfa sinn. En sonr byskups, Þórðr, er þá var erlendis, skaut málinu til hæsta réttar, og vanu það þar að fullu, og þótti hann vaxa mjög af því.

Þá er nauð Íslendinga við lok seytjándu aldarinnar var með ýmsu móti orðin næsta þung, báðu þeir konung þess, að þeir mætti senda á hans fund annan lög-

manninn, til þess að tjá honum vanhagi landsins, og leyfði konungr það. Til þeirrar ferðar hafði amtmaðr Müller og aðrir fleiri ætlað Lauritz Gottrup, danskan að ætt, lögmann norðan og vestan á Íslandi (1695—1714), og kom hann með konu sína og börn suðr á alþingi í þeim vændum (1701) að sigla með fyrsta skipi. En er til alþingis kom, vildu sumir ekkert vita af þessari utanferð hans, og kváðu, að það myndi ekki til annars en kostnaðar fyrir landið, og konungr myndi taka eins gildar skýrslur þær, sem honum væri sendar. Þó var búin til bænarskrá til Gottrups, að fara för þessa, og skrifuðu margir undir hana. En er að þessu var sýslað, kom Müller amtmaðr í lögréttu, og spurði hvað menn hefði þar fyrir stafni, og er hann fékk það að vita, spurði hann, hvert vald menn hefði til slíks. Þá mælti Gottrup lögmaðr: »Það vald höfum vér í konungsleyfi og skipun«. Tók þá amtmaðr bænarskrána til sín, og stakk henni í vasa sinn, en Gottrup fór utan engu að síðr, og bar fyrir konung margar landsnauðsynjar, og varð sá árangr af för hans, að nýr taxti var settr (1702) betri en hinn fyrri, og að tveim hinum helztu Íslendingum, Árna Magnússyni, prófessóri við háskólann, og Páli Vídalín, varalögmanni, var boðið (1702) að ferðast um landið og rannsaka allt ástand þess, búa til nýja jarðabók og leggja ráð á, hvernig hagr landsmanna yrði bættr. Ferðuðust þeir um landið á sumrum í 12 ár (1702—1714), og lögðu ráð á margt og bjuggu til jarðabók þá, sem kölluð er jarðabók Árna Magnússonar, en þeir kómust brátt í deilur við flesta höfðingja á landinu, og spillti það mjög framkvæmdum þeirra landinu til gagns. Árni safnaði um land allt fornum skjölum og sögum, og flutti

til Kaupmannahafnar, en mikið af því safni brann í eldsvoðanum mikla í Kaupmannahöfn 1728.

Gottrup hafði borið drengilega fram erindi landsmanna við konung, og var það eitt með öðru, að hann vildi fá erindreka fyrir Íslands hönd í Kaupmannahöfn, til að bera málefni landsins upp við konung, og leyfði konungr það, en þó varð ekkert af því. Tóku nú úr þessu að hefjast hinir miklu flokkadrættir meðal höfðingja, sem einkenna fyrra hluta átjándu aldarinnar, en þeir Gottrup og Müller amtmaðr urðu hatrsmenn hinir mestu, en landsmenn snerust margir, þó að undarlegt megi virðast, móti Gottrup, og andaðist hann (1721) saddr lífdaga.

*3. Stóra bóla. Oddr Sigurðarson. Harboe sendr út. Skúli landfógeti. Verksmiðjurnar. Eggert og Bjarni ferðast. Eldgos og fjárkláði. Landlæknir settr. Nefnd sett og ýmsar endrbætr gjörðar. Verzlun gefin frjáls við alla þegna Danakonungs. Eldgos og harðindi. Jón Eiríksson.*

Skömmu eptir aldamót þau hin síðustu, kom út bólusótt (1707), er kölluð hefir verið Stóra bóla; kom hún út í fötum bólusjúks manns, sem andazt hafði erlendis, og deyddi fólkið unnvörpum, einkum ungt fólk; misstu sumir öll börn sín, og fórust þá átján þúsundir manna, og var það meira en þriðji partr af landsmönnum, og hafði ekki jafnskæð sótt komið, síðan Svarti dauði gékk yfir.

Árið sama sem Stóra bóla gékk, kom út Oddr Sigurðarson, sonarsonarsonr Odds byskups. Hann var harðgjör og áræðinn og hafði framazt vel erlendis og var nú orðinn varalögmaðr og umboðsmaðr Guldenlews stiptamtmanns. Þegar hann kom út, þóttist hann vera sak-

sóknari konungs, og bauð sig til að taka á móti öllum kærum um hvað eina, sem aflaga færi eða hefði farið hér á landi. Brátt komst Oddr í deilur við flesta hina meiri menn, enda var hann ærið óeirinn, einkum við öl; flaug hann til dæmis á meistara Jón Vídalín (b. í Skálholti 1698—1720) svo að hann varð að flýja undan honum um miðja nótt. Þessar deilur riðu Oddi að síðustu að fullu; var hann dæmdr (1725) á alþingi frá embætti, æru og búslóð, því að minna þótti þá eigi gagn gjöra. Árið eptir settist Oddr í lögmannssæti, og gegndi lögmannsstörfum þrátt fyrir öll mótmæli, og kvaðst hann bíða eptir hæstaréttardómi á málum sínum. Sá dómr kom og næsta ár (1727) og honum til lítillar gleði, því að hann staðfesti hinn fyrra dóminn. Þó fékk Oddr ærnua aptr af konungi og bjó síðan í kyrð að Leirá, þangað til haun andaðist (1741).

Þá er deilur Odds stóðu sem hæst, var sendr hingað Fúrmann nokkur, og átti hann að gegna embætti Müllers amtmanns, því að hann var þá kominn af landi brott og orðinn gamall, eu hafði aldrei verið landsmönnum vinsæll. Tók Fúrmaun algjörlega við embættinu (1720), þá er Müller andaðist. Var hann maðr gætinn og réttsýnn, og reyndi til að sefa þær hinar miklu deilur, er þá géngu milli embættismanna.

Nokkru fyrir miðja átjándu öld hafði rektorinn frá Skálholti, Jón Þorkelsson, sá er seinna gaf eigur sínar til að stofua barnaskóla í Gullbringusýslu, borið það til Danmerkr, að ýmislegt géngi hér óskipulega til um kristnihald o. fl., og sendi þá Kristján konuugr sétti, er mjög lét sér annt um trúrækni, hingað eptir dauða Steins byskups á Hólum (1714—1739) danskan prest, Lúðvík Harboe. Átti hann að setjast að á Hólum, vísi-

tera kirkjur og kynna sér allt kristnihald í landinu, og sjá sömuleiðis um skólalærdóm. Með honum kom út Jón þorkelsson, sá er uefndr var, og skyldi hann vera ritari hans. Lítið var mönnum í fyrstu um komu Harboes; en þó að hann gegndi rækilega erindum, þeim er honum vóru á hendi falin, þá sýndi hann svo mikla mannúð og lempni, að öllum gazt að lokum vel að honum. Dvaldist hann hér á landi fjögur ár (1741—1745), og stakk upp á ýmsum þarflegum breytingum áhrærandi skóla og kirkju. Meðan Harboe dvaldist hér á landi, dó Jón Árnason byskup í Skálholti (1722—1743), er að mörgu leyti hafði verið einn hinn þarfasti byskup. þá er Harboe fór af landi brott, vóru báðir byskupsstólarnir lausir, og urðu þeir þá byskupar Halldór Brynjólfsson á Hólum og Ólafr Gíslason í Skálholti, og var það að undirlagi Harboes. Harboe varð síðan byskup fyrst í þrándheimi og síðan á Sjálandi og jafnan mjög sinnandi íslenzkum klerklýð, og þótti hann ávallt hinn vitrasti og ágætasti maðr.

Rétt fyrir miðja átjándu öld (1749) varð Skúli Magnússon fyrstr íslenzkra manna landfógeti, og þótti það nýlunda. Hann var prestsson að norðan, hafði framazt við háskólann, og varð fyrir margra hluta sakir einn hinn merkasti maðr aldarinnar hér á landi. Skúla var mjög gramt í geði við einokunarverzlunina, og höfðu ýms félög leigt verzlunina frá 1706—1742. Frá 1. janúar 1743 fengu hörmangarar í Kaupmanuahöfn verzlunina, og vóru þeir einhverjir hinir harðdrægustu landsmönnum. Skúli vildi fyrir hvern mun hnekkja verzluu þeirra, og sökum þess tók hann fyrir sig, að koma upp iðnaði í landinu sjálfu, svo að ullin yrði unnin á arðsamara hátt, stofna fiskiveiðar á þilskipum, og

kenna landsmönnum að salta fisk sinn, o. s. frv., og hugði hann, að þetta myndi með tímanum verða vegr til að vinna svig á einokuninni. Til að koma þessu í verk, fékk hann leyfi hjá Friðriki konungi fimta (1746—1766), og fjárstyrk svo mikinn, að hann nam meiru en sextíu þúsundum ríkisdala, og vóru nú (1752) settir verkstaðir í Reykjavík, bæði til að vinna klæði, súta skinn og snúa færi; þá vóru og keyptar tvær fiskiskútur; áttu landsmenn þetta allt sjálfir, og var það stofnað með hlutabréfum, en þó að ábati nokkur yrði á sumu, þá var aptr skaði mikill af fiskiskipunum.

Hörmangarar misstu verzlunina 1758, enda höfðu þeir látið nauðsynjavörur vanta undanfarin harðindaár, en fólkið dó úr hungri. Tók þá konungr verzlunina að sér, og lét reka hana á sinn kostnað í fjögur ár, og styrkti jafnframt iðnaðarstofnanirnar, sem kallaðar vóru »innréttingar«, því að það var einlægr vilji konungs að koma landinu upp. En þessi konungsverzlun þreifst ekki, og var þá verzlunin á ný (1763) seld félagi nokkru á leigu, sem nefndist hið almenna verzlunarfélag, og skyldi það einnig taka að sér iðnaðarstofnanirnar, og varð þá Skúli einn af stjórnöndum verzlunarinnar, jafnframt því að hann stóð fyrir verkstöðunum, en upp frá þeim tíma fór iðnaðarstofnununum að hnigna, því að vezlunarfélagið hugsaði að eins mest um sinn hag, en ekkert um þær, og lét flest það vanta, er þær þurftu með, og að lokum komst Skúli bæði fyrir sína og sameignarmanna sinna hönd í mál við félag þetta út úr þeim, og tapaði hann því máli, og urðu þeir, hann og félagar hans, fyrir fjárgjöldum stórum. Þó gat Skúli nokkru seinna hefnt sín á félagi þessu með því að hann kom því til leiðar, að það var dæmt til að gjalda 4400 rd. sekt fyrir skemmt mjöl, er

það hafði flutt til landsins. Eru miklar frásagnir um viðreign Skúla við einokunarkaupmenn hér á landi, og átti hann opt í vanda að standa, en aldrei brast hann hugrekki, en það féll honum þyngst, að iðnaðarstofnanirnar, sem hann hugði í fyrstu að verða myndi landinu til hinna mestu hagsmuna, drógust smámsaman upp og urðu að engu.

Friðriki konungi fimmta lá velferð Íslands mjög á hjarta, eins og skýrt hefir verið frá, og vildi gjöra allt, er hann mátti, til að hjálpa því. Fyrir því sendi hann út hingað (1752) tvo merka Íslendinga, þá Eggert Ólafsson og Bjarna Pálsson. Áttu þeir að ferðast um landið og kynna sér bjargræðisvegi og búnaðarháttu landsmanna, og leggja ráð á, hvernig hagnýta mætti gagnsemi og hlunnindi landsins betr en gjört væri. Ferðuðust þeir um landið í fimm ár (1752—1757), og skráðu bók um ferðalag sitt, sem í flestum greinum þykir hin fróðlegasta og merkasta, enda vóru þeir báðir lærðir vel og náttúrufróðir.

Um þær mundir, er þeir ferðuðust hér, gengu harðindi mikil yfir landið, og er svo talið, að á 7 árum (1752—1759) hafi meira en 9 þúsundir manna látizt af hallærum og drepsóttum, enda kom á þessum árum 1755 eldgos mikið úr Mýrdalsjökli, þar sem Katla nefnist; hljóp jökullinn fram, en sandfall varð hið mesta og myrkr um hádag. Stóðu undr þessi yfir lengi, en mest vóru þau fjórtán fyrstu dagana. Eyddust þá fimmtíu býli, en peningr féll mikill víða. Ellefu árum síðar kom eitt hið mesta eldgos úr Heklu, og segja menn, að það hafi verið hið átjánda. Varð þá myrkt um miðjan dag, sem niðdimm nótt væri, og sandfall hið ógurlegasta; lögðust við það jarðir margar í eyði, en peningr féll

hrönnum, og urðu þessi ótíðindi mjög til að hnekkja allri velmegun manna. Þá bættist það og ofan á, að fjárkláði kom hèr í land (1761) af spænskum hrútum, sem fluttir vóru hingað til landsins í þeim tilgangi að bæta fjárkynið. Höfðu þeir sýkzt á leiðinni og sýktu því féð, er þeir komu á land. Varð fjárkláði þessi hin voðalegasta landplága, sem stóð yfir í átján ár, og komst yfir mikinn part af landinu. Að eins vestfirðir, Þingeyjar, Múla og Skaptárfellssýslur frelsuðust frá ófögnuði þessum, en hinir hlutar landsins, þar sem sýkin geisaði, fengu eigi útrýmt henni, fyrr en allt hið sjúka og grunaða fé var skorið niðr að konungs boði á 7 árum (1772—1779), og geta þeir, sem þekkja hinn síðara kláðann, gizkað á, hversu þungbært þetta tjón hefir verið landsbúum.

Eitt af því, er Friðrik fimmti gjörði landinu til heilla og framfara, var það, að hann stofnaði hér (1760) landlæknisembætti, og varð Bjarni Pálsson, sá er ferðazt hafði með Eggert, hinn fyrsti læknir landsins. Fékk hann Nes við Seltjörn til ábúðar og 300 rd. laun, og var þar þá einnig sett lyfjabúð. Sex árum síðar vóru stofnuð tvö héraðslæknaembætti, annað fyrir sunnan, en hitt fyrir norðan, og svo seinna á átjándu öldinni tvö önnur. Um sama leyti og landlæknisembættið var sett, kom hingað fyrst lærð yfirsetukona, og tóku þær úr því að smáfjölga, enda veitti konungr þeim 100 rd. að launum (1766), og vóru þetta hinar þörfustu stofnanir. Var Bjarni Pálsson hinn nýtasti maðr, og reyndi til að breiða út meðal landsmanna þekking á lækningum, og andaðist hann eptir að hann hafði verið nítján ár í embætti (1779).

Litlu eptir þenna tíma varð sú breyting á lands-

stjórninni, að landinu var (1770) skipt í tvö ömt, suðr- og vestr- og norðr- og austramtið, og að settr var hér stiptamtmaðr, og houum gjört að skyldu, að hafa aðsetr í landinu. Hét sá Lauritz Thódal, er fyrstr varð stiptamtmaðr; var hann stjórnsamr og vildi Íslendingum vel; en þangað til höfðu hinir æðstu yfirmenn landsins, stiptbefalingsmennirnir, nær því aldrei komið til landsins, en haft hér umboðsmenn sína. Átti nú stiptamtmaðrinn jafnframt að vera amtmaðr yfir suðr og vestramtinu. Seytján árum síðar var sett vestramtið, og vóru síðan amtmenn þrír, og einn af þeim stiptamtmaðrinn, sem og var amtmaðr í suðramtinu, og hefir það fyrirkomulag haldizt til skamms tíma.

1766 andaðist Friðrik konungr fimmti; hafði hann verið Íslendingum hinn bezti konungr, og í hvívetna viljað landinu vel. Tók nú ríki Kristján konungr hinn sjöundi (1766—1808) ungr að aldri, og fetaði hann og stjórn hans að mörgu leyti í fótspor Friðriks það er Ísland snerti. Fjórum árum eptir að Kristján kom til ríkis, setti hann nefnd manna, til að rannsaka allt ástand Íslendinga og leggja ráð á, hvernig hagr þeirra yrði bættr. Vóru tveir af nefudarmönnum danskir, en hinn þriðji Íslendingrinn Þorkell Jónsson Fjeldsteð, er þá var lögmaðr á Færeyjum. Ferðuðust þeir um landið eitt ár, og kynntu sér ástand þess, og lögðu síðan til margar þær endrbætr, er seinna kómu fram, og má með sanni segja, að nefnd þessi vildi vera landinu hiu þarfasta, og var nú smámsaman farið að koma í verk ýmsu af því, sem hún hafði stuugið upp á. Var það hið fyrsta, að sauðféð hið kláðasjúka var skorið niðr, eins og sagt hefir verið; þá vóru og fluttar inn kvarnir, svo að laudsmenn mætti sjálfir mala korn, og heitið verðlaunum fyrir að nota

þær og búa þær til. Þá vóru menn og hvattir til, að búa til og hagnýta kál- og jarðeplagarða, og verðlaunum heitið þeim, er sköruðu fram úr í því. Þá kómu og út lög (1776) um hlunnindi fyrir þá, er byggðu nýbýli og eyðijarðir, sem orðnar vóru mjög margar, um túngarðahleðslu og þúfnasléttun, um vegabætr og póstgöngur. Þá vóru og sendir hingað tveir menn, til að koma á saltbrennslu, og þótt minna yrði úr framkvæmd á mörgu þessu, en til var ætlað, þá sýnir þetta og ýmislegt annað, er þá var boðið, Íslandi viðvíkjandi, hinn mikla áhuga stjórnarinnar á því, að bæta atvinnuvegi landsins og hlynna að framförum þess, en þó hnignaði velmegun landsins sí og æ, og stafaði það af hinum miklu harðindum og landplágum átjándu aldarinnar, og þó eigi hvað minnst af verzlunareinokuninni, því að bæði var varan hin útlenda afar dýr, á stundum skemmd og flutt of lítil í harðindum. Varð nú hið almenna verzlunarfélag að gefa hér upp verzlun sína (1774), og lét þá konungr reka hér verzlunina, þar til er hún eptir 12 ár (1786) var gefin laus frá 1. jan. 1788 við alla þegna Danakonungs, og hafði þá einokunin staðið 184 ár og án efa gjört landsmönnum meira skaða en nokkur plága af náttúrunnar völdum, enda hafði hagr landsins einlægt farið hnignandi um þenna tíma.

Samfara öðrum framfaratilraunum á landinu var það og, að félög vóru stofnuð til að efla vísindi og þekking landsmanna. Hið fyrsta félag í þá átt var sett á stofn nokkru eptir miðja átjándu öld (1760) og nefndist hið ósýnilega, og er það ætlun manna, að hinn lærði skólameistari á Hólum, Hálfdán Einarsson, hafi verið höfundr þess. Félag þetta gaf út konungs skuggsjá, en stóð skamma stund og gjörði yfir höfuð lítið. Þá var næst

stofnsett af íslenzkum námsmönnum í Kaupmannahöfn hið svo nefnda íslenzka Lærdómslistafélag (1779). Var Íslendingrinn Jón Eiríksson, er til mikilla metorða hafði komizt erlendis, forseti þess til dauðadags, og hinn öflugasti styrktarmaðr. Félag þetta gaf út ársrit í 15 bindum, og var þar margt skráð vel og fróðlega um hagi landsins, einkum að því er snerti búnaðarháttu og atvinnubrögð landsmanna.

Nú er að segja frá hinum síðustu og einhverjum hinum mestu harðindum á þessu tímabili, og eru það harðindi þau, er kómu af eldgosinu úr Skaptárjökli. Eldgos þetta varð í júní 1783 og var eitt hið stórkostlegasta; rann eldflóðið úr jöklinum og fyllti vötn og byggðir logandi hraunleðju; átta jarðir tók af að mestu, en tuttugu og níu skemmdust og lögðust fimmtán þeirra í auðn, en sjötíu búendr í grend við eldinn flúðu brott. Vóru þrumur og brestir ógurlegir, en sandi og brennisteini rigndi, svo að grasið varð banvænt af brennisteinsólyfjan. Hinn næsti vetr var ákaflega harðr, enda var hey svo óhollt, að peningr fékk liðaveiki og annað óáran. Féllu þá tuttugu og átta þúsundir hrossa, meir en ellefu þúsundir nautpenings og nærfellt tvö hundruð þúsundir sauðfjár. Þar á eptir kom hinn mesti mannfellir, svo að á árunum 1784 og 85 féllu meir en níu þúsundir manna, og var þá ástand landsins eitt hið aumasta, sem nokkru sinni hafði verið, en fólkið fækkaði svo, að eigi urðu eptir fullar fjörutíu þúsundir. Var þá safnað stórmiklum gjöfum í löndum Danakonungs, en nefnd manna sett í Kaupmannahöfn, til að leggja ráð á, hvað gjöra skyldi, og kom þá jafnvel til tals, að flytja Íslendinga alla af landi brott, og setja þá niðr á heiðarnar í Jótlandi. Lagði nefnd þessi það til að flytja skyldi byskupstól og skóla

frá Skálholti til Reykjavíkr og selja stólsjarðirnar, og og fór það fram (1785), og var þá Magnús Stephensen, sonr Ólafs Stephensens, er seinna varð stiptamtmaðr, sendr inn, til að sjá um sölu stólsjarðanna og hafði hann þá þrjá um tvítugt. Þá varð og verzlunin frjáls, en einokunin hafin, eins og sagt hefir verið hèr að framan.

Jón Eiríksson, sá er nefndr hefir verið, var kominn af bændafólki og ættaðr úr Skaptárfellssýslu (f. 1728). Þrettán ára að aldri kom hann í Skálholtsskóla, og varð honum það til hamingju, að Harboe tók eptir gáfum hans, tók hann að sér og gékk honum jafnan síðan í föður stað. Setti Harboe drenginn, þá er hann kom til Noregs, í skóla í Þrándheimi, og lauk hann þar námi sínu og sömuleiðis seinna við háskólann með lofi, og þótti þá þegar afbragð annarra manna. Þá er hann hafði einn um þrítugt (1759), varð hann prófessor í lögfræði við háskólann í Sórey, og fimm árum síðar kvaddi konungr hann til að vera kennari erfðaprinsins, en hann baðst undan þeim sóma eptir ráðum vina sinna. Þá er hann hafði verið tólf ár í Sórey, skipaði konungr hann í ráðaneyti sitt, og var hann þar sökum gáfna sinna, mannkosta og embættisdugnaðar jafnan mikilsvirðr, enda hóf konungr hann síðan til margvíslegra metorða, því að auk þess sem hann með aldri og reynslu fékk æðra sess í ráðinu, en hann í öndverðu hafði, varð hann og dómari í hæsta rétti og skipaðr í margar nefndir um mikilsvarðandi málefni, t. d. í nefnd, er sett var (1785) til að leggja ráð á um endrreisn Íslands og sömuleiðis var hann í nefnd þeirri er skipuð var (1786) til að íhuga, hvernig bændaánauðinni í Danmörku yrði létt af—en í henni sátu hinir ágætustu og mest virðu höfðingjar — en hann lézt næsta ár (29. marz 1787 skyndilega, og varð hann mjög harmdauði

öllum þeim, er þekktu hann. Jón unni mjög ættlandi sínu, og vildi gagn þess og sóma í öllum hlutum, enda átti hann, eptir að hann komst í ráðaneytið, meginþátt í mörgum þeim tilraunum til endrbóta, sem gjörðar vóru hér á landi; en er hann tók að eldast og mæðast, og heilsa hans að bila, réðu einatt yngri og óreyndari menn meiru um málefni Íslands, og með því að honum þótti þá margt af rasanda ráði gjört, féll honum það svo þungt, að mælt er að áhyggja um Íslands hag hafi átt nokkurn þátt í dauða hans. Þeir Skúli Magnússon og hann vóru aldavinir, því að báðir höfðu hið sama mark og mið, heill og hamingju ættjarðar sinnar; og er Skúli spurði lát Jóns, brá honum mjög og mælti af stundu: »Þar gátu þeir farið með hann, það verðr nú héðan af útgjört um Ísland«. Er mælt, að hann hafi aldrei síðan samr maðr orðið, enda vóru þá eigi eptir nema sjö ár af hinu framkvæmdar og þrekmikla en ónæðissama lífi hans. Andaðist hann í Viðey (1794) á níræðisaldri. Hafði hann jafnan staðið í stórræðum og deilum einkum við kaupmenn, en þó að hann bæri eigi ætíð hærra hlut, þvarr hvorki þrek hans né ættjarðarást.

Það sem sér í lagi er eptirtektarvert við þetta tímabil, er hin mikla hnignun landsins í bjargræðisvegum þess og þar af leiðandi mannfækkun. Raunar voru margir höfðingjar allríkir enn, en alþýða manna var flest snauð. Stafaði hnignun þessi fyrst og fremst af verzlunarófrelsinu, og svo af hinum miklu harðindum og mörgu plágum sem á þessum öldum géngu yfir landið. Á seytjándu öldinni lét stjórnin sig litlu skipta þessa aptrför, og herti þá einlægt á ófrelsisböndunum, en valdsmenn vóru mjög einráðir og harðir við almúga, og fóru einatt í dómum sínum og úrskurðum eins mikið eptir áliti og geð-

þekkni sjálfra sín, eins og eptir lögum, enda vóru hegningar allar mjög harðar; vald konungs og umboðsmanna hans varð eptir siðbótina æ ríkara og harðara, enda beittu sumir hinir útlendu menn því næsta ómjúkt, svo sem Müller amtmaðr, en vald og virðing íslenzkra höfðingja einkum klerka fór síhnignandi. Alþýða var flest mjög þekkingarlítil, lítilsigld og hjátrúarfull, enda var hjátrú einnig meðal lærðra manna almenn, og mikil trú á drauga, álfa og galdramenn hafði gagntekið allra hjörtu með hinum mesta ákafa, en áhugi og viðleitni sárlítil, að efla líkamlegar framfarir. Undir lok aldarinnar var ófrelsi í öllum viðskiptum manna, og harðræði kaupmanna og embættismanna orðið svo mikið, að lítt þótti þolanda. Tóku menn þá að bera upp kveinstafi sína og kvartanir fyrir konungi, og er átjánda öldin einkennileg að því, að bæði konungr og yfirvöld litu þá á nauðir landsmanna, og vildu bæta hag þeirra, og var þá af mörgum, er hlut áttu að máli, leitað við að efla framfarir landsmanna, og hefir margt af því verið áðr talið, en hér má bæta því við, að á þessari öld batnaði handvinna við það, að rokkar kómu í stað snældunnar og útlendir vefstólar í stað hinna íslenzku; en þótt þessi viðleitni væri, urðu þó framkvæmdir minni en til stóð, og kom það bæði af því, að landsmenn vóru áhugalitlir og sundrlyndir, en stjórnin hvikul og ókunnug um of landsháttum, þótt hún vildi vel. En mikil framför var það, að einokuninni létti af. Þá varð og á seinna hluta átjándu aldarinnar öll innanlandsstjórn miklu betri en áðr hafði verið og lögum miklu betr fylgt, enda linaðar að miklum mun allar refsingar, einkum í meinamálum, og harðræði minna beitt við alþýðu. Embættismenn ofsóttu mjög hver annan seinna hluta seytjándu aldar, og

hinn fyrra hluta átjándu aldarinnar, enda vóru þá hinir æðstu valdsmenn ávallt erlendis, en misjafnir umboðsmenn þeirra æstu opt ófriðareldinn með hlutdrægni og miðr vandaðri embættisfærslu, og ýmsir þeirra þröngdu mjög kostum landsmanna með fylgi sínu við einokunarkaupmenn; en eptir að Fúrmann kom hingað, og einkum eptir að Thódal varð hér stiptamtmaðr og tók sér bólfestu í landinu, batnaði stjórnin stórum, en friðr varð meiri með valdsmönnum.

Mjög var nú alþingi hnignað að veg og valdi; eptir að siðbótin komst á, kvað jafnan lítið að löggjafarvaldi þess; sendi þá konungr eptir það hingað mörg þau boð sín, er landsmönnum vóru þvert um geð, lét lesa þau í lögréttu og giltu þau síðan sem lög, en Íslendingar þögðu nú við þessu. Þó hafði þingið vald þetta að nafni allt fram að 1700, og kemr það fram í úrskurðum þess t. d. um sveitarstjórn og gjöld almennings, en eptir þann tíma hverfr það að fullu, og er það ein af afleiðingum einveldisins.

Raunar hélt alþingi dómsvaldi sínu alla tíð, en móti því, er áðr var, mátti það nú heita skuggi einn einkum eptir 1660. Menn vildu nú lítt hlíta dómum lögmanna, enda gátu þeir nú sjaldan orðið á eitt sáttir. Var réttarástand allt einkum síðara hluta seytjándu aldar og hinn fyrra hluta átjándu aldarinnar hið bágbornasta. Stóðu þá málin einatt yfir 20 til 30 ár, áðr þau yrði á enda kljáð, en stórglæpamenn géngu á meðan óheptir; dómendr gjörðu og opt málspörtum hina mestu tregðu, svo sem með því að neita þeim um eptirrit af dómum, og varð konungr á stundum að bjóða þeim, er hlut áttu að málum, að láta slíkt af hendi. Af þessu mun það hafa komið, að konungr bauð skömmu eptir

1700, að réttarfar allt skyldi fara hér fram eptir Norskulögum, og þótt landsmönnum væri það óljúft og mæltu á móti því, varð þó vilji konungs í þessu sem öðru fram að ganga. Margir, sem mál áttu, vildu eigi hlíta hinum réttu dómöndum sínum, og fengu því konung til að skipa sérstaka dómendr, en flestir þeir, er nokkuð áttu undir sér, létu sér sjaldnast líka dómsúrskurð lögmanna, en héldu málum sínum fyrir yfirréttinn, er nefndr hefir verið hér að framan, og svo þaðan fyrir hæsta rétt, og urðu menn fyrst framan af að fá leyfi konungs til að skjóta málum þangað. Þá vildi og konungr nema af að fullu hin fornu lögin, og reyna til að láta semja önnur ný handa Íslendingum eptir Norskulögum, en þó að byskupar og lögmenn, prófastar og sýslumenn störfuðu sífellt að því, varð það þó ekki framgengt. Loksins tók stjórnin það ráð, að fela einum manni fyrir ákveðin laun á hendi að semja lögin, og var tekinn til þess (1760) Jón Ólafsson varalögmaðr í Víðidalstungu, en ekki tókst honum heldr að framkvæma þetta.

Þingið tók nú og að gjörast heldr fámennt; tala lögréttumanna fór nú smáminnkandi. Var þeim í fyrstu fækkað svo, að þeir skyldu að eins vera 20, og þeir allir teknir úr Árness-, Gullbringu- og Kjósarsýslu, en helmingr af þeim skyldi mæta árlega á þingi, og átta einir í dómum sitja. Nokkru síðar (1777) urðu þeir 5, og dómendr í yfirréttinum 6 (áðr höfðu þeir lengst af verið 24). Lögréttuhúsinu hnignaði ár frá ári, en þó varð enginn til að hlynna að því, og sýnir þetta ljóst dauðamörk þingsins, enda tóku nú landsmenn að virða það lítils. Þeir sem málum áttu að gegna á þinginu, hirtu einatt ekki um að koma þangað, en Norðlendingar vildu alveg losast við, að þurfa að sækja þangað, og fyrir því sótti Ste-

fán Þórarinsson amtmaðr nyrðra um það til stjórnarinnar (1785) að amtsbúar sínir mætti hafa þing sér fyrir norðan land, en stiptamtmaðr Levetzow lagði það til um sömu mundir, að þingið væri flutt til Reykjavíkr, en af hvorugu varð að því sinni, en þó var nú æfi þess á förum á Þingvelli.

Þótt skólanám og öll meðferð á skólasveinum væri fremr bágborin, einkum þangað til Harboe kom hingað, þá vóru þó allmargir menn lærðir vel á þessu tímabili. Var það einkum latína og guðfræði, fornfræði og saga Íslands, er menn stunduðu, og var margt skráð gagnlegt og fróðlegt einkum á átjándu öldinni, en fæstir af mönnum þessum verða hér taldir. Á seytjándu öldinni skal telja þá Guðbrand og Þorlák († 1656) byskupa á Hólum. Um hinn fyrr nefnda hefir áðr verið talað, en Þorlákr var lærðr vel, einkum í fornfræðum, íslenzku og latínu. Þá voru þeir og lærdómsmenn miklir, Oddr Einarsson, Brynjólfr Sveinsson og Þórðr Þorláksson (b. 1672—1697) byskupar í Skálholti. Vóru þeir Oddr og Þórðr stjörnufróðir og vel að sér í íslenzkum fræðum. En frægastir fyrir lærdóm urðu þeir þó, Arngrímr Jónsson lærði, sem áðr hefir talinn verið, og Þormóðr Torfason; hann var mestan hluta æfi sinnar erlendis, og varð sagnaritari Friðriks konungs þriðja, og þá af honum margan sóma; hefir hann auk annars ritað sögu Noregs († 1719); þá var og bóndinn Björn Jónsson á Skarðsá († 1655), maðr margfróðr. Var hann vinr Þorláks byskups, og hefir hann, eins og kunnugt er, ritað annál og sögu um Tyrkjaránið, sem varð um hans daga, og ýmislegt annað. — Hið frægasta skáld aldarinnar, einkum í andlegum kveðskap, var Hallgrímr Pétrsson, og eru verk hans

svo kunn æðrum sem lægrum meðal Íslendinga, að eigi þarf hér að minnast á þau. Þá var og Guðmundr Bergþórsson uppi († 1705). Var hann höfuð-rímnaskáld tímabilsins, enda var nú, einkum á átjándu öldinni, blómatíð rímnakveðskaparins.

Átjánda öldin var einkar auðug að gáfu- og fræðimönnum; þá var uppi ræðuskörungurinn Jón Vídalín († 1720), og hefir aldrei fyrr né síðar hér á landi verið jafnmikill snillingr í þeirri grein, sem hann var. Þá lifðu og þeir merku menn, sem áðr er getið, fornfræðingrinn og sagnamaðrinn Árni Magnússon († 1730) og lögfræðingrinn og skáldið Páll Vídalín († 1727). En einn hinn merkasti vísindamaðr aldarinnar er þó Finnr Jónsson byskup í Skálholti (1754—1789). Hefir hann með kirkjusögu Íslands, er hann ritaði á latínu, getið sér ævaranda lof meðal lærða manna. Þá er að telja Eggert Ólafsson, hinn ágætasta og lærðasta mann, einkum í náttúruvísindum og tungumálum. Hann er og þjóðskáld sinnar aldar; eru kvæði hans heimspekileg og mjög lærdómsrík, lýsa þau heitri ættjarðarást, en sárri gremju yfir eymd, amlóðahætti og siðaspillingu þjóðarinnar, en jafnframt von um betri tíma. Hann er og einn hinna fyrstu, er fyrir alvöru hugsaði til að hreinsa móðurmál sitt, og færa það til hinnar fornu fegrðar, en þó var það mjög orðið bjagað og blandað dönsku, einkum ritmál lögfræðinganna, því að svo hafði þjóðin mist virðing fyrir sjálfri sér og vanizt hinni útlendu yfirdrottnun, að sumir hinir helztu menn hennar álitu sjálfsagt, að »dependera af hinum dönsku« svo í málinu sem í öðru. Eggert var nýkvongaðr og nýorðinn varalögmaðr, er hann drukknaði á Breiðafirði († 1768) 41 árs að aldri, og þótti öllum að honum hinn mesti skaði. Þá er að geta hinna merku

fræðimanna, Skálholtsbyskupanna Jóns Árnasonar og Hannesar Finnssonar (b. 1777—1796). Hefir Hannes auk margs annars ritað einhverja hina beztu og liprustu alþýðubók, »Kveldvökurnar«. Enn er að geta þriggja manna, er allir vóru fróðir í sögu Íslands og fornum fræðum, og vóru það þeir Eyólfr Jónsson prestr á Völlum í Svarfaðardal († 1745), Gunnar Pálsson skólameistari á Hólum og seinna prestr að Hjarðarholti í Dölum († 1791) og Hálfdán Einarsson skólameistari og stiptprófastr á Hólum († 1785). Hann var hinn mesti iðnis- og lærdómsmaðr, og hefir skráð margt, en hið merkasta rit hans er um »íslenzka rithöfunda«; fékk hann fyrir rit það þrjá verðlaunapeninga, tvo frá konungi Kristjáni sjöunda, og einn frá bróður hans, og hefir jafnan þótt mikið til hans koma sem fræðimanns. Þá var og Jón Eiríksson framúrskarandi að lærdómi sem í öðru, og frægr rithöfundr, og mætti hér mörgum fleiri við bæta, ef rúmið leyfði.

Þetta tímabil er, ef til vill, einkum seinni hluti þess, að sumu leyti eitt hið merkasta og einkennilegasta í sögu landsins. Á öllum hinum fyrri hluta þess, spennir konungsvaldið, sem eptir siðbótina tók við af klerkavaldinu æ fastara heljargreipum sínum allt líf frelsis, sjálfstjórnar og framkvæmda hjá landsmönnum, og þjóðin lagðist í það dauðamók, sem út leit fyrir, að hún myndi aldrei vakna úr. En á átjándu öldinni kemr ný undiralda, svo að allt kemst á hreyfing, og nýtt líf og nýr tími fyrir þjóðina brýzt alstaðar fram. Þá kemr fram hver maðrinn öðrum ágætari og áhugameiri um hag ættjarðar sinnar, svo að það má furðu gegna, hversu þeir vóru margir hjá jafnfámennri þjóð. Stjórnin sjálf,

sem aldrei hafði af ásettu ráði þröngt kostum landsins, heldr fylgt í því efni anda tímans, verðr hrifin af löngun til að breyta hag þess til batnaðar, og konungarnir ganga sjálfir á undan með hinum bezta vilja og mjög miklum fjárframlögum. Á öllu sést, að hið gamla er á förum, og hið nýja í nánd. Hjátrú á galdra, drauga og álfa hverfr, en leyndardómar náttúrunnar koma aptr smámsaman í ljós. Lög og hegningar mýkjast, uppeldi barna verðr viðfeldnara, og jafnvel hinn gamli klæðaburðr tekr að breytast. Hið forna dómsvald og með því höfðingjastjórnin er að líða undir lok. Hinar gömlu stofnanir landsins eru lagðar niðr, því að tíðarandinn styðr þær eigi lengr, og annað nýtt er sett í staðinn. Þjóðin fer að kynnast meira háttum útlendinga, og verðr það í sumu til bóta, en við það flyzt þó munaðr inn í landið, áðr hér ókunnr, svo sem tóbak og kaffi. En margar þessar nýbreytingar fara óhönduglega og verða að litlu, því að alla reynslu vantar. Þjóðin er eins og óreyndr æskumaðr, sem lætr von og tilfinning bera sig. Í einu orði að segja, á þessu tímabili grúfði yfir þjóðinni hið dimmasta myrkr eymdar og áþjánar, en í gegnum þetta myrkr skein þó að lokum fagr bjarmi botri daga, sem huggaði þá menn, sem sáu eymd og niðrlæging landsins, svo að þeir börðust með fullkomnu þreki fyrir heill þess, þó að litlir sæist opt ávextir.

---

VI.

## Timabilið frá 1786 til 1874.

—

*Hin almenna bænarskrá Íslendinga um verzlunarfrelsi.— Alþingi lagt niðr. — Prentsmiðja, byskupssetr og skóli lagt niðr að Hólum. — Ólafi stiptamtmanni vikið frá embætti. — Styrjöld milli Dana og Englendinga, óeirðir Jörgensens. — Danir láta Norveg.— Bókmenntafélagið.— Magnús Stephensen.*

Þetta tímabil, sem einkum lýsir viðleitni og baráttu Íslendinga, til að ná fyrst fullkomlega frjálsri verzlun, og síðan sjálfsforræði, því hnossi, er allar menntaðar þjóðir telja nú á tímum hið eptirsóknarverðasta, köllum vér *frelsishreyfingatímabilið.*

Svo sem sagt hefir verið, var nú hinni skaðvænu einokun steypt hér á landi og öllum þegnum Danakonungs leyft að verzla við landsmenn, en þeir máttu þó að eins flytja vörur sínar hingað á innlendum skipum, og öllum utanríkismönnum var jafnt og áðr bannað að hafa mök við landsmenn; þótt nú verzlun batnaði að mun við þessa breyting, útlendr varnaðr lækkaði nokkuð í verði, en hinn innlendi hækkaði, og eins og færi að votta fyrir nýju lífi í atvinnuvegum landsmanna, þá fundu menn þó skjótt, að þessi frelsisgjöf var um of af skornum skammti. Fyrir því tóku helztu menn lands-

ins sig til — og var Magnús Stephensen lögmaðr þar í broddi fylkingar, því að hann var um sína daga forkólfr allrar menningar og nytsamrar framkvæmdar á þessu landi — og rituðu á alþingi (1795) til konungs hina svo kölluðu »almennu bænarskrá Íslands«. Báðu þeir konung að rýmka svo verzlunarfrelsið, að utanríkiskaupmenn mætti sigla hingað með kaupeyri sinn, en kvörtuðu jafnframt yfir ýmsum vanhögum á hinni nýju verzlun. Undir bænarskrá þessa rituðu nálega allir málsmetandi embættismenn landsins nema Ólafr stiptamtmaðr. Stjórninni, sem á alveldisárunum var óvön slíkum frelsishreyfingum, þóttu þær næsta ískyggilegar. Lét konungr því boða þeim, er ritað höfðu undir bænarskrána, vanþokknun sína, en votta Ólafi náð sína og hylli fyrir afskiptaleysi hans um þetta mál. En kaupmenn bötnuðu í engu, heldr níddu landsmenn í ræðum og ritum fyrir tiltækið.

Frá því hefir áðr verið skýrt, að alþingi hrörnaði jafnan meir og meir, og var nú eptir af hinum fyrra veg þess lítið annað en nafnið eitt. Árið 1798 var í síðasta sinni riðið á alþingi við Öxará, og hafði það þá staðið þar 868 ár. Á þetta þing hafði hið bezta mannval landsins um langan aldr sótt. Hér höfðu gjörzt hinir merkustu atburðir á æfi þjóðarinnar. Hér höfðu forfeðrnir lengi með dáð og dug reynt að verja rétt og frelsi fóstrjarðar sinnar, en hér höfðu þeir einnig á stundum troðið lög og rétt fótum og líkari grimmráðum víkingum, en spökum löggjöfum og réttlátum dómöndum, sótzt vopnum. Hér hafði grimmleiki laganna, og heimska og hleypidómar æðri sem lægri manna heimt margan nálega saklausan til heljar. Hér höfðu landsmenn gengið útlendum konungi á hönd, og optsinnis síðan nauðgir orðið að játast

undir það boð og bann útlendinga, sem þeir sáu að landinu var til skaða. Við þetta þing eru því bundnar margar endrminningar þjóðarinnar, að vísu margar fagnaðarríkar, með því að þær minna á frægð og drengskap, en einnig eigi allfáar sorglegar. Nú kómu hingað í síðasta sinni að eins tólf menn, átta embættismenn og fjórir lögréttumenn, en sneru heim aptr hið skjótasta, og kváðu líf og heilsu í veði, að sitja lengr að dómum í hinu fallanda lögréttuhúsi. Næstu tvö árin var alþingi háð í Reykjavík, sem nú var orðinn höfuðstaðr landsins, og nokkuð tekin að eflast, en meðan þingið stóð þar yfir síðara árið, var það af numið með konungsboði (11. júlí 1800), og landsyfirréttr settr í staðinn, er hafa skyldi á hendi dómsvald þingsins. Magnús lögmaðr hafði verið erlendis vetrinn áðr, og sat þar í nefnd með amtmönnum báðum, og einum manni hinum fjórða. Skyldu þeir íhuga skólamál landsins og ýmsar fleiri landsnauðsynjar. Varð nú Magnús æðsti dómari í hinum nýja landsyfirrétti, en tveir aðrir skipaðir meðdómsmenn, og var annar þeirra skáldið Benidikt Gröndal († 1825). Þá er stundir liðu fram, tóku sumir að sakna alþingis, og kenndu Magnúsi, að það hefði verið lagt niðr, en honum var eigi um að kenna, heldr hinu, að þjóðin var hætt að virða og elska þingið, og því gat andi tímans eigi lengr notað það. Þá er Norvegr gékk undan Danmörku (1814), leitaði Friðrik konungr sétti sér ráðs, hvort ekki myndi réttast, að stofna alþingi að nýju, en úr því varð þó ekkert. Með alþingi hverfa lögmenn og lögréttumenn, eins og vita má, úr sögunni, og einnig svo lagað dómsvald, er þeir höfðu á hendi haft.

Um þessar mundir urðu og fleiri breytingar, og lúta þær mest að Norðrlandi. Þá var lögð niðr prentsmiðja

að Hólum (1799), og hún sameinuð prentsmiðju þeirri, er var í Leirárgörðum undir hendi Magnúsar Stephensens. Hafði hann fyrir nokkrum árum (1794) stofnað hið svonefnda Landsuppfræðingarfélag ásamt föður sínum og nokkrum öðrum helztu mönnum landsins; átti það að mynda nýtt vísindalíf meðal Íslendinga eptir þeirri stefnu tímans, er þá var erlendis, og því þótti þeim feðgum nauðsyn til bera, að Magnús mætti einn ráða, hverjar bækr væri prentaðar hér, og mun það mest fyrir þeirra tilhlutun, að prentsmiðjan var lögð niðr, enda var hún á fallanda fæti og hafði lengi verið með litlum þrifum. Þá var og skóli og byskupsstóll fluttr frá Hólum (1801). Hafði nefnd verið skipuð í Kaupmannahöfn, til að íhuga ástand og fyrirkomulag skólanna eins og fyrr er á vikið. Vildu sumir nefndarmenn, hafa tvo skóla, annan í Reykjavík, en hinn á Akreyri, og flytja þangað Hólaskóla, svo að Norðlendingar væri eigi öllu sviptir í senn; en stjórninni þótti einn skóli nægilegr handa landinu öllu, og skyldu nú lærisveinar beggja skólanna eiga vist í hinum eina lélega Reykjavíkrskóla; var þá einum kennara bætt við, og skyldu þeir nú þrír vera; en allt skólahald í Reykjavík fór þá í hinum mesta ólestri, og svo lítil þrif og hamingja fylgdi þessum nýja skóla þar, að það varð að flytja hann þaðan og suðr að Bessastöðum að fjórum árum liðnum, og þó að sá flutningr ætti að eins að vera um stundar sakir, þá stóð þó skólinn þar um 40 ár. Byskup skyldi nú einn vera yfir landi öllu, og varð það fyrstr Geir Vídalín, hinn ástsælasti maðr. Með jarðeignir Hólastóls var farið á sama hátt og fyrrum með eignir stólsins í Skálholti, að þær vóru seldar með hinum mesta flýti. Vildi konungr, að ábúendr keypti sjálfir ábýlisjarðir sínar, og

gjörðu það þeir, er máttu, en auðmönnum kom þó salan að beztum notum. Þóttust Norðlendingar sárt leiknir, er þeir vóru sviptir öllu því í einu, er efla mátti og útbreiða menntun meðal þeirra. Sjást nú að Hólum fáar menjar um hinn forna veg staðarins, nema dómkirkjan, en jafnan segja Skagfirðingar enn í dag: *heim að Hólum*, og minnir það á hina horfnu tíma, þá er staðrinn var aðalból allrar menntunar norðanlands og meginheimili alls héraðsins.

Um aldamótin (1800) setti konungr nefnd manna, til að verðleggja jarðeignir hér á landi. Stóð hún fjögur ár, og ferðuðust nefndarmenn um landið og héldu þing með bændum í hreppi hverjum og leituðu skýrslna. Í nefnd þessari sátu þeir Loðvík Erichsen, sonr Jóns Eiríkssonar, Stephán Stephensen, er seinna varð amtmaðr, Gunnlaugr Briem sýslumaðr og Árni sekreteri Sigurðsson. Loðvík þessi var ungr maðr, gáfaðr og framgjarn, en enginn vinr Ólafs stiptamtmanns. Hann kom því til leiðar, að Ólafi var vikið úr völdum (1803), og nefnd manna sett, til að rannsaka gjörðir hans, en hann fékk aptr sjálfr stiptamtmannsembættið. Var nú Ólafi fundið margt til saka, svo sem lint eptirlit með byggingu dómkirkjunnar og skólans í Reykjavík, og hjálpsemi hans við glæpamann nokkurn. En svo heppilega tókst til fyrir Ólafi, að Loðvík dó ári seinna, og tóku þá þeir, er rannsaka skyldu sakargiptirnar, að fara að sínum högum, enda fundust, sem var, sakir mjög litlar. Fékk nú Ólafr, eptir beiðni sinni, lausn frá embætti með fullum launum (1806). Lifði hann síðan það, er eptir var æfinnar, í fullum friði, virtr og elskaðr af löndum sínum. Hafði Ólafr verið einn hinn ágætasti höfðingi, og bæði konungi sínum og fóstrjörðu sinni trúr.

Um þessar mundir gjörðust þau tíðindi (1807), að Englendingar sendu að óvörum skipalið mikið til Kaupmannahafnar, og kröfðu þess, að Danir léti flota sinn af hendi við þá, svo að Napóleoni Frakkakeisara mætti eigi verða lið að honum, og kváðust þeir mundu skila flotanum aptr, þá er þeim þætti tími til. Þessu neituðu Danir, sem vonlegt var, en svo fóru leikar, að Englendingar höfðu á brott með sér flotann, og höfðu þó áðr brennt nokkurn hluta borgarinnar. Hófst nú sjö ára styrjöld milli Dana og Englendinga, en eigi höfðu menn spurnir af þessu hér út samsumars; og er skip lögðu héðan, vóru þau flest tekin í hafi af enskum víkingum, og flutt til Englands. Stiptamtmaðr Friðrik Trampe og Magnús Stephensen ætluðu báðir til Danmerkr þetta sumar, en þeir urðu handteknir, og var Magnús fluttr til Skotlands. Sá hann nú, hvílíkr voði vofði yfir ættjörðu sinni, ef vöruflutningar hindruðust algjörlega, og fyrir því fékk hann því fram komið með tilstyrk höfðingja nokkurs Josephs Banks, er ferðast hafði áðr hér um land, að kaupmönnum var leyft að flytja vörur milli Danmerkr og Íslands, en hvorugr þeirra Magnúsar og stiptamtmanns kom út næsta sumar.

Meðan þetta gjörðist, kom hingað enskt víkingaskip (1808), og hét foringinn Gilpín. Leitaði hann að konungsfé, en þeir Ísleifr yfirdómari, er var í stiptamtmanns stað, og landfógeti Frydensberg höfðu að varðveita 37 þúsundir dala í fjárhirzlu jarðabókarsjóðsins, mest í seðlum. Allt þetta fé tók Gilpín, en þóttu seðlar að litlu nýtir; kúgaði hann því kaupmenn, að skipta við sig seðlum í silfr, og hafði í heitingum við þá, er í móti mæltu. — Síðan hélt hann á brott, en eigi þótti honum hafa drengilega farið við varnarlaust land, er

hann kom heim til Englands, og var féð aptr síðar af hendi látið mest fyrir tilstuðlan kaupmannsins Bjarna Sívertsens.

Um vorið eptir (1809) kómu þeir út stiptamtmaðr og Magnús Stephensen. Hafði stiptamtmaðr af konungi þegið vald, meðau styrjöldin stæði, til að skera úr þeim málum, er áðr heyrðu undir konung eða þá stjórnarráð hans. Var þá áðr komið út hiugað skip frá Englandi til verzlunar; en þótt vöruskortr væri hinn mesti, bannaði stiptamtmaðr landsmönnum harðlega verzlun við fjandmenn konungs, og við alla aðra en Dani eina. Í þeim svifum kom út enskt herskip, og neyddi foringi þess stiptamtmann skjótt til að leyfa Englendingum að verzla, en hann hét aptr landsmönnum fullum friði, og lét síðan frá landi.

En er hann var látinn í haf, kom enn skip frá Englandi, og hafði herbúnað nokkurn. Á því var kaupmaðr frá Lundúnum, Felps að nafni, og með honum danskr maðr, Jörgen Jörgensen. Jörgensen þessi tók sér fyrir hendr að kollvarpa stjóru Danakonungs á Íslandi, og fyrir því tók hann stiptamtmann höndum, og lét hafa hann á skip út, og setja þar í varðhald. Mælt er, að landsmenn hafi viljað verja hann, en hann bannað það. Tók nú Jörgensen að sér stjórn landsins, og nefndi sig hæstráðanda á sjó og landi yfir Íslandi. Skyldi nú allt konungsfé og eigur Dana upptækar hér á landi. Velja skyldu Íslendingar sjö menn, til að gefa landinu lög, og kvaðst Jörgensen þá mundu leggja niðr völd sín, er þeir kæmi saman. Hann kvaðst mundu koma betri reglu á skóla og spítala, og láta Íslendinga eina hafa embætti á hendi. Margt bauð hann, er hér verðr eigi talið, en hét að láta skjóta hvern þann eptir

tvær klukkustundir, er í nokkru dirfðist að brjóta gegn vilja sínum og boði. Hann lét gjöra virki á Arnarhóli við Reykjavík, og flytja þangað fallbyssur, og kvaðst nú mundu verja sæmd landsins og leggja þar við líf sitt; tók hann sér nú að lífverði átta Íslendinga, og vóru það lausingjar einir. Þá er hann hafði sýslað það syðra, er honum þótti hlýða, reið hann norðr við nokkra menn, gjörði upptækar eigur kaupmanna, en setti þar Stephán amtmann af embætti, með því að hann vildi eigi ganga honum til handa, og þótti hann uú og menn hans fara heldr óspaklega.

Þá er hann kom suðr aptr, fékk hann bréf frá Jóni Guðmundssyni († 1820) sýslumanni í Skaptárfellssýslu. Vóru í því mörg hrakyrði Jörgensen til handa, og kvaðst sýslumaðr mundu láta taka hann af lífi og meun hans alla, ef haun mætti því við koma, þá er hanu kæmi austr yfir Jökulsá á Sólheimasandi. Hafði sýslumaðr haft þiug við bændr, og þeir heitið houum fylgi síuu, og lét hann nú hafa njósnir úti.

Þá er Jörgensen fékk bréf þetta, varð hann hinn reiðasti, og hugðist að fara með lið sitt á hendr hinum djarfmælta sýslumanni, eu ríki hans leið áðr undir lok, en hann mætti því fram koma.

Um það leyti er Jörgensen vildi ríða austr, kom herskip af hafi. Var það frá Englandi og hét fyrirliðinn Alexander Jones. Fór Jörgensen þegar til móts við fyrirliðann, til að bjóða honum heim og vingast við hann, en hinn vildi eigi taka vináttumálum hans, því að hann hafði haft spurnir af landsmönnum um athæfi Jörgensens. Kómu þeir bræðr Magnús Stephensen og Stephán amtmaðr á Hvítárvöllum þá til móts við Alexander, og kærðu atfarir Jörgensens, en hann hét þeim

fylgi sínu, og gjörði við þá bræðr svofelldan samning (22. ágúst 1809): *að* allar gjörðir Jörgensens hér á landi skyldi ógildar, og allir menn taka við embættum þeim, er þeir áðr hefði haft, en þeir bræðr Magnús og Stephán takast á hendr fyrst um sinn stjórn landsins; *að* virki Jörgensens á Arnarhóli skyldi brotið, og *að* Danir og Englendingar skyldi njóta hér friðar og jafnréttis, og mega hvorirtveggju fara hingað með varning sinn í friði, meðan styrjöldin stæði. Var nú tekið að brjóta virkið; en lífverðir Jörgensens földu sig. Héldu þeir Felps og Jörgensen til Englands; lifði Jörgensen um hríð í Lundúnum við vesöld allmikla, og er ekki fullkunnugt, hver forlög hans urðu síðar, en nokkrir segja, að hann hafi seinna farið til Eyjaálfunnar og orðið auðugr bóndi á Nýja-Hollandi.

Það kann að virðast undarlegt og harðla lítilmannlegt, að Íslendingar kollvörpuðu eigi stjórn Jörgensens, en þess er að gæta, að landsmenn vóru nú alveg varnarlausir og með öllu ókunnugir vopnaburði. Stiptamtmaðr vildi og eigi láta landsmenn hafa sig í hættu, og bauð þeim að halda kyrru fyrir, er þeir vildu verja hann, en tíminn gat eigi sýnt, hvort hugr fylgdi máli hjá Jóni Guðmundssyni sýslumanni, eða hverjar framkvæmdir hefði orðið af hans hendi; en mestan kjark mun það hafa dregið úr mönnum, að mörgum lék grunr á, að þetta væri gjört með vilja og ráðum Englandsstjórnar, og að þaðan mætti hefndar vænta, ef veitt væri viðnám, en öllum var ljóst, að Danir höfðu nóg með að duga sjálfum sér.

Styrjöldin stóð enn í fjögur ár, og géngu Svíar í lið með fjandmönnum Dana; en er friðr komst á, varð hann með þeim ókjörum fyrir Dani, að þeir urðu að láta

Norveg af hendi við Svía, en eigi fylgdi Ísland með svo sem vera bar, því að Íslendingar höfðu öndverðlega gengið Norvegskonungi á hönd. Styrjöld þessi varð Íslandi næsta þungbær, því að þó að Englandskonungr tæki Íslendinga í fullan frið (1810), leyfði verzlun milli Íslands og Bretlands hins mikla, og bannaði þegnum sínum, að sýna mönnum hér ónáðir, urðu þó aðflutningar til landsins mjög litlir, meðan styrjöldin stóð, og vara sú, sem kom, svo dýr, að úr hófi keyrði; fækkaði þá fólk hér nokkuð á þeim árum. Bankóseðlar féllu þá og mjög í verði, og misstu margir við það allmikið fé, en hér sannaðist, sem optar, að «neyðin kennir naktri konu að spinna». Þá er aðflutningar matvæla þrutu, tóku Íslendingar að leggja meiri stund á garðyrkju, en fyrr hafði verið, og hagnýta sér betr gæði landsins og vinna margt það sjálfir, er þeir höfðu áðr keypt frá útlöndum dýrum dómum.

Tveim árum eptir að friðr komst á (1816), vóru hér á landi stofnuð félög tvö einkar þörf, nefnilega biblíufélagið og bókmenntafélagið, og géngust fyrir því útlendir menn. Biblíufélagið stofnaði enskr prestr Henderson að nafni. Ferðaðist hann hér um land, og var sendr af biblíufélaginu enska, til að kynna sér kristnihald og siðferði leikra og lærðra, og þótti hann hinn merkasti maðr í öllum háttum sínum. Fékk hann byskup og aðra helztu menn landsins, til að ganga í félagið og styrkja það, en biblíufélagið enska lagði til fé allmikið. Bókmenntafélagið stofnaði danskr maðr, Rasmus Rask að nafni, og með honum þrír Íslendingar, þeir Finnr Magnússon, Bjarni Thorsteinsson, er seinna varð amtmaðr vestra († 1876), og Árni Helgason stiptprófastr, prestr að Görðum á Álptanesi († 1869). Var Rask hinn lærðasti

maðr á tungumál, og kunni íslenzku svo vel, að hann talaði hana og ritaði, sem innfæddr væri; ferðaðist hann um landið og leitaði fornra bóka, og hvatti menn jafnframt til að ganga í félag þetta. Skyldi mark þess og mið vera það, að efla heiðr og gagn íslenzkrar tungu og íslenzkra bókmennta; skyldu stjórnardeildir vera tvær, önnur á Íslandi, en hin í Danmörku. Margir styrktu í fyrstu félag þetta hér á landi, en þó meira erlendis, og hefir það nú starfað meir en sextíu ár að mörgu leyti með ágætum árangri.

Litlu eptir þetta stofnaði Magnús Stephensen hið fyrsta innlent tímarit á íslenzka tungu (1818); kallaði hann það »Klaustrpóst«, og hélt því úti í 9 ár 1818—1825. 1827). Leitaði hann við í því, sem og í öðrum ritum sínum, að fræða landa sína í öllum þeim efnum, er hann ætlaði að þeim mætti að gagni verða. Hann hafði jafnan prentsmiðju landsins undir höndum, og gætti þess vel, að gefa að eins þær bækr út, er nýtilegar vóru, og í framfarastefnu hins nýjara tíma, en hér fór, sem optar, að vaninn varð í fyrstu ríkari hjá allmörgum en sannleikr og skynsemi. Reiddust margir framfara- og menntunartilraunum Magnúsar, og þóttu áminningar hans mjög óþarfar, og tóku því að níða hann, en hann, sem var bæði kappsfullr og skapmikill, tók allómjúkt slíkri mótstöðu. Magnús andaðist í Viðey sjötíu og eins árs að aldri (1833). Flestir af þeim, er hallmæltu framkvæmdum Magnúsar, eru nú gleymsku huldir, en hans mun sagan jafnan minnast, sem eins hins ágætasta og framkvæmdarsamasta af sonum landsins.

2. *Ráðgjafarþing sett í Danmörku, en embættismanna-*

*nefnd á Íslandi, og svo síðan alþingi. Latínuskólinn endrbættr og prestaskóli settr. Hin íslenzka stjórnardeild stofnsett. Frjáls verzlun leidd í lög. Fjárkláðinn. Stjórnarbótarmálið. Lög um stöðu Íslands í ríkinu sett 1871. Landshöfðingjaembættið stofnað 1872. Landið fær stjórnarskrá 5. jan. 1874. Þúsundárahátíðin.*

Júlíbyltingin á Frakklandi (1830) kveykti þær frelsishreyfingar og frelsislöngun svo ríka víða um lönd í Norðrálfu, að stjórnöndum tók að standa stuggr af, og varð sú bylting orsök til þess, að ráðgjafarþing vóru sett fyrir Danmörku og hertogadæmin (1834), og skyldi Íslaud senda 2 menu á þing Eydana; en brátt fundu Íslendingar, að þetta stjórnarfyrirkomulag var þeim til handa næsta ófullkomið, og að högum landsius var því að eins borgið, að það gæti fengið þing út af fyrir sig. Um þetta efni fóru bænarskrár frá Íslaudi til Danmerkr, og unnu það á, að konungr skipaði (1838) tíu af hinum æðri embættismönnum landsins í nefnd, til að hugleiða málefni þess. Skyldi nefnd þessi koma saman í Reykjavík annaðhvort ár, en gjörðum hennar þó skotið undir atkvæði á þingi Eydana. Þó að þetta væri nokkur bót, þótti mönnum hún að vonum harðla ónóg, og báðu þess enn, að laudið fengi þing sér, og fyrir því var það, að hinn góði konungr Kristján áttundi (1839—48), sem ríki tók eptir Friðrik sétta, stofnaði alþingi að nýju (8. marz 1843). En þetta þing var allt annað, en alþingi hið forna hafði verið. Það var ráðgjafarþing, þar sem konungr vildi leita ráða hjá fulltrúum þjóðarinnar um löggjöf landsins, en fulltrúarnir máttu og jafnframt bera fram óskir og álit þjóðar sinnar um eigin málefni hennar fyrir konunginn. Á alþingi skyldu eiga sæti tuttugu þjóðkjörnir menn, en sex konungkjörnir. Kom þingið

fyrst saman 1845, en lítið gjörðist, það er frásögnum sætti, á hinum fyrstu þingum. Kristján áttundi var hinn bezti konungr Íslendingum til handa; lét hann það að bæn landsmanna, að latínuskólinn var bættr; var hann fluttr frá Bessastöðum og til Reykjavíkr (1846), kennurum fjölgað og kennslan aukin; þá var og settr prestaskóli í Reykjavík (1847). Skyldu í houum prestaefni landsins, þau er eigi leituðu til háskólans í Kaupmannahöfn, fá guðfræðismenntun um tveggja ára tíma, en þangað til höfðu flestir prestar fengið alla menntun sína í latínuskólanum, og má geta nærri, að guðfræðismenntun þeirra hefir eptir augnamiði og ástandi skólanna verið af skornum skamti. Varð hinn núverandi byskup landsins, Dr. Pétr Pétrsson, hinn fyrsti forstöðumaðr prestaskólans, og þóttu þetta, sem og var, hinar beztu réttarbætr.

Svo sem kunnugt er, varð enn stjórnarbylting á Frakklaudi, og konungr rekinn þar frá ríkjum (í febr. 1848). Þá var Kristján áttundi látinn, en kominn til valda Friðrik sjöundi (1848—1863). Frelsishreyfingarnar á Frakklandi bárust á öldum andans nálega yfir alla Norðrálfu, og höfðu þau áhrif á Danmörk, að konungr sá sér eigi anuað vænna, en að heita þegnum sínum fullkominni stjórnarbót. Þessar frelsishreyfingar náðu og hingað út, og kómu hér fram á tvennan hátt. Var það annað, að gjört var uppþot móti nokkrum embættismönnum, sem allir vóru hver um sig ágætir menn, og einu af þeim, Sveinbjörn Egilsson rektor, prýði sinnar ættjarðar. En hitt var fegra, að svo mátti kalla, að þjóðin öll vaknaði af dvala, er hún heyrði um frelsisheityrði konungs getið, og beiddi þess í einu hljóði, að

Ísland fengi stjórnarbót, sem ákveðin væri á þingi í landinu sjálfu, og fóru bænarskrár um þetta efni til Danmerkr (1848). Hét þá konungr (23. sept. 1848), að staða Íslands í ríkinu skyldi eigi ákveðin með lögum, fyrr en Íslendingar hefði fengið að láta um það álit sitt í ljós á þingi innanlands. Þá varð og um sömu mundir sú breyting á hinni æðstu stjórn Íslands í Kaupmannahöfn, að málefni þess vóru greind frá málum Dana og sett í tvær ritstofur, og vóru þær kallaðar hin »íslenzka stjórnardeild«. Fyrir stjórnardeild þessa var settr íslenzkr maðr Brynjólfr Pétrsson, og hafði hann hið mesta traust og álit landa sinna. Skyldi forstöðumaðr deildarinnar bera málefnin upp fyrir ráðgjöfum konungs eptir því sem við átti, og gat þetta fyrirkomulag í góðs manns höndum orðið til mikilla hagsmuna fyrir landið.

Fundr sá, er konungr hafði heitið að ræða skyldi stjórnarfyrirkomulag landsins, kom nú saman í Reykjavík (5. júlí 1851), og er það hinn alkunni þjóðfundr. Hafði áðr allmikið verið talað um stjórnarfyrirkomulag landsins bæði á fundum heima í héruðum, á Þingvallafundi og í blöðunum, og það álit borið skýrt og skorinort upp, að landinu samkvæmt sögu þess, ásigkomulagi og þjóðrétti nægði að eins sérstök stjórn, þar sem alþingi hefði fullkomið löggjafarvald og sjálfsforræði í innlendum málum, og fór nú stjórninni að lítast miðr á þessa frelsisbliku. Þegar á fund var gengið, var eigi stjórnlagafrumvarpið komið frá Danmörku, og gat konungsfulltrúinn greifi Trampe lagt það fyrst fram sjö dögum síðar, og vóru þá um leið sendir hingað hermenn frá stjórninni, en þótt öllum væri óljóst, til hvers þá skyldi hafa, þótti koma þeirra næsta undarleg. Frumvarp þetta þótti þannig lagað, að það myndi, ef samþykkt

væri, svípta landið að miklu leyti því sjálfsforræði, er því bæri og æskilegt væri að það fengi, og gjöra landið að mörgu leyti háð ríkisþingi Dana; en konungsfulltrúi kvað þó eigi mega byggja stjórnarfyrirkomulag landsins á öðrum grundvelli, og fundrinn hefði einnig í þessu máli að eins ráðgjafaratkvæði, og lagði hann ríkt á við þingmenn, að breyta frumvarpinu sem minnst. Allt fyrir það hratt fundrinn frumvarpi stjórnarinnar algjörlega, en bjó til annað nýtt, og var landinu ætlað þar fullkomið sjálfsforræði, og tóku nú fundarmenn að ræða frumvarp sitt af kappi. Þá er kouungsfulltrúi sá, að hann fékk engu til vegar komið, og að þingmenn fóru sínu fram, tók hann það ráð, að segja fuudi slitið, áðr en frumvarpið yrði til lykta leitt. Þessu undu þingmenn hið versta; og er þeir konungsfulltrúi og forseti géngu úr sætum sínum, þá stóð Jón Sigurðsson upp, sem þá og síðan hefir verið forvígismaðr þeirra, er krafið hafa sjálfsforræðis landinu til handa, og mælti: »Eg mótmæli í uafni konungs og þjóðarinnar þessari aðferð, og áskil þinginu rétt til, að klaga til konungs vors yfir lögleysu þeirri, er hér er höfð í frammi». Sögðu þá þingmenn nálega í einu hljóði: »Vér mótmælum allir». Báru fundarmenn síðan fram fyrir konung kvartauir yfir konungsfulltrúa, og lýstu jafnframt yfir skoðun fundarins á stjórnarfyrirkomulagi, því er landinu bæri að réttu; eu það kom allt fyrir ekki. Syujaði kouungr næsta ár alls þess, sem beiðzt var, en sagði, að alþingi skyldi halda áfram starfa sínum eptir sem áðr. Þannig endaði hin fyrsta tilraun milli stjórnariunar og Íslendinga að einskorða stjórnarstöðu landsins, og urðu þessi málalok eigi til að mýkja hugi landsmauna.

Eitt af því, er þjóðfundr Islendinga hafði til meðferðar, var stjórnarfrumvarp eitt um verzlunarfrelsi á Íslandi. Fundarmenn breyttu þessu frumvarpi nokkuð, en réðu þó fastlega til þess, að bönd verzlunarinnar væri nú að fullu leyst, og utanríkismönnum heimilað að verzla hér. Mál þetta lá nú nokkra stund fyrir hjá stjórninni, enda reyndu kaupmenn, þeir er verzluðu hér, að koma í veg fyrir að það gengi fram. Þó kom það að lokum inn á ríkisþing Dana (1853), og þó að Íslendingar ætti þar af sinni hálfu engan talsmann, urðu þó margir málinu hlynntir mjög, og þótti fyrir löngu tími til kominn, að leysa til fulls þá fjötra, er í hálfa þriðju öld höfðu að miklum mun drepið í dróma dáð og dug landsmanna. Gékk málið fram, og var síðan öllum þjóðum með lögum um siglingar og verzlun 15. apríl 1854 heimilað, að sigla hingað með kaupeyri sinn. Hefir ekki sá kvíðbogi rætzt, er kaupmenn nú báru, og stjórnin hafði fyrrum borið, að verzlunarfrelsið myndi leiða hungr og vesöld yfir landslýð, því að hitt er fullkunnugt, að viðskiptin við Englendinga veita landinu nálega árlega stórmikinn og hagfelldan arð.

Tveim árum síðar en þetta gjörðist, vildi landinu sú óhamingja til, að hingað barst fjárkláði með enskum hrútum (1856). Breiddist hann skjótt út og var hinn skæðasti. Risu þá þegar upp tveir flokkar, er hvor hafði sína skoðun á útrýmingu kláðans. Vildu aðrir skera niðr allt hið sjúka og grunaða fé, og útrýma sýkinni þannig, og þótti annað eigi tækt, sökum þess að eigi yrði varnað samgöngum; en lækna og meðul vantaði; fyllti þann flokk öll alþýða og flestir embættismenn út um land. Nokkrir vildu lækna sýkina, og kváðu þá eina aðferð sæma menntuðum mönnum. Þeir, sem

þessari skoðun fylgdu, vóru að minnsta kosti í fyrstu fáeinir menn í Reykjavík, en þeir höfðu fullkomið fylgi stjórnarinnar. Lagði ríkisþing Dana þrjátíu þúsundir ríkisdala til að kosta lækningarnar, en stjórnin sendi lækna. Sóttust nú flokkar þessir í ritum og ræðum með hinum mesta ákafa, og lömuðu við það hvor annars framkvæmdir, en kláðinn lifði. Komst hann um tíma um mikinn hluta Suðramtsins og norðr í Húnavatnssýslu. En þá tók amtmaðr Norðlendinga, Pétr Havsteen, einn með þrekmestu og þjóðhollustu embættismönnum landsins á þessari öld, til sinna ráða, og lét skera nyrðra allt sjúkt og grunað fé, og telja margir, að með því hafi hann frelsað Norðrland frá einu hinu voðalegasta tjóni. Sunnlendingar læknuðu og skáru fé sitt á víxl, en hvorugt var gjört til hlítar. Alþýða vildi þar skera, en þar eð stjórnin vildi láta lækna, varð enginn til að gjörast forgöngumaðr svo almenns niðrskurðar, sem þurfti. Nú telja menn kláðann horfinn fyrir skömmum tíma (1877), og þakka margir það ötulli framgöngu Jóns Jónssonar landritara, en honum fal konungr að síðustu á hendi fullkomið lögreglustjóravald í fjárkláðamálinu. Allir Íslendingar gleðjast yfir því, að kláðinn er horfinn, en í þeim héruðum, er hann gékk lengst, á margr um sárt að binda, enda mun lengi minnzt þessarar skæðu landplágu.

Eptir að þjóðfundinum var slitið, tók alþingi til sinna vanalegu starfa, en þó að Íslendingar bæði á alþingi og utan þings minnti stjórnina á, að þeim bæri stjórnarbót, eins og samþegnum þeirra í Danmörku, og að landið ætti allmikið fé hjá Dönum, er á fyrri tímum hefði runnið inn í hinn danska ríkissjóð, er það þyrfti nú að fá, ef því ætti að verða þeirra framfara auðið, sem

æskilegt væri, þá fór þó stjórnin að engu ótt í þessu efni. Samt varð henni smámsaman ljóst, að landið átti til fjár að telja, og að fjárhagsaðskilnaðr milli Danmerkr og Íslands yrði að vera samfara stjórnarbótarmálinu. Fyrir því kvaddi hún fimm menn í nefnd (1861), þrjá Dani og tvo Íslendinga, þá Jón Sigurðsson alþingismann og Oddgeir Stephensen, forstjóra íslenzku stjórnardeildarinnar, til að gjöra tillögur, hvernig ætti að ráða fjárhagsmálinu til lykta. Nefndarmönnum kom öllum saman um það, að nauðsyn bæri til, að Íslendingar hefði sérstakan fjárhag, og að þeim bæri fé frá Dönum; en mjög vóru deildar skoðanir þeirra um upphæð fjárins. Fjórum árum síðar lagði stjórnin fram frumvarp fyrir alþingi, og vóru landsmönnum þar boðnar áttatíu og fjórar þúsundir króna í árgjald um tólf ár, en þingið hafnaði þessu af þeirri ástæðu, að ríkisþinginu var áskilinn réttr, til að ákveða árgjaldið að þessum tólf árum liðnum. Þá liðu tvö ár, og kom þá frá stjórnarinnar hendi til alþingis (1867) frumvarp til stjórnlaga fyrir Ísland, og var því jafnframt heitið, að landinu skyldi útvegað sjötíu og fimm þúsund króna árgjald um aldr og æfi hjá ríkisþinginu og tuttugu og fimm þúsundir króna um tiltekið árabil. Alþingi gjörði nokkrar breytingar við frumvarp þetta, svo sem það, að hin innlenda landsstjórn bæri ábyrgð fyrir alþingi, og að hið fasta árgjald væri hækkað upp í 120 þúsundir króna, og höfðu nú allir beztu vonir um, að mál þetta myndi til lykta leiðast; en þetta fór á annan veg. Næsta ár (1868) reyndi sá ráðgjafi konungs (Nutzhorn), sem hafði stjórnarmál Íslands til meðferðar, að útvega landinu til handa árgjald hjá ríkisþinginu, sem næst þeirri upphæð, er alþingi hafði krafið. En þó að Ísland ætti ekkert atkvæði á þingi þessu, not-

aði það þó tækifæri þetta, að láta eigi þar við lenda, að ákveða árgjaldið, en það dró einnig undir sig atkvæði og úrskurð um stjórnarstöðu landsins í ríkinu, en því höfðu Íslendingar jafnan haldið fast fram, að um það mál ætti þeir við konung sinn einan, og honum og þeim í sameiningu hlýddi að ráða því til lykta. Ráðgjafinn hafði ekki bolmagn gegn þinginu, og dróst smámsaman á þess skoðun, en áðr málinu lauk þar, var þingi slitið.

Þá er stjórnin sá, hverja stefnu ríkisþingið tók, leysti hún alþingi upp (26. febr. 1869), og lét stofna til nýrra kosninga, og er kosningar vóru afstaðnar og þingið kom saman (1869), lét hún leggja fyrir það tvö frumvörp. Var annað um stjórnarstöðu Íslands í ríkinu, og það nú tekið fram, að alþingi hefði að eins ráðgjafaratkvæði um frumvarp þetta. Þótti þingmönnum frumvarpið að ýmsu leyti bjóða lakari kosti en hitt, er komið hafði frá stjórninni fyrir tveim árum, enda bað þingið þess, að það yrði ekki að lögum gjört. Hitt frumvarpið var um stjórnarskrá landsins, og náði það eigi heldr samþykki þingsins, en þess var beðið, að konungr léti að tveim árum liðnum leggja nýtt frumvarp fyrir þing á Íslandi, er hefði ályktunarvald, og skyldi frumvarp þetta að minnsta kosti veita landinu eins mikið stjórnfrelsi, og frumvarp alþingis 1867 gjörði ráð fyrir.

En er stjórnin sá, að alþingi lét í engu hlut sinn, lagði hún nú að lokum frumvarp til laga um stöðu Íslands í ríkinu fyrir ríkisþingið, og gékk það þar fram, og kom síðan út sem lög (2. jan. 1871). Er þar svo fyrir mælt, *að* Ísland sé óaðskiljanlegr hluti Danaveldis, en hafi þó sérstök landsréttindi, *að* ríkissjóðr Dana greiði í fast árgjald til Íslands sérstöku útgjalda sextíu þúsundir króna, og fjörutíu þúsundir um tíu ár, er síðan

fari árlega minnkandi um tuttugu ár, unz það þrýtr. Hæsti réttr í Kaupmannahöfn skyldi vera æðsti dómr landsins, en að öðru leyti vóru sérstök mál þess greind frá málum Dana. Margir Íslendingar undu hið versta við málalok þessi, en þó vóru þau betri en ástand það, er áðr var, því að nú gat ekki ríkisþingið framar blandað sér í landsins sérstöku hagi, og með hinum sérstaka fjárhag var það gjört mögulegt, að landið tæki framförum.

Sama ár sem þetta gjörðist, kom alþingi saman að vanda, og svall þá mörgum þingmanni móðr. Lét nú konungr enn af nýju leggja fyrir þingið frumvarp til stjórnarskrár. Þetta frumvarp þótti þinginu enn sem fyrr allóaðgengilegt, einkum það, að ráðgjafi Íslands ætti að vera í Danmörku, og hinn æðsti valdsmaðr innanlands skyldi hafa ábyrgð fyrir ráðgjafanum einum, en eigi þinginu. Vóru nú gjörðar margar breytingar við frumvarpið, og var sú hin helzta, að landstjóri væri settr á Íslandi í stað ráðgjafa hjá konungi, og hefði hann ábyrgð fyrir alþingi; en jafnframt var það látið í ljós, að hin æskilegasta stjórn væri sú, að landið fengi jarl með ráðaneyti sér við hlið, og svo hefði og verið, ef landið hefði á nokkurn hátt mátt bera þau afargjöld, er slíkri stjórn hefði orðið að vera samfara. Var nú frumvarpið samþykkt með ýmsum breytingum. Þá mótmælti og þingið gildi laganna 2. janúar 1871; en þess ber að geta hér, að þingið skiptist nú sem að venju, þá er um stjórnarmál landsins var að ræða, í meira og minna hluta. Í minna hlutanum vóru sex hinir konungkjörnu þingmenn, og á stundum einn eða tveir þjóðkjörnir. Fylgdi minni hlutinn ýmist stjórninni að málum, eða þá vildi fara þann miðlunarveg, að sættir kæmist á. Lét hann

nú uppi það álit sitt, að stjórnarskrárfrumvarpið byði svo góð boð, að þeim mætti eigi hafna, og að hann væri með öllu fráhverfr því, að mótmæla gildi laganna 2. jan. 1871.

Ekki vildi stjórnin samþykkja stjórnarskrárfrumvarpið eins og það kom frá þinginu, og hugði hún nú, að bezt væri, að láta málið hvíla sig að sinni, en til þess þó að gjöra landstjórnina meir innlenda en verið hafði, var nú stofnað nýtt embætti, landshöfðingjadæmið (1872), og skyldi það byrja næsta ár. Skyldi landshöfðinginn vera skipaðr yfir alla embættismenn í landinu, og yfir höfuð framkvæma hið æðsta vald yfir sérstökum málum landsins undir umsjón og yfirstjórn hlutaðeigandi ráðgjafa í Kaupmannahöfn. Var stiptamtmaðr Hilmar Finsen — en hann er að föðurætt íslenzkr maðr, sonarsonr Hannesar byskups — skipaðr landshöfðingi; hafði hann á undanfarandi þingum verið konungsfulltrúi, og starfað þar að stjórnmálum landsins með þrautgæði og stillingu, enda eiga Íslendingar honum og Jóni Sigurðssyni allra manna mest að þakka sjálfsforræði það, er landið hefir fengið. Þá var og um leið amtmannsembættið í vestramtinu lagt niðr, og einn amtmaðr skipaðr yfir suðr- og vestramtið. Þessari breytingu tóku landsmenn illa, einkum af því, að þetta hefði verið gjört að alþingi óaðspurðu; óx nú drjúgum kurr landsmanna, enda spöruðu ekki blöðin og ýmsir einstakir menn, sem kváðust vera þjóðhollir, að blása að kolunum með því að brýna fyrir almenningi, hversu stjórnin væri gjörræðisfull.

Þá er þannig stóð, var stefnt til Þingvallafundar (1873), er haldinn skyldi rétt fyrir alþingi, og átti álit landsmanna á stjórnarbótarmálinu að koma þar skýrt og skorinort í ljós, áðr þingið kæmi saman. Á fundi

þessum mættu kosnir menn nálega úr öllum kjördæmum landsins. Eptir allharðar umræður komst fundrinn að þeirri niðrstöðu, að skora á alþingi, að búa til frumvarp til stjórnarskrár og senda það konungi, og tók jafnframt fram ýms undirstöðuatriði allfjarstæð þeim, er stjórnin hafði áðr viljað samþykkja, svo sem það, að Íslendingar stæði í því eina sambandi við Dani, að lúta sama konungi, og að jarl væri skipaðr yfir landið.

Nú var gengið á þing, og hugðu margir, eptir því sem fram hafði farið, að meiri hluti þingmanna yrði allharðsnúinn gegn stjórninni, og að eigi myndi til friðar draga. En hér varð á annan veg. Raunar bjó þingið til stjórnarskrárfrumvarp að nokkru leyti byggt á álitum Þingvallafundarins, og var það samþykkt af meira hluta þingsins, en jafnframt þessu dró þó nú til sátta milli flokka þeirra á þinginu, er áðr höfðu í þessu máli staðið öndverðir, og virtist svo, sem allir vildi nú leggjast á eitt, að málið fengi í raun og veru þær lyktir, að von gæti verið á góðum undirtektum frá stjórnarinnar hálfu, og fyrir því var sú varatillaga samþykkt á þinginu í einu hljóði: *að* biðja konung að veita landinu næsta ár (en þá hafði það byggt verið í þúsund ár) stjórnarskrá þá, er gæfi alþingi fullt löggjafarvald og sjálfsforræði. Vóru tekin fram nokkur atriði, er nauðsyn þótti, að stjórnarskráin hefði að geyma, svo sem það, að sérstakr ráðgjafi skuli skipaðr fyrir Íslands mál, sem hafi ábyrgð fyrir alþingi, og *að* engin gjöld verði lögð á landið til sameiginlegra ríkisþarfa án þess alþingi samþykki. Ávextir þessarar happalegu málamiðlunar kómu skjótt í ljós, því að næsta ár (5. jan. 1874) gaf konungr landinu stjórnarskrá, sem veitti því löggjafarvald og sjálfsforræði, og snúum vér nú frá stjórnmálum

landsins, til að skýra frá einum hinum merkasta atburði, er á seinni tímum hefir gjörzt á æfi þjóðarinnar, nefnilega þúsundárahátíðinni.

Löngu áðr en árið 1874 hófst, höfðu menn vakið máls á því, að á því ári væri þúsund ár liðin, síðan Ingólfr festi hér fyrst byggð. Töldu menn það hlýða að minnast hinna horfnu þúsund ára, þó að þjóðin hefði á þeim einatt reynt köld raunakjör, og gjöra það á þann hátt, að landinu mætti til sóma verða. Vildu þá nokkrir láta byggja hús úr steini handa alþingi, en aðrir, að rituð væri saga landsins. Þó varð af hvorugu, og var það fyrst árinu áðr en þúsundáratíminn var útrunninn, að veruleg hreyfing komst á málið. Ákvað konungr (1873), að halda skyldi næsta ár guðsþjónustu í öllum kirkjum landsins, til að þakka guði vernd og hlífð við þjóðina á liðnum þúsundáratíma, og fór hún fram í öllum höfuðkirkjum landsins 2. ágúst eptir ákvörðun byskups. Þá vóru og í flestum héruðum haldnar hátíðlegar samkomur; vóru þær fyrir norðan og austan fyrst í júlí, en syðra í byrjun ágústmánaðar. Á samkomum þessum vóru haldnar ræður, rædd ýms nauðsynjamál landsins, og á sumum stöðum stofnuð félög til framfara og nytsemdar. En mest kvað þó að þeirri samkomu, er eptir undirlagi Þjóðvinafélagsins, er þá var stofnað fyrir skömmum tíma, var haldin á hinum fornhelgu stöðvum landsins Þingvöllum frá fimmta til sjöunda dags ágústm. Var það aðalhátíð landsins; þangað kómu margir helztu menn úr öllum héruðum. Þangað kómu menn frá Norðrlöndum, Englandi, Frakklandi, Ameríku og víðar að, til að færa þjóðinni heillaóskir, og taka þátt í fagnaði hennar og von um hamingju og farsæld á ókomnum öldum, og þangað kom og konungrinn sjálfr, Kristján níundi,

hinn fyrsti konungr, er á liðnum þúsund árum hafði heimsótt landið. Færði hann Íslendingum hina dýrustu gjöf, er orðið gat, stjóruarskrána, því að um þessar mundir öðlaðist hún gildi. Fylgdi konungi margt stórmenni, og þar á meðal Klein, er konungr hafði þá nýlega skipað rágjafa fyrir Ísland. Konungr fór til Geysis og Þingvalla; fögnuðu landsmenu honum eptir föngum á Þingvöllum. Ortu skáldin Matthías Jochumsson og Steingrímr Thorsteinsson konungi kvæði, og þar færðu landsmenn honum ávarp til að þakka honum fyrir frelsisgjöfina, og segja hann velkominn til landsins, og hafði alþingismaðr Dr. Grímr Thomsen orð fyrir þeim, er ávarpið fluttu. Var þar minnzt á raunir þjóðarinnar á horfnum öldum; en jafnframt lýst von hennar um happasælli kjör, er frelsið myudi veita á ókomnum tíma og trausti landsmanna til konungs. Svaraði konungr mildilega, og er haun hafði endað mál sitt, kváðu við fagnaðaróp þingheims. Vóru allir hrifnir af blíðleik og mildi konuugs, og er hann fór brott af Þingvöllum, fylgdi allr þiugheimr honum upp í Almannagjá; en er konungr og sveit hans var kominn upp úr gjánni, endrkvað hún faguaðaróp lýðsins. Báðu allir konung vel fara og árnuðu honum heilla og hamingju. Á því augnabliki virtist svo, sem allir gleymdi þeim þrautum, sem þjóðin hafði á stundum reynt undir stjórn hinna fyrri konunga, en von og gleði fyllti hvers mauns brjóst. Eins og Kristján níundi er hinn fyrsti konungr landsins, er hefir heimsótt það á faguaðarstund, eins er hann landsmönnum hinn ástsælasti þeirra allra, og eru það fullkomin sannmæli, er landshöfðingi sagði í skilnaðarkveðju sinni til hans, að hann hefði komið, séð og sigrað hjörtu Íslendinga.

Á Þingvöllum gáfu menn sig eigi að eins við fagnaði og hátíðarhaldi, heldr vóru þar og rædd ýms áhugamál landsins, svo sem gufuskipsferðir kringum strendr þess. Þar var og samið ávarp frá landsmanna hálfu til Jóns Sigurðssonar alþingismanns í Kaupmannahöfn, er þá sem áðr var af öllum almenningi mest virðr allra Íslendinga. Var honum þakkað þar fyrir starf hans og baráttu fyrir velferðarmálum landsins, en það er alkunnugt, að hann hefir varið æfidegi sínum til þess verks, er bezt er og fegrst, en það er að ávinna þjóð sinni frelsi, og hvetja hana til þess, er efla má framfarir hennar og hagsæld[1].

Þúsundárahátíð þessi var næsta þýðingarmikil fyrir land og lýð. Hún hefir vakið og glætt sjálfsmeðvitund og framfararalöngun landsmanna sjálfra. Hún hefir vakið eptirtekt annara þjóða, meir en var, á landinu og íbúum þess, og hún hefir einnig vakið heita ást í brjóstum landsmanna til konungs, en slíkt er eitt af skilyrðum fyrir heppilegri samvinnu þings og stjórnar. Síðan hafa nú liðið fimm ár og alþingi komið þrisvar saman, en þó að það verði ekki talið hèr, sem á þessum tíma gjörzt hefir, þá má þó geta þess, að þing og stjórn hafa unnið í eindrægni að velferðarmálum landsins, og vona allir þeir og óska, er unna þessu landi, að slíkt megi haldast framvegis.

Þess hefir verið getið hér að framan, að átjánda öldin var umbrota- og breytingatími. Þá var eins og streymdi frá hjarta þjóðarinnar nýr andi og nýtt líf, og ný von benti hennar beztu mönnum fram á leið til betri tíma. Þessi hin nýja lífsstefna, sem, þó hún þá væri

1) Þá er þettá var ritað, hafði lát Jóns Sigurðssonar eigi frétzt hingað til lands, en hann andaðist 7. des. 1879.

J. Þ.

atkvæðalítil, kom þó víða í ljós, hefir á þessu tímabili borið hina happasælustu ávöxtu. Öll ófrelsisbönd eru nú brostin; nú er fengið frelsi í stjórn, í trúarbrögðum, í atvinnu, í verzlun, svo að þjóðin í heild og hver einstakr geta nú neytt krapta sinna. Vísindin hafa eflzt og þróazt meðal landsmanna, og í flestum vísindagreinum hefir einhver atkvæðamaðr verið. Í sumum þeim greinum vísindanna, sem áðr vóru hér lítt kunnar eða með öllu ókunnar, hefir töluvert ritað verið, svo sem í náttúrufræði, landafræði, læknisfræði og um stjórnarmálefni landsins. Skáldin og málfræðingarnir hafa lagt hina mestu stund á, að fegra og hreinsa tungu landsmanna, og er það hið þarfasta verk, því að hver sú þjóð, sem glatar tungu feðra sinna, glatar um leið virðingu fyrir sjálfri sér. Fréttablöðin fræða nú almenning um hagi landsins og skýra frá því, er gjörist um víða veröld; þau eru nú fimm og prentsmiðjur jafnmargar, en við byrjun þessa tímabils var ekkert blað, og tvær aðgjörðalitlar prentsmiðjur. Í latínuskóla landsins, þar sem áðr var mest kend latína, og að nafni til guðfræði, eru nú kendar nálega allar þær vísindagreinir, sem tíðkast að kenna í slíkum skólum í öðrum löndum. Æðri menntastofnanir eru þegar til í landinu fyrir guðfræðinga og lækna, og þó að þær komist hvergi til jafns við slíka skóla erlendis, þá er þó þar með lagðr grundvöllr til innlendrar æðri menntunar. Alþýða manna, sem, þó hún væri vonum framar fróð, eigi fékk áðr aðra fræðslu en þá, sem foreldrar gátu veitt, og prestar, eptir því sem þeir máttu við koma og vildu, hefir nú á nokkrum stöðum fengið barnaskóla. Gagnfræðisskóla er verið að stofna fyrir norðan land, og þrír kvennaskólar eru nú þegar til, einn í Reykjavík og tveir nyrðra. Þekking á sönglist, sem

fyrrum var Íslendingum með öllu ókunn, breiðist nú óðum út, og var það í fyrstunni að þakka Pétri Guðjónsyni, sem alllengi við lítil laun var organleikari við dómkirkjuna í Reykjavík, og kennari í söng við latínuskólann († 1877), og síðan járnsmið Jónasi Helgasyni í Reykjavík. Opinber bókasöfn eru eigi mörg, þó er eitt allmikið í Reykjavík og nokkur á öðrum stöðum, en í byrjun þessa tímabils var ekkert bókasafn, og má það, sem nú er talið, heita nokkrar framfarir í andlegu tilliti.

Á tímabili þessu hafa lifað og lifa enn allmargir merkir vísindamenn, þó að rúmið leyfi að eins að nefna fæsta þeirra. Af Íslendingum erlendis skal í þessu skini nefna fyrst og fremst hinn fræga og fjöllærða prófessor Finn Magnússon († 1847); hann ritaði margt um rúnir, um hina fornu goðafræði Norðrlanda og um annað, það er lýtr að sögu og uppruna fornmanna á Norðrlöndum, og mikið annað; þá er að telja þá Jón Sigurðsson alþingismann, er áðr hefir nefndr verið, og hinn skarpvitra prófessor við háskólann í Kaupmannahöfn Konráð Gíslason. Hefir Jón Sigurðsson ritað margt það, er lýtr að sögu og stjórnmálum landsins; hann hefir gefið út það, sem komið er, af hinu íslenzka fornbréfasafni, og með öðrum manni (Oddgeiri Stephensen) hið mikla lagasafn landsins; en hinn er löndum sínum kunnr einkum af hinni dansk-íslenzku orðbók sinni.

Af þeim vísindamönnum, er alið hafa aldr sinn hér á landi, má fyrstan nefna Magnús Stephensen; en með því að hans hefir áðr minnzt verið, skal það að eins tekið hér fram, að hann var hinn skarpvitrasti lögfræðingr landsins á sínum tíma, og hefir auk annars ritað margt í þeirri grein. Jón Espólín († 1836), sýslumaðr í Skagafirði, hefir á þessu tímabili verið allra manna

fróðastr í sögu landsins; hann var hinn starfsamasti maðr, en þótt hið fæsta sé prentað af því, er hann hefir ritað, þá munu þó hans «Íslands Árbækr» um langan aldr geyma minning hans í heiðri. Einn hinn atkvæðamesti vísindamaðr um sína daga var rektor Sveinbjörn Egilsson († 1852). Höfuðrit hans er: orðbók yfir hið forna skáldamál. Auk þess hefir hann snúið á latínu mörgum fornmannasögum og Hómers kvæðum á íslenzku; ritaði hann hið liprasta og unaðsamlegasta mál, enda var hann og hið bezta skáld. Samtíða honum var Björn Gunnlaugsson kennari við latínuskólann († 1876). Hann var hinn djúpvitrasti spekingr, en hreinn í hjarta sem barn, enda var hann virtr og elskaðr af löndum sínum fremr öllum öðrum samtíðarmönnum hans. Hann ferðaðist á sumrum um landið í tólf ár, og gjörði hann uppdrátt af Íslandi, sem Bókmenntafélagið hlaut verðlaun fyrir í París 1875. Lærdómr hans og glöggskyggni í stjörnufræði, mælingarfræði og tölvísi eru alkunn. Hann var og skáld og heimspekingr, og ber kvæðið »Njóla« hinn fegrsta vott um háfleygi anda hans. Hefði hann eigi lifað hjá afskekktri, fámennri og snauðri þjóð, myndi hann án efa hafa orðið hinn frægasti maðr.

Af núlifandi fræðimönnum hér í landi, skal telja þá, Dr. Jón Hjaltalín landlækni; hann hefir skráð margt, einkum það, er lýtr að læknisfræði, og allra manna mest barizt fyrir því, að læknaskipun landsins kæmist í viðunanlegt horf. Byskup Pétr Pétrsson er af guðsorðabókum þeim, er hann hefir samið, löndum sínum að góðu kunnr. Hann hefir og ritað kirkjusögu Íslands á latínu, og tekið þar við, er Finnr byskup hætti; nær hún yfir hundrað ár (1740—1840), og er hið þarfasta verk. Rektor Jón Þorkelsson hefir með miklum lærdómi og glöggskyggni

ritað ýmislegt, er snertir íslenzka málfræði, enda er hann hinn lærðasti málfræðingr. Þá eru þeir, skáldið Benidikt Gröndal; hann hefir auk margs annars fyrstr samið jarðfræði og dýrafræði á íslenzka tungu, og málfærslumaðr Páll Melsteð; eptir hann eru á íslenzku þrjár veraldarsögur; ritar hann betr sögu en nokkur annar Íslendingr hefir gjört á seinni öldum, og mega landar hans kunna honum þakkir fyrir þessi hans snilldarverk.

Meðal merkismanna landsins á þessu tímabili má telja málarann Sigurð Guðmundsson († 1874). Hann var gáfaðr listamaðr og fornfræðingr. Unni hann ættjörðu sinni, og hafði lifandi tilfinning og mikinn áhuga á öllu því, er þjóðlegt var. Hann stofnaði forngripasafn landsins og stýrði því, meðan hann lifði, fyrir nálega engin laun. Löngu fyrir hans daga, á eymdaárum þjóðarinnar, hafði lagzt niðr hinn forni og fagri kvenbúningr Íslendinga, en sá, er aptr kom, sneyddi mjög kvenlega fegrð. Sigurðr kom á aptr hinum forna búningi, og er alls enginn efi á því, að slík skipti muni, þá er fram líða stundir, auka að miklum mun fegrðartilfinning hér á landi, og hikum vér því ekki við, að telja þetta eitt af framförum hins nýja tíma.

Af hinum mörgu skáldum landsins á þessu tímabili, verða að eins fáein talin hér, og skal þá nefna fyrstan Jón Þorláksson prest að Bægisá († 1819); hann var höfuðskáld landsins um sína daga, og þó að hann ætti jafnan við bágbornustu æfikjör að búa, og yrði sem fátækr prestr á lélegu brauði að vinna fyrir lífi sínu, þá hefir hann þó í ríki skáldskaparins afkastað meiru, en flestir aðrir hér á landi. Sneri hann á íslenzku ýmsum verkum eptir

fræg skáld, svo sem »Paradise Lost» (Paradísarmissi), eptir enska skáldið Milton, og er það snilldarlega gjört.

Mikið yngri en hann vóru skáldin Bjarni Thorarensen amtmaðr († 1841), og Jónas Hallgrímsson († 1845). Kvæði þeirra lýsa heitri ættjarðarást, og skara fram úr að fegrð og smekk, og má að mörgu leyti telja þá fyrirrennara hinna yngri skálda, og að með þeim fengi skáldskaprinn nýja stefnu hér á landi, enda mátti nú rímnakveðskaprinn heita á förum. Var Sigurðr Breiðfjörð hið síðasta atkvæða-rímnaskáld († 1846). Hefir hann náð mestri hylli almennings af öllum rímnaskáldum landsins, að minnsta kosti á seinni tímum, enda eru sumar af rímum hans, t. d. »Númarímur«, mjög vel ortar. Hann var gáfumaðr mikill, og það sem hanu vantaði á menntun, bættu að nokkru hans ágætu hæfilegleikar. Kjör hans vóru margbreytt, en optast köld; en það er gleðiríkt að sjá, hversu hið guðlega ljós andans lýsti honum, svo að hann þrátt fyrir allar freistingar, þrautir og baráttu lífsins, sá þó jafnan, fann og varð hrifinn af öllu því, sem er gott og fagrt í tilverunni.

Þá er vér lítum á hinar líkamlegu framfarir, þá eru þær að vísu litlar og landið ærið snautt, enda er hér margt sem tálmar, svo sem óblíð veðrátta, óauðug náttúra og fjarlægð landsins frá öðrum löndum, og hér er við eld og ís að berjast. Íslendingar eru enn fákunnandi í öllum verknaði, og geta eigi sem aðrar þjóðir látið krapta náttúrunnar þjóna sér, en þrátt fyrir þetta er þó hagr þjóðarinnar miklu betri nú en á hinum fyrri öldum. Þá hrundi fólkið opt niðr, svo að þúsundum skipti, af hungri, en á þessu tímabili hefir enginn mannfellir, svo teljandi sé, orðið, og hafa þó mörg harðindaár (1802, 1807, 1812 —13, 1821, 1859, 1869 og optar), og mikil eldgos (Eyja-

fjallajökulsgos 1821, Kötlugos 1823, Heklugos 1845, og hið mikla Dyngjufjallagos 1875 o. s. frv.) opt og einatt hnekkt velmeguri manna og framförum landsins, þó að það hafi eigi orðið eins og á hinum fyrri öldum. Á þessu tímabili hefir fólk jafnan fjölgað, svo að nú er það orðið allt að því hálfu fleira, en það var við byrjun þess, og er það ætíð hinn vissasti vottr um framfarir. Að vísu virðist svo sem nautpeningr hafi fækkað, en aptr hefir sauðfé fjölgað að miklum mun, og öll meðferð á peningi stórum batnað, og hann við það orðið betri eign. Æðarvarp og laxveiði eru nú orðnir álitlegir og arðsamir atvinnuvegir. Fiskiveiðar hafa tekið miklum framförum, og eiga nú Íslendingar nokkur þilskip, er þeir stunda fiskiveiðar á, en fyrrum vóru þau engin. Garðyrkja er þegar orðin töluverð einkum sunnanlands, enda er áhugi nokkur vaknaðr á jarðabótum og framförum í búnaði, og hefir búnaðarfélag það, er stofnað var (1837) fyrir suðramtið átt eigi alllítinn þátt í, að glæða þann áhuga, einkum síðan það komst undir stjórn skólakennara Halldórs Friðrikssonar. Eru nú búfræðingar teknir að ferðast um landið, til að kenna mönnum jarðabætr og leiðbeina alemenningi í búskap; en mest hefir þó verzlunarfrelsið stutt að framförum landsins. Meir en helmingr kaupmanna, þeirra er hér reka verzlun, eru nú innlendir kaupmenn, og Íslendingar hafa sjálfir stofnað verzlunarfélög, en eitt hið mesta mein landsmanna eru þó skuldir þeirra við kaupmennina. Að vísu hefir nautn munaðarvöru aukizt fjarskalega á seinni árum, svo að Íslendingar eyða nú árlega stórfé, yfir millíón króna, fyrir vínföng, tóbak, kaffi og sykr, en þrátt fyrir það er þó allr lifnaðarháttr og hagr Íslendinga miklu betri og viðunanlegri

nú, en á þeim tímum, er lítið eða ekkert af slíku var flutt til landsins. Við vaxandi menntun hefir og aukizt mannúð og kurteisi í umgengni. Þrifnaðr meðal landsmanna, þótt honum sé í mörgu ábótavant, fer þó í vöxt; klæðnaðr er nú meiri og ásjálegri en fyrrum, og húsakynni manna hafa batnað stórum á seinni tímum.

Hegningar allar einkum fyrir brot gegn skírlífi eru linaðar mjög með hinum nýju hegningarlögum (1869), og hinn fyrri ósæmilegi hegningarmáti, hýðingarnar lagðar niðr, en í þess stað teknar upp sektir og fangelsishegningar, og eru þetta gleðilegar breytingar til hins betra, því að trautt mun grimmd laganna geta vakið kærleika og sjálfstilfinning í hjarta mannsins, sem þó eru skilyrði fyrir því að hann verði betri, og ber þetta allt vott þess, að þjóðin, þó að hægt fari, haldi fram á leið á vegi menntunar, mannúðar og framfara.

Þá er að minnast þess, sem þing og stjórn hafa á seinni árum gjört til að efla framfarir landsins, og má þar til telja, að frjálsleg sveitarstjórn er skipuð með lögum, reglulegar póstgöngur komnar um landið, póstferðir með gufuskipi milli Íslands og Danmerkr, og gufuskipsferðir kringum strendr landsins á sumrum; þá er og skipað fyrir um vegabætr með lögum, og leggr nú þingið árlega fram fé til vegagjörða; það styðr og með fjárframlögum búnað og skóla þá, sem stofnaðir eru handa almenningi. Læknaskipun er og komin í allgott horf, með því að læknisembætti er nú stofnað í hverri sýslu landsins, og yfirsetukona sett í hverjum hreppi. Þá eru og af einstökum mönnum stofnuð sjúkrahús í tveim hinum helztu bæjum landsins Reykjavík og Akreyri, og sparisjóðir settir á nokkrum stöðum, og var þetta hvorttveggja í fyrstu mest að þakka hinum framkvæmdarsama landfógeta Árna Thorsteinson, og verðr eigi annað sagt, en allt þetta sé breytingar til bata og sýni framfarir.

* * *

Vér höfum þá, þó að stutt sé, farið yfir æfiferil þjóðar vorrar. Kjör hennar hafa á stundum verið þrautakjör,

og er það eigi orsakalaust. Víkingsandi, virðingarleysi fyrir lögum, eigingirni höfðingja og almenn siðaspilling tætti sundr þjóðveldið og steypti því að lokum. Villumyrkr katólskunnar ásamt því, að æðstu embætti landsins vóru þá vanalega skipuð útlendingum, slökkti hér ljós menntunarinnar; yfirdrottnun hins katólska klerklýðs, einkum harðræði hinna illu og eigingjörnu útlendu byskupa drap mjög niðr dug og dáð landsmanna. Þá kom siðbótin og hratt um koll klerkaveldinu, en þótt hún að sumu leyti leysti menn frá hinni andlegu áþján, þá batnaði eigi hinn líkamlegi hagr þjóðarinnar. Hið útlenda konungsveldi tók nú við fyrir alvöru og varð samtaka harðindum og landplágum í því, að eyða velmegun og kröptum landsins, og lagði að lokum á smiðshöggið með því að selja landið á vald hinum eigingjörnu og harðdrægu einokunarkaupmönnum, en grimm lög og ófrelsi í flestum greinum lögðust yfir þjóðina með feiknarfargi ótta og skelfingar. Nú er þessu breytt, þjóðin hefir nú öðlazt frelsi nálega í öllum efnum, og það er sannfæring vor, að eigi hafi hagr hennar opt verið betri en nú, er á allt er litið; það er sannfæring vor, að frelsið muni framvegis færa henni sælli og betri tíma, en þá, er liðnir eru yfir hana, en til þess að svo verði, þurfum vér að hugsa og breyta sem frjálsir menn. Hver fyrir sig þarf að hafa það hugfast, að hann með guðsótta, ráðvendni og atorku í stöðu sinni á að stuðla að framförum, heill og hamingju ættjarðar sinnar, en að guðleysi, dáðleysi og siðaspilliug hvers einstaks tálmar framförum þjóðfélagsins. Ef vér og niðjar vorir elskum þetta land og neytum krapta vorra því til gagns og framfara, þá mun drottinn farsæla þjóð vora, og ókomnar aldir verða henni lukkusælar, og með þeirri von viljum vér enda bækling þenna.

---

# Helztu ártöl.

874. Ingólfr og Hjörleifr koma alfarið til Íslands.
930. Alþingi sett.
930-1030. Söguöld landsins.
965. Settir fjórðungsdómar.
981. Friðrik byskup tekr að boða kristni.
982. Eiríkr hinn rauði fann Grænland.
986. Friðrik byskup fer af landi brott.
997. Útkoma Þangbrands.
1000. Kristni í lög tekin á alþingi. Leifr hinn heppni fann Amerîku.
1004. Settr fimmtardómr.
1054. Ísleifr Gizurarson kosinn til byskups í Skálholti.
1097. Tíund í lög tekin.
1105. Settr byskupsstóll að Hólum.
1120. Hefst ritöld Íslands.
1133. Andlát Sæmundar prests hins fróða.
1148. Andlát Ara prests hins fróða.
1218-20. Snorri Sturluson í Norvegi. Hann lofar að fá Íslendinga til að gjalda Norvegskonungi skatt.
1230. Hefst Sturlungaöld.
1235. Samningr Hákonar konungs við Sturlu Sighvatsson.
1238. Örlygsstaðabardagi.
1241. Víg Snorra Sturlusonar.
1256. Bændr í Norðlendingafjórðungi heita Hákoni kon. skattgjaldi.
1258. Víg Þorgils skarða. Gizur Þorvaldss. jarl.
1262. Svarinn Hákoni konungi skattr.
1263. Andlát Hákonar konungs.
1268. Andlát Gizurar Þorvaldssonar.
1275. Lögtekinn kristinréttr Árna byskups.
1281. Jónsbók lögtekin.
1297. Samningr um staðamál milli Eiríks konungs og Árna byskups.
1298. Andlát Árna byskups Þorlákssonar.
1306. Neitað á alþingi kröfum Krók-Álfs.

1362. Bardagi á Grund í Eyjafirði. Fall Smiðs hirðstjóra Andrèss.
1388. Ísland gengr ásamt Norvegi undir Danaveldi.
1402. Svarti dauði.
1433. Dráp Jóns byskups Gerrekssonar.
1467. Veginn Björn hirðstjóri Þorleifsson.
1517. Hefst siðbótin á Þýzkalandi.
1521. Ögmundr Pálss. verðr byskup í Skálholti.
1524. Jón Arason verðr byskup á Hólum.
1539. Gizur Einarsson kosinn bysk. í Skálholti. Dráp Diðriks frá Minden.
1541. Kristófer Hvítfeldr sendr til Íslands. Kirkjuskipuuin tekin í lög fyrir Skálholtsbyskupsdæmi.
1548. Andlát Gizurar byskups Einarssonar.
1550. 7. nóv. Líflát Jóns byskups Arasonar og sona hans.
1551. Víg Kristjáns skrifara. Oddeyrardómr. Lúterstrú lögtekin.
1552. Settr skóli að Hólum.
1553. Settr skóli í Skálholti.
1563. Settr 24 manna dómr yfir dóma lögmanna.
1564. Dæmdr stóri dómr.
1581. Dæmdr vopnadómr.
1602. Verzlun á Ísl. leigð íbúum Kaupmannahafnar, Helsingjaeyrar og Málmeyjar.
1619. Lagt lag á innlenda og útlenda vöru.
1625. Hefjast galdrabrennur.
1627. Andlát Guðbr. byskups Þorlákss. Hernaðr og rán Tyrkja.
1555. Andlát Bjarnar á Skarðsá.
1662. Friðriki konungi hinum þriðja svarinn trúnaðr í Kópavogi 28. júlí.
1674. Andlát Hallgr. Pétrssonar.
1675. Andl. Brynjólfs bysk. Sveinssonar.
1683. Stofnað laudfógeta embætti.
1684. Stofnað stiptsbefalingsmannsemb. Nýtt lag lagt á varning.
1688. Stofnað amtmannsembætti. Lögmönnum boðið, að semja frumvarp til nýrrar lögbókar.
1691. Fara dóm. fyrst fram undir þaki á alþingi.
1702. Utauf. Lauritz Gottrups. Lagt nýtt lag á varning. Árni Magnússon og Páll Vídalín

ferðast um landið 1702—1714.

1707. Gengr stóra bóla.

1719. Andlát Þorm. Torfasonar.

1720. Andlát Jóns byskups Vídalíns.

1727. Andlát Páls Vídalíns.

1728. Bruni ísl. skinnbóka og skjala í Kaupmh. Fæddr Jón Eiríksson.

1730. Andl. Árna Magnúss.

1749. Skúli Magnúss. verðr landfógeti.

1752. Verkstaðir settir í Reykjavík. Eggert Ólafsson og Bjarni Pálsson ferðast um Ísland 1752—1757.

1760. Stofnað landlæknisembætti. Stofnað hið ósýnilega félag.

1761-1779. Fjárkláði gengr yfir landið.

1770. Landinu skipt í 2 ömt. Settr stiptamtmaðr. Sett nefnd manna til þess að rannsaka hag landsins.

1772. Niðrskurðr á kláðsjúku fé 1772—1779.

1779. Stofnað hið íslenzka Lærdómslistafélag.

1783. Eldgos úr Skaptárj.

1784-85. Mannfellir.

1785. Seldar Skálhotsstólsjarðir. Byskupsstóll og skóli fluttr til Rv.

1786. Verzlun á Íslandi gefin laus við alla þegna Danakonungs.

1787. Andlát Jóns Eiríkss.

1794. Andlát Skúla Magnússonar. Landsuppfræðingarfél. stofnað.

1798. Í síðasta sinn haldið alþingi við Öxará.

1799. Lögð niðr prentsmiðja að Hólum.

1800. Alþingi afnumið með konungs boði. Landsyfirréttr stofnaðr.

1801. Skóli og byskupsstóll fluttr frá Hólum.

1805. Latínuskól. fluttr frá Reykjav. til Bessast.

1809. Tiltektir Jörgensens.

1816. Stofnað Biblíufélagið og Bókmenntafélagið.

1843. Alþingi endrreist.

1846. Fluttr latínuskólinn frá Bessastöðum til Reykjavíkr.

1847. Stofnaðr prestaskóli í Reykjavík.

1851. Þjóðfundr.

1854. Verzlun á Íslandi látin laus við allar þjóðir.

1856. Kemr upp fjárkláði.

1871. Ákveðin með lögum staða Íslands í ríkinu.

1872. Stofnað landshöfðingjadæmi.

1874. Þúsund. ára hátíðin. Stjórnarskrá Íslands.

